# FORNMANNA SÖGUR,

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FĔLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.
*Fjölsvinnsmál.*

ANNAT BINDI.

Saga Ólafs konúngs Tryggvasonar.

Síðari deild

til loka Svöldrar orrustu.

Kaupmannahöfn, 1826,
Prentaðar hjá *Harðvig Friðrek Popp.*



# SAGA ÓLAFS KONÚNGS TRYGGVASONAR,

EPTIR GÖMLUM SKINNBOKUM

ÚTGEFIN

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

SIÐARI DEILD.

til loka Svöldrar orrustu.

Kaupmannahöfn, 1826,

Prentuð hjá *Harðvig Friðrek Popp.*



## Saga
# Ólafs konúngs Tryggvasonar.

### 151 Kapituli.
### *Frá Óttari ok Ávalda.*

Á ofanverðum dögum Hákonar Aðalsteinsfóstra bjó sá maðr norðr á Hálogalandi í eyju þeirri, er Ylfi hèt, er nefndr er Þorvaldr, ok var kallaðr skiljandi; hann átti þá konu er Þorgerðr hèt ok var Hallfreyðar [1]) dóttir. Galti hèt bróðir hennar, hann var ríkr maðr ok bjó í Sogni. Þorvaldr skiljandi átti 2 sono: hèt annarr Óttarr, annarr hèt Þorkell silfri, ok var hann eigi skilgetinn. Íngjaldr hèt maðr er þar bjó í eyjunni Ylfi; Ávaldi hèt son hans; Íngjaldr var vin Þorvalds, ok var Óttarr at fóstri með Íngjaldi; voro þeir Óttarr ok Ávaldi mjök jafngamlir, ok gerðust þeir brátt fóstbræðr. Maðr er nefndr Sokki, hann var hinn mesti víkíngr ok illgerðamaðr ok fór víða með rán ok hernat [2]). Sokki kom á einu sumri til eyjarinnar Ylfi; hann

[1]) Hallfreðar, *S.* [2]) Hann var í vináttu við Gunnhildi konúngamóður sem mörg önnor illmenni, *bætir við S.*

gekk upp um nótt á eyna með lið sitt, ok kom til bæjar Þorvalds á úvart, svâ at allir menn voro fyrir í svefni; hann segir þá til sinna manna: hèr mân bera vel fjárfaung í hendr, er auðigr maðr býr fyrir, en vörn mun verða engi, ef vèr förum ráðum at; nú skulum vèr sækja bæinn bæði með eldi ok vopnum; skulum vèr taka fè alt at herfángi, en brenna hús ok menn alla; sumir vârir menn skulu fara til Íngjalds ok gera þar slikt hit sama. Engi hans manna latti þessa; báru þeir síþan eld at húsum. Þorvaldr gekk til dura ok spurði, hverr fyrir eldinum rèði; Sokki segir til sín; Þorvaldr mælti: hvat er til saka, þvíat ek veit eigi at vèr hafim þèr mein gert? Sokki svarar: ekki förum vèr víkíngarnir at sökum, þar sem vèr viljum hafa fè manna ok fjör. Sóttu víkíngar bæinn bæði með vopnum ok eldi; brann Þorvaldr þar inni með 15da [1]) mann, en fáer komust brott. Víkíngar tóko fè alt þat er þeir máttu nytjum á koma. Þeir menn, er Sokki hafði sendt til Íngjalds, lögðu þar eld í hús; hann gekk til dura, ok beiddi mönnum útgaungu, en þess var engi kostr af víkíngum; þá hvarf Íngjaldr at sveinunum Óttari ok Ávalda; hann mælti til þeirra: þat er nú vænst at liðnar sè mínar lífstundir, en gjarna vildi ek koma ykkr or eldinum, at þit mættit njóta lengri forlaga; nú mun ek skjóta ykkr út um laundyr,

[1]) 12ta, *S.*

er á ero bænum; leitit þit síðan til skógar með reyknum; ok væri ykkr efni tilseld at hefna þessa, ef ykkr verðr nökkurrar framkvæmðar auðit. Þeir svöruðu: vera mundi vilinn til, en eigi er þat vænligt at svâ búnu. Íngjaldr leiddi þá til laundyranna, ok komust þeir þar í brott, svâ at víkíngar vurðu ekki varir við fyrir gný ok eldsgángi, ok þat er þeir voro eigi feigir. Þeir leituðu annann veg á eyna; komu þeir litlu siðarr til eins bónða, ok báðu hann flytja sik sem skjótazt inn til meginlands. Bóndi kendi sveinana, ok gerði sem þeir beiddu. En er þeir komo inn á land, sögðust þeir vera fátækir sveinar; þeir komu þar framm, er var við land síldarferja nökkur komin norðan or Vâgum, ok ætlaði at fara suðr í land; þeir komo sèr þar í þjónusto, ok fengu sèr far suðr með landi. En er þeir komo suðr á Sognsæ, sögðo sveinarnir, at þeir vildi þar inn í fjörðinn ok kváðust þar eiga frænðr. Stýrimaðr svarar: þat skal nú sem þèr vilit; munut þit eigi hèr verr komnir enn þar sem vèr tókum ykkr; hafit þit oss vel þjónat, ok segir mèr svâ hugr um, at þit munit verða af stundo meira háttar menn, enn nú má líkligt þikkja. Voro þeir síðan fluttir til lands. Síð dags komu þeir til Galta móðurbróður Óttars, ok settust utarliga í hálm. Bóndi gekk til þeirra ok spurði, hverir þeir væri. Óttarr segir satt til sín. Galti mælti: þá mun ykkur kvâma hèr

eigi úsannlig, ok gángit til sætis! Þeir voro þar í góðo yfirlæti 7 vetr eðr 8, ok gerðust menn þroskuligir. Í þann tíma var orosta á Fitjum er Hákon Aðalsteinsfóstri fèll; tók þá ríki í Noregi Gunnhildr ok synir hennar. Sokki víkíngr var vin þeirra mikill; sem mörg önnur illmenni. Eitt vâr mælti Galti til þeirra Óttars: svâ virði ek, Óttarr frændi! sem þú sèr fyrir ykkr fóstbræðrum, ok væntir ek at þú verðir framkvæmdarmaðr; en nú er sú öld í Noregi, at ek treysti eigi at halda ykkr hèr heima með mèr, þvíat þeim mönnum, er í stórsökum ero við oss af drápi feðra ykkarra, mân þikkja at ykkr uppreistar vân, ef þeir vita at þit erut á lífi; en á þessum vetrum sem þit hafit hèr dvalizt með mèr, hefi ek selt jarðir ykkrar ok tekit við lausafè; ætla ek ykkr helzt at sigla kaupferð til Englands, ok vita hversu þat vili takast. Óttarr kvaðst hans ráðum vilja hlíta; fóro þeir til Englands um sumarit ok fengu góða kaupstefnu; þrjú ár eðr 4 voro þeir í siglíngum til Englands; ok áttu þá auð fjár; þá fóro þeir til Orkneyja, ok höfðo þar sem annarstaðar, er þeir komo, góða sæmð af ríkum mönnum.

*Útkoma Óttars ok Ávalda til Íslands.*

152. Einn tíma mælti Óttarr við Ávalda: þat leikr mèr í skapi at kaupa Íslands far ok ráðast þángat, þvíat þat hefir ek spurt, at menn hafa þar frelsi ok góðar náðir; þat láta sèr nú ok sóma margir góðir drengir at staðfestast þar; en þó vildi ek at við færim fyrst til Noregs, ok

vita at vèr næðim Sokka víkíngi; þætti mèr bezt at losna þaðan eigi furr fullkomliga, enn við hefðim nokkut hefnt feðra okkarra. Ávaldi bað hann ráða. Síðan keyptu þeir sèr skip gott Íslands far, sigldu þá austr til Noregs ok hèldo inn í Sogn. En er þeir fundu Galta, sögðu þeir honum alla sína ætlan ok ráðagerð. Galti mælti: þat berr nú vel til; Sokki víkíngr ok bróðir hans, er Sóti heitir, liggja nú einskipa hèðan skamt í brott, ok sofa þeir á landi um nætr í einu lopti, en ek skal fá ykkr til fylgðar mann þann, er Steinn heitir; hann er kunníngi víkínganna, ok munu þeir hann ekki varast. Fóru þeir Óttarr þá til skips síns ok lögðu út um akkeri; þá var kominn á vindr byrvænligr. Síðan fóro þeir til lands 3 saman á einum báti litlum Óttarr, Ávaldi ok Steinn; þeir lendu í leyni skamt frá bæ þeim, er þeir Sokki sváfu um nóttina; þeir gengu upp frá ströndu. En er þeir komu nærr bænum, þá gekk Steinn til fundar við víkínga, ok fèkk sèr til eyrendis slíkt er honum sýndist; kom hann sèr þegar á tal við Sokka ok drakk með þeim um kveldit. En er þeir gengu at sofa, er mikit var af nótt, þá gerði Steinn vísbendíng þeim Óttari. Víkíngarnir voro 7 saman; komo þeir í loptit ok tóku at afklæðast; brann þar ljós ok var bjart inni, en úti var níðamurkr sem mest; þá Óttar ok Ávalda bar at skjótt, svâ at þeir gengu þá neðan á riðit, er víkíngar þeir er síðarst gengu voru komnir í

ofanverdt, snaraðu þeir inn í loptit; lagði Óttarr sverði til Sokka neðan undir brynjuna ok svâ upp í kviðinn, at þat varð þegar hans bani. Ávaldi hjó til Sóta með sverði í því er hann steypti af sèr brynjunni ok sneið af honum báða þjónappana; síðan ljópu þeir út ok ofan fyrir riðit, ok Steinn með þeim, lètu þá myrkrit gæta sín, fóru þeir til bátsins ok svâ út til kaupskipsins; byr var á blásandi; vundu þeir segl upp, þegar er lýsti, ok lètu gánga út á haf, ok þóttu þeir hafa heldr sköruliga ráðit til hefnda. En er Gunnhildr konúnga móðir spur þessi tíðindi, mælti hún: þat er illa vorðit, er ek leiddi ekki þá menn augum, er vini vâra hafa drepit ok skammat, en ek veit eigi hverir gjört hafa, ok verðr þó nú svâ at standa. Þeim Óttari burjaði vel; komu þeir skipi sínu fyrir norðan land í Blönduósi; áðr voro þar numin lönd. Óttarr keypti land í Grímstúngu í Vatzdal at þeim manni er Einarr hèt, ok gaf við kaupskipit; setti Óttarr þar bú saman. Ávaldi var hinn fursta vetr með Óttari; hann var kallaðr Ávaldi skegg; en um vârit keypti hann land at Knjúki í Vatzdal, ok fèkk þeirrar konu, er Hildr hèt; hún var dóttir Eyvindar sörkvis; þeirra dóttir hèt Kolfinna, hún var væn kona ok oflâti mikill. Ólafr hèt maðr er bjó at Haukagili; Ólafr var maðr auðigr ok vinsæll; kona hans hèt Þórhalla, dóttir Ævars ens gamla or Lángadal; dóttir þeirra Ólafs ok Þórhavllu hèt Ásdís, hennar bað Óttarr í Grímstúngu ok fèkk

með miklum penníngum; þau gátu son er hèt Hallfreyðr, hann var kalladr eptir móðurföður Óttars. Annarr son Óttars hèt Galti. Valgerðr hèt dóttir þeirra Óttars ok Ásdísar, hún var kvenna fríðuzt sýnum þeirra er þá voro í Vatzdal. Ólafr at Haukagili fóstraði Hallfreyð dótturson sinn; var hann þar vel haldinn. Hallfreyðr var snemmendis mikill ok sturkr at afli, karlmannligr at allri skapan, nökkut skolbrúnn ok nefljótr, en þó vel farit andlits sköpunum, jarpr á hár ok fór vel hárit; hann þótti heldr margbreytinn þegar hann var nökkut þroskaðr; skáld var hann þegar á únga aldri ok allníðskárr; ekki var hann mjök vinsæll. Þá var Hallfreyðr nærr tvítögr er hann lagði hug á Kolfinnu dóttur Ávalda skeggs. Ávalda var lítit um at Hallfreyðr glepti dóttur hans; en hann vildi gipta honum Kolfinnu; Hallfreyðr vildi eigi kvângast; þá bjó á Máströðum [1]) Márr son Jörundar háls; hann var vinr Ávalda skeggs. Ávaldi fór at finna Má, ok segir honum hvern újafnat Hallfreyðr gerði honum. Márr svarar: hèr ero skjót orræði til; ek skal fá mann til at biðja Kolfinnu dóttur þinnar; maðr heitir Gríss ok er Sæmíngs son; hann byr út í Lángadal fyrir Geitaskarði; hann er vinr minn; Gríss er maðr auðigr ok vinsæll; hann hefir farit vel, verit alt út í Miklagarð ok fengit þar mikla sæmð af stólkonúnginum. Fór þá Ávaldi heim, en Márr sendi orð Grís vin sín-

[1]) Másstöðum, C.

um; kom hann á Mástaði. En er þeir Márr tóko tal saman, þá mælti Márr: ráð ætla ek at gera fyrir þèr, at þú skalt biðja Kolfinnu dóttur Ávalda skeggs; er sá kostr beztr, kona fríð, en fè skortir eigi. Gríss játar þessu, ok ríða þeir Márr til Ávalda við 7da mann. Ávaldi fagnaði þeim vel; gengu þeir allir inn með bónda en settu úti spjót sín; Gríss átti gullrekit spjót. Þeir tóko tal sitt, ok flutti Márr bónorðit fyrir hönd Gríss. Ávaldi tók því vel, kvaðst þar vilja hlíta ráðum Máss, ok ef konunum lízt svâ sem mèr, þá mân honum eigi frávísat; lauk svâ þeim málum at Kolfinna var föstnut Grísi. En meðan þeir sátu inni at þessum málum, kom Hallfreyðr á bæinn við annann mann; en er þeir sá spjótin úti, mælti Hallfreyðr til síns föronauts: komnir munu hèr vera menn nökkurir um lángan veg; gæt þú hesta okkarra, en ek mun gánga til dýngju Kolfinnu. En er þau fundust, spur hann hvat komit væri, en eigi mun þurfa at spurja at, segir hann, Márr mun kominn at biðja þín, en ekki trúi ek at þat verði vel svâ búit. Kolfinna svarar: lát þú þá fyrirsjá er ráða eigu; þat ráð skal ek hafa, segir hann, þó at þèr þikki biðill þinn nú þegar betri enn ek. Gengu þau Hallfreyðr þá út, ok setti hann Kolfinnu í knè sèr hjá dýngju vegginum. Í því komu menn út; Gríss var augdapr; hann mælti: hverir ero þessir menn er svâ talast við blíðliga? Ávaldi svarar: þar er Hallfreyðr Óttarsson ok

Kolfinna dóttir mín. Gríss mælti: er þessu vant? opt berr svâ at, segir Ávaldi, en þú átt nú af at ráða þessi vandræði, er hún er þín festarkona. Gríss mælti: svâ virði ek at þetta sè gert til glettu við mik. Þá mælti Hallfreyðr: vita skaltu þat, Gríss! at þú skalt hafa minn fjandskap fullkominn, ef þú ætlar þèr þenna ráðahag. Márr svarar: engis virði ek orð þín hèr um; þvíat þau munu engis metin um þetta; ok mân Ávaldi ráða eiga dóttur sinni. Þá kvað Hallfreyðr vísu:

Svâ nökku verðr Sökkvis
sann args troga margra
ægiligs fyrir augum
allheiðins mèr reiði;
sem úlítill úti
alls mest við för gesta
stæri ek brag fyrir buri [1])
búr hundr gamall stúri;

ok hirði ek ekki, Blót-Márr [2]), hvat þú leggr til. Már mælti: þat skal þèr grimmu gjalda, ef þú flimtar mik. Hallfreyðr svarar: ek mân ráða orðum mínum. Reið hann þá í brott ok föronautr hans. Márr segir at eigi mátti svâ búit standa, ok bað þá ríða eptir Hallfreyði. Þeir gerðu svâ, fèkk Ávaldi þeim 2 menn ok voro þeir þá saman 9; Hallfreyðr átti heima at Haukagili; Ólaf fóstra hans grunaði um ferð þeirra Márs ok Gríss, sendi hann þegar til Óttars ok

[1]) brúði, *F.* [2]) um blótmanninn, *F.*

lèt segja honum allan málavöxt, at Hallfreyðr mundi þurfa manna við. Óttarr brá við þegar er honum komo orð; bjó hann sik ok alla þá menn er hann fèkk; en er hann kom til Haukagils, þá var Ólafr vâpnaðr ok kominn á hest ok allir húskarlar hans.

*Frá Hallfreyði Óttarssyni.*

153. Nú er at segja frá Hallfreyði; þeir ríða 2 undan en 9 eptir. En er hvârir sá aðra, þá mælti Hallfreyðr: eptirför er okkr veitt, ok skulu við aldri lengr láta eltast; þeir voro þá komnir hjá holti nökkuru; mælti Hallfreyðr at þeir skyldi þar viðbúast. Þeir Gríss komo skjótt ok sóttu at þeim; en þeir vörðust vel ok drengiliga, en þó kom at því sem mælt er, at ekki má við margnum; lauk svâ at þeir voro báðir handteknir ok bundnir. Var þat mjök jafn skjótt at þeir Gríss voro á bak komnir, ok hann mælti: menn ríða hèr at oss, ok munu vera eigi færri saman enn 30, má vera at sigrinn verði ekki lángærr; riðu þeir þá mikinn undan ok leitaðu sèr vígis; þeir námu staðar við götuskarðit, er þeir komo yfir Vatzdalsá. Óttarr kom at ánni með 30 manna. Gríss heilsaði Óttari ok spurði, hvat hann vildi við mannfjölda svâ mikinn. Óttarr svarar: hvar er Hallfreyðr frændi minn? Gríss mælti: bundinn er hann en eigi drepinn, ok liggr hann undir holti því er vèr komum saman. Óttarr mælti: úvirðuliga hafit þèr við hann búit,

þó at sakar væri nökkurar, eðr villu, Gríss! unna mèr eindæmis um þetta mál? Gríss svarar: reyndr ertu at drengskap, ok vil ek þessu játa; festu þeir þetta sín í millum ok skildust sáttir. Snèri Óttarr þá aptr við sína menn; hann fann þá Hallfreyð ok leysti þá. Óttarr mælti: eigi er ferð þessi, frændi! vorðin virðulig. Hallfreyðr sannaði þat, ok spurði, ef þeir Gríss hefði fundizt. Óttarr kvað svâ vera, ok segir hvat at sættum varð með þeim. Hallfreyðr mælti: eigi hirði ek, faðir! hversu þú gerir um þetta mál, ef Gríss fær eigi Kolfinnu. Því skaltu eigi ráða, segir Óttarr; hann skal eiga konona, þvíat *hann trúði mèr til gjörðarinnar*, en þú skalt fara utan, frændi! ok leita þèr þar meiri sæmðar ok heilla. Hallfreyðr svarar: vant er þó at vita hverir mèr ero trúir, ef feðrnir bregðast; mân nú *ok svâ fara*, at hvârgi okkarr mâu hafa vel; skaltu eigi einn ráða hèr um; því þat skal furst at hendi bera, þegar ek finn Grís, at ek skal bjóða honum hólmgaungu. Síðan skilja þeir feðgar tal sitt, ríðr Óttarr heim í Grímstúngu, en Hallfreyðr til Haukagils með Ólafi. Fám dögum *síðarr* sendi Ólafr orð Óttari mági sínum, at hann skuli bregða ráðahag með þeim Grís ok Kolfinnu, segir elligar vera *vandræða* vant við *skaplyndi* Hallfreyðar. En þeim Ólafi ok Hallfreyði koma þau orð, at hann vill þeim um ekki vera bágráðr, ef hann

má um mæla; var þeim þat ok sagt með, at Óttarr var sjúkr mjök ok bað Hallfreyð sem skjótazt koma til sín, þvíat Óttarr vill skipa til um fjárfar sitt áðr hann láti af berast. Hallfreyðr fór þegar at finna föður sinn, er hann spurði vanmátt hans; en er hann kom í Grímstúngu var Óttarr sóttlauss, ok lèt þegar taka Hallfreyð höndum, ok setja í fjötr. Þá mælti Óttarr: nú eru 2 kostir til, Hallfreyðr! at sitja hèr í fjötri eðr láta mik einn öllu ráða fyrir þína hönd. Hallfreyðr svarar: eigi hefir þú þó í tveim höndum við mik um fjandskapinn; nú muntu heldr ráða hljóta enn ek sitja hèr í fjötrum ok pínu; voro þá látnir fjötrar af Hallfreyði. Gríss gekk at eiga Kolfinnu, ok fór hún til bús með honum, ok varð hún honum lítt unnandi. Ólafr at Haukagili fýsti Hallfreyð frænda sinn ok fóstra at fara utan; hèt hann at fá honum fè svâ at hann væri vel sæmðr at fara með öðrum mönnum. Óttarr faðir hans talaði ok slíkt hit sama; hann lauk ok uppgjörð um mál þeirra Gríss, at Gríss skyldi gjalda hálft 100 silfrs; Hallfreyðr skyldi fara utan. Hann vildi ekki hafa fé þat, ok mælti til þeirra föður síns ok Ólafs: sè ek ástráð ykkur við mik; nú er þat líkazt, at þit ráðit þessu at sinni, er þit leggit svâ mikit kapp á, at ek fara utan, en svâ segir mèr hugr um, at laung verði vandkvæði vor Gríss; fór Hallfreyðr þá til skips í Hvítá ok utan um sumarit.

*Viðreign Óttars ok Vatzdæla.*

154. Í þann tíma bjó at Hofi í Vatzdal Þorsteinn Íngimundarson; hann var höfðíngi mikill, vitr maðr, góðgjarn ok vinsæll. Íngólfr hèt son hans en annarr Guðbrandr. Íngólfr var vænstr maðr í þeim sveitum; um hann var þetta kveðit:

Allar vildu meyjar
með Íngólfi gánga,
þær er vaxnar voro,
vesöl kvaðst hún æ til lítil;
svâ vil ek ok, kvað kerlíng,
með Íngólfi gánga,
meðan mèr tvær um tolla
tenn [1] í efra gómi.

Íngólfr vandi kvâmur sínar í Grímstúngur, ok átti tal við Valgerði Óttars dóttur, systur Hallfreyðar. Óttarr vandaði um við Íngólf, ok bað hann lètta af kvâmum. Íngólfr svarar glettiliga, kvað svâ skipaðan Vatzdal at byggðum, at hann mundi sjálfráðr ferða sinna, ok gerist ekki at. Þá fór Óttarr á fund Þorsteins, ok bað hann leggja [2] til við son sinn, at hann gerði mönnum eigi skapraunir. Þorsteinn svaraði vel ok kvað svâ vera skyldo. Litlu síðarr kom Þorsteinn at máli við Íngólf, ok bað hann lètta af tali við Valgerði dóttur Óttars bónda. Íngólfr svarar: þat skal ek víst gera fyrir þín

[1]) tennr, C. [2]) orð, *bætir við* C.

orð, faðir! Lèt hann þá fnrst í stað af kvâmum í Grímstúngur, en hann tók þá at yrkja mansaungsdrápu um Valgerði. Óttarr reiddist því mjök; fór hann þá enn at hitta Þorstein, ok sagði sèr í þessu [1]) leitað mikillar úsæmðar. Nú vil ek [2]), segir hann, at þú leyfir mèr at stefna Íngólfi, þvíat ek nenni [3]) eigi at kyrt sè; ok spurt munit þèr þat hafa, at ek hefi eigi setit mönnum skammir ok skapraunir. Þorsteinn svarar: eigi mân ek banna þèr at stefna Íngólfi syni mínum, þvíat þú talar þat eigi fjarri rèttu; en meðallagi er þèr þat ráðligt við skaplyndi frænda vârra. Jökull Íngimundarson var staddr við þessa ræðu, bróðir Þorsteins; hann brást við reiðr ok mælti til Óttars: heyr á endimi, segir hann, at þú munir fara málum á hendr oss frændum hèr í sveit, ok skal þèr þat skjótt at illu verða. Síðan bauð Þorsteinn at gera um mál þeirra á Húnavatz þíngi, ok því játaði Óttarr við bæn ok ráð vina sinna. Þá mælti Þorsteinn: skjót er gerð mín hversu sem yðr líkar, ek geri til handa Óttari fyrir drápu málit hálft 100 silfrs; en Óttarr skal selja jarðir sínar ok ráðast í brottu hèðan or sveit. Óttari þótti sèr boðinn í þessu hinn mesti újafnaðr; en Þorsteinn sagðist hafa eigi síðr sèð fyrir hans kosti í slíku við skaplyndi hvârratveggju. Óttarr fór þá suðr um heiði,

[1]) vera, *bætir við C.* [2]) biðja þik, *bætir við C.* [3]) uni, *C.*

ok bjó í Norðrárdal, þar sem heitir á Óttarsstöðum. Þá hafði Hallfreyðr son hans áðr um sumarit farit utan i Hvítá; greiddist hans ferð vel ok kom við Noreg; þá rèð Noregi Hákon jarl Sigurðarson. Hallfreyðr sótti brátt á fund jarls ok kvaddi hann; jarl tók því vel ok spurði, hverr hann væri; Hallfreyðr nefndi sik ok sagðist vera íslenzkr maðr; en erendi mitt er þat, herra! segir hann, at ek hefir ort kvæði um yðr, ok vildi ek fá hljóð at flytja; jarl svarar: líkligr ertu til at vera maðr höfðíngja djarfr, ok skal hlýða kvæði þínu. Hallfreyðr flutti kvæðit sköruliga, ok var þat drápa; jarl þakkaði honum, ok gaf honum klæði góð ok mikla öxi silfrrekna, ok bauð honum með sèr at vera um vetrinn; þat þá Hallfreyðr. En um sumarit eptir fór hann út til Íslands ok kom fyrir sunnan land; þá hafði faðir hans farit norðan um vârit, var Hallfreyðr með honum um vetrinn; var Hallfreyðr þá í siglíngum nökkur sumur, ok kom aldri fyrir norðan land, gerðist hann þá auðigr ok átti kaupskipit. Á einu sumri er Hallfreyðr kom af Íslandi, lá hann við Agðanes, en er hann hitti mann at máli, var honum sagt, at höfðíngja skipti var vorðit í Noregi, var Hákon jarl dauðr, en til ríkis kominn Ólafr konúngr Tryggvason. Þat var ok sagt með, at Ólafr konúngr bauð öllum mönnum kristni; þetta þótti Hallfreyði alt saman mikil tíðindi. Vurðu skipverjar allir

á þat sáttir, at þeir skyldo heita á guðin til þess at þeim gæfi byr at sigla brotto af Noregi nökkur [1]) til heiðinna landa. Svâ var heitit stofnat, at þeir skyldi gefa fè ok þriggja sálda avl Frey, ef þeim gæfi til Svíþjóðar, en Þór eðr Óðni ef þá bæri aptr til Íslands [2]). Þeim gaf eigi á brottu; vurðu þá um síðir at sigla inn á fjörðinn, lögðu þeir þá til hafnar [3]), ok náðu eigi sjálfu læginu, þvíat þar lágu fyrir lángskip mörg; um nóttina gerði á storm veðrs af hafi, en þeir lágu á svæðinu, höfðu þeir þá strengja raun mikla ok akkera; þá var enn nóttin skamma stund myrk, en þegar er lýsti af degi, mælti einn af lángskipamönnum: þessir menn á kaupskipinu ero komnir háskasamliga, þvíat þeir liggja þar er mest stendr á veðrit, ok dugum vel til at hjálpa þeim. Gengu þá 30 manna á eitt skip ok rèro til þeirra; einn þeirra sat ok stýrði, sá var í ólpu grænni ok mikill vexti. Þeir komo at kaupskipinu, þá mælti sá er stýrði til kaupmanna: þèr erot staddir ekki vel, þvíat stormr er á, en hèr fyrir úhreint ok skerjótt, ok skulum vèr greiða ferðyðra. Hallfreyðr mælti: hvat heitir þú? Hann svarar: ek heiti nú Akkerisfrakki. En í því er þeir töluðust þetta við, þá brast einn akkeris strengrinn, ok gekk

[1]) *þannig allir.* [2]) síðan lágu þeir þar lengi ok, *bætir við C.* [3]) þeirrar er Flauki hèt, *bætir við C.* þeirrar er Flaðki hèt, *F.*

í sundr. Ólpumaðrinn fleygði sèr þegar útbyrðis, ok gat gripit strenginn í niðrdrættinum [1]) ok bar upp í skip. Þá er strengrinn brast kvað Hallfreyðr þetta:

Færum festar vorar
ferr særoka at knerri
svörð tekr heldr at herða
hvar er Akkerisfrakki?

Ólpumaðrinn var þá upp kominn í skip sitt ok svarar svâ:

Enn í ólpu grænni
ek fèkk dreng til strengja
þann er hnakkmiðum hnykkir
hèr er Akkerisfrakki,

ef þú vill þat vita, segir hann; voro þá dregin upp grunnfæri [2]) þeirra; rèru þessir fyrir kaupskipinu ok fluttu þá í gott lægi; en eigi vissu kaupmenn hver þessi var ólpumaðrinn; var þeim þá sagt litlu síðarr at þar hafði verit Ólafr konúngr; var konúngr þá kominn at norðan er hann hafði ætlat norðr á Hálogaland sem áðr er getit, lagði konúngr þá skipum sínum til Níðaróss; dvaldist hann þar, en var stundum á Hlöðum með hirðsveitir sínar. Hallfreðr hèlt ok skipi sínu til Níðaróss.

*Um Rögnvald ok Rauð.*

155. Ólafr konúngr hafði þá Rögnvald or Ærvík ok Rauð með sèr í varðhaldi; kon-

[1]) niðr-ferðinni, C. [2]) ackeri, C.

úngr gekk opt til tals við Rögnvald, þvíat honum virðist orðalag hans margt skynsamligt. Þat var einn dag, er þeir talaðu, at konúngr spurði, ef hann vissi nökkut til hverr valda mundi brennu Þórólfs skjálgs á Jaðri. Rögnvaldr svarar: hví mân ek þat vita; ek var lengi með Þórólfi á Jaðri, ok var hann heill ok kátr áðr ek fór þaðan; en litlu síðarr var mèr sögð brenna hans ok lát; en ávalt, er þess er getit, kemr mèr í hug Rauðr í Rauðsey. Ekki fèkk konúngr fleira af honum þar um. Síðan hitti konúngr Rauð ok frètti eptir, ef hann vissi nökkut til, hverr Þórólf skiálg hefði innibrennt. Rauðr svarar: þat veit ek eigi, en Rögnvaldr í Ærvík kemr mèr jafnan í hug, er þar er um talat. Konúngr mælti: vill þú nú láta skírast. Rauðr svarar: eigi skal þat furr enn ek veit, hvat Rögnvaldr gerir at; en eigi er þat fyrir því, illa líkar mèr við hann. Þá lèt konúngr þá Rögnvald leiða báða saman, ok spurði þá enn at þeim sömum tíðindum; Rögnvaldr svarar: slíkt má ek af segja, konúngr! sem í fursta er þú spurðir eptir. Konúngr mælti: sèt er þat at hvârtveggi ykkarr mân vera haldinorðr; nú með því at þit vilit eigi segja mèr, þá skal ek segja ykkr þar nökkut af. Hóf hann þá upp ok sagði alt til enda skipti þeirra Skjálgs ok Rögnvalds; nú hefir mèr svâ flutt, segir konúngr, Sigríðr kona þín, Rögnvaldr! ok er þess vân at þit njótit hennar bæði nú

ok síðarr, ok mân ek þetta ekki svâ mjök refsa, sem margir munu ætla, ok efni standa til, ef þit takit rètta trú ok látit skírast ok gerist fullkomliga vârir vinir. Þá svarar Rögnvaldr: mikil er gipta [1]) þín, konúngr! ok góðvili, þess munu vèr eilífliga njóta ok allir þeir er þèr hlýðnast. Gekk Rögnvaldr þá við verkinu með öllum atburðum sem konúngr hafði sagt; játaðu þeir Rauðr þá báðir at hafa ok halda þann sið er konúngr boðaði; voro þeir síðan skírðir, ok tók konúngr þá í sína vináttu. Reiknaðust þeir við um frændsemi, ok gekk Rögnvaldr við faðerni Rauðs; fór hvârr þeirra heim til sinna eigna með leyfi ok ráði konúngs; hèldo þeir vel trú sína ok vingan við Ólaf konúng meðan hann rèði Noregi; en ekki er þess getið, at þeir gyldi fè frændum Þórólfs skjálgs fyrir brennuna.

*Frá Kjartani Ólafssyni.*

156. Ólafr páe son Havskulds Dalakolls sonar átti Þorgerði Egilsdóttur Skallagríms sonar sem fyrr er ritat; þeirra son hinn elzti hèt Kjartan; hann var kallaðr eptir Mýrkjartan [2]) Íra konúngi móðurföður Ólafs. Ólafr páe bjó í Hjarðarholti í Laxárdal; hann var ríkr maðr ok göfugr, manna vinsælaztr ok góðgjarnaztr. Kjartan Ólafsson vóx upp heima í Hjarðarholti með föður sínum. Kjartan var manna fríðaztr í þann tíma at allri skapan þeirra manna er fæðst

[1]) þannig C, gipt, A. [2]) Mýrkjatani, C.

höfðo á Íslandi; hann var mikilleitr ok vel farit í andliti, ljóslitaðr, cygðr manna bezt, mikit hár hafði hann ok fagrt sem silki, ok fèll alt með lokkum; hann var allvel eygðr; hann var maðr mikill ok sturkr svâ sem verit hafði Egill móðurfaðir hans eðr Þórólfr Skallagrímsson; hverjum manni var Kjartan betr á sik kominn, manna var hann hagaztr ok vígr bezt, ok sundfærr var hann hverjum manni betr, ok allar íþróttir hafði hann umfram aðra menn á Íslandi; hann var maðr lèttúðigr ok lítillátr, mildr af fè ok svâ vinsæll, at hvert barn unni honum [er kunni hans nafn [1]); hann elskaði Ólafr mest allra barna sinna. Þar fæddist ok upp í Hjarðarholti Bolli Þorleiksson bróðurson Ólafs; voro þeir Kjartan frændr mjök jafnaldra ok fóstbræðr. Bolli var mikill maðr vexti ok allsturkr, fríðr sýnum, rèttnefjaðr ok heldr lángleitr, þykkvarraðr ok þó ekki munnljótr, grunneygðr [2]) ok þó nökkut [3]) opineygðr, ok lágu fagrt augun, ljósjarpr var hann á hár, manna hermannligaztr ok hinn mesti skartsmaðr; hann gekk nærst Kjartani um alla atgervi; var með þeim fóstbræðrum allástúðigt, svâ at hvergi fór Kjartan þess at Bolli fylgði honum eigi.

[*Frá Laugamönnum*].

157. I þann tíma bjó Ósvífr Helgason at Laugum í Sælíngsdal [4]); hann var spekíngr

[1]) *vantar í C.* [2]) *þannig C.* grimmeygðr, *A.* [3]) ecki, *F.*
[4]) Sælíngsdalstúngu, *C.*

mikill ok auðmaðr. Ósvífr var kominn at favðurætt frá Katli flatnef, syni Bjarnar bunu, sem fyrr er getit, en moðir hans hèt Niðbjörg; hennar móðir var Kaðlín dóttir Gaunguhrólfs Rögnvaldssonar Mæra jarls. Ósvífr átti þórdísi dóttur þórólfs lága af Meðalfellsströnd; þau áttu 5 sono, þá sem áðr ero nefndir; Óspakr var þeirra elztr ok vinsælaztr, en þórólfr ýngstr. Guðrún hèt dóttir Ósvífrs; hún var fyrir öllum þeim konum er þá vóxu upp á Íslandi, bæði at vænleik ok vitsmunum; hún var ok hin mesta kurteisiskona, [svâ at þat þótti alt sem barna vipur einar væri, er aðrar konur höfðu í skarti hjá henni [1]); allra kvenna var hún kænust ok bezt máli farin, ok avrlyndri enn flestar konur aðrar. Um allan skörúngskap var Guðrún fyrir öðrum konum á Íslandi; hún var elzt barna þeirra Ósvífrs, ok hafði hún mjök ráð fyrir liði þeirra. Laugabær stendr fyrir norðan Sælíngsdalsá gegnt Túngu. þá er Guðrún Ósvífrs dóttir var 15 vetra, var hún gipt þeim manni er hèt þorvaldr; hann var auðigr maðr; hann bjó í Garpsdal [2]) í Króksfirði [3]). þorvaldr var son Haldórs goða. Guðrún varð honum lítt unnandi ok skildi við hann. Guðrún giptist þórði syni Glúms Geirasonar; hann var kendr við moður sina, þvíat hún lifði lengr enn Glúmr; ok var hann kallaðr þórðr Íngunn-

[1]) *vantar í C.* [2]) *þannig C.* garsdal, *A.* [3]) Krossfirði, *C.*

arson; hann drukknaði á Breiðafirði; var þeirra son Þórðr köttr er Snorri goði fóstraði ok fæddi upp at Helgafelli; hans son var Stúfr skáld. Guðrún sat þá heima at Laugum ok var ekkja um hríð. Ólafr Höskuldsson sat í búi síno með miklum sóma í Hjarðarholti; voro þá heima með honum allir synir hans, ok svâ Bolli Þorleiksson frændi þeirra. Kjartan fór optliga til Sælíngsdals laugar; jafnan bar svâ til at Guðrún var at Laugo, er Kjartan kom þar; þótti Kjartani skemtiligt at tala laungum við hana, þvíat hún var bæði vitr ok orðsnjöll; var þat ok margra manna mál, at með þeim Kjartani ok Guðrúnu væri mest jafnræði þeirra manna er þá vóxu upp á Íslandi. Vinátta mikil var með þeim *Ósvífri ok Ólafi þá*, ekki *því síðr þó* at kært gerðist með hinum ýngrum [1]) mönnum; en þó ræddi Ólafr einn tíma við Kjartan: eigi veit ek, segir hann, hví mèr er jafnan svâ mikill viðbjóðr um þat, er þú ferr til Lauga ok átt tal við Guðrúnu; eigi er þat fyrir því at mèr þikki eigi Guðrún fyrirkona allra annarra, ok hún ein er svâ kvenna [2]) at mèr þikkir þèr fullkosta; en þó er þat hugboð mitt, en eigi vil ek þess spá, at vèr frændr ok Laugamenn berim eigi alsendis giptu til um vor skipti ok vináttu. Kjartan svarar: enga luti vil ek gera ímóti vilja þínum, faðir! þá sem ek má ráða ok við gera; en

[1]) úngum, C. [2]) *þannig C, er bætir við:* á Íslandi. *A hefr:* kvinna.

vænti ek at þetta fari betr enn þèr segir hugr um. Hèlt Kjartan [1]) teknum hætti um ferðir sínar til Lauga. Bolli fór jafnan með honum.

*Frá Víðdælum.*

158. Ásgeirr hèt maðr ok var kallaðr æðikollr, hann bjó at Ásgeirsá í Víðidal; [hann var son Auðunar skökuls, er furstr kom sinna kynsmanna til Íslands ok nam Víðidal. Auðun skökull var Bjarnar son; Björn var son Hundasteinars [2]) jarls á Englandi ok Ólofar dóttur Ragnars loðbrókar. Annarr son Auðunar skökuls var Þorgrímr hærukollr, faðir Ásmundar, föður Grettis. Dóttir Auðunar skökuls hèt Þóra; hún var móðir Halls, föður Úlfhildar, móður Ástu er átti Haraldr konúngr grænski; þeirra son var Ólafr konúngr hinn helgi. Ásgeirr Auðunarson átti Jórunni dóttur Íngimundar ens gamla; þeirra son hèt Auðun, faðir Ásgeirs, föður Auðunar, föður Egils er atti Úlfeiði [3]), dóttur Eyólfs hins halta, Guðmundarsonar hins ríka. Son þeirra Egils ok Ulfeiðar [4]) var Eyólfr, er veginn var á alþíngi; hann var faðir Orms kapalíns Thorláks biskups. Annarr son Ásgeirs æðikolls hèt Þorvaldr, faðir Davllu, er átt hafði Ísleifr biskup; þeirra son var Gizur biskup; hinn þriði son Ásgeirs hèt Kálfr; hann var í þenna tíma í kaupferðum, ok þótti enn nýtazti fardrengr. Þuríðr

[1]) *þannig* C. Bolli, *A.* [2]) Auðun skökull hèt maðr, hann var þá gamall maðr, son Bjarnar, Hundasonar, Steinarssonar, *C.* [3]) Hallfríði, *C.* [4]) Ulfhildar, *C.*

hèt dóttir Ásgeirs, hún var gipt Þorkeli kugga, syni [Þórðar gellis [1]); þeirra son hèt Þorsteinn. Önnur dóttir Ásgeirs hèt Hrefna; hún var kvenna vænst norðr í sveitum ok vel vinsæl.

*Frá utanferð Kjartans.*

159. Þat er sagt at Kjartan Ólafsson gerði ferð sína snimma um vârit eitt suðr til Borgarfjarðar. Bolli fóstbróðir [2]) hans fór með honum; er ekki getið um ferð þeirra furr enn þeir komo til Borgar; þar bjó þá Þorsteinn Egilsson, móðurbróðir Kjartans. Tók Þorsteinn allvel við Kjartani frænda sínum, ok sýndi á sèr hinn mesta blíðskap við hans kvâmu; sagðist mikla þökk kunna at hann væri þar lengi; dvöldust þeir Kjartan at Borg um hríð; þann vetr hafði staðit uppi skip í Gufárósi; þat skip átti Kálfr Ásgeirsson, er furr var getit; hann hafði þá verit um vetrinn á vist með Þorsteini at Borg. Kjartan sagði Þorsteini í hljóði, at þat væri mest eyrendi hans suðr þángat, at hann vill kaupa skipit hálft at Kálfi, ok kvaðst vilja fara utan um sumarit, ok spurði Þorstein, hversu honum virðist Kálfr í lyndi. Þorsteinn svarar: þat hygg ek sannliga, at Kálfr sè góðr drengr ok vel skapi farinn; er þat mikil vârkunn, frændi! at þik fýsi at kanna annarra manna siðu; mun þín ferð með nökkuru móti verða merkilig; þikkjumst vèr ok frændr þínir þar allmikit í hættu eiga er þú ert. Síðan keypti Kjartan skipit hálft, ok

[1]) *vantar í C.* [2]) frændi, *C.*

gerðu þeir Kálfr fèlag; skyldi Kjartan kominn til skips þá er 10 vikur ero af sumri. Reið Kjartan þá vestr til Dala, ok þá góðar gjafar af Þorsteini frænda sínum. En er hann kom heim ok sagði föþur sínum þessa ráðabreytni, þá svarar Ólafr: skjótt hefir þú þessu ráðit, frændi! en engi brigð mun ek hèr á gera; litlu síðarr reið Kjartan til Lauga, ok sagði Guðrúnu, at hann ætlaði utan; hún kvað hann hafa [gjört þessu bráðráðit [1]); hafði hún þar um nökkur orð fleiri þau er Kjartan mætti skilja, at hún lèt sèr at þessu ógetit [1]). Kjartan mælti: ef þèr mislíkar þetta, þá skal ek svâ gera annann lut at þèr þikki vel. Hún svarar: efn þú þetta, þvíat ek man brátt yfir því lýsa. Kjartan bað hana svâ gera. Guðrún mælti: ek vil fara utan með þèr í sumar, ok hefir þú yfirbætt við mik um þetta bráðræði, þvíat ekki ann ek Íslandi. Kjartan mælti: þetta má eigi vera, þvíat bræðr þínir ero úráðnir en faðir þinn gamall, ok ero þeir allri forsjá sviptir, ef þú ferr af landi brott, en bíð þú mín 3 vetr svâ at þú giptist eigi. Guðrún kvaðst honum mundo engu heita um þat. Skildu þau við þat, at sinn veg þótti hvâru. Reið Kjartan þá heim í Hjarðarholt, ok hèlt á búnaði sínum. Ólafr páe reið til þíngs um sumarit. Reið Kjartan með föður sínum vestan or Dölum ok skildust í Norðrárdal. Reið Kjartan þá til skips við 10da mann; var Bolli frændi

[1]) skjótt þessu raðit, C. [2]) lítt getit, C.

hans þar í för. Kálfr Ásgersson fagnaði vel Kjartani; þeir lètu í haf þegar þeir voro búnir; þeim burjaði vel; tóko Noreg norðr við Þrándheim; lögðu inn til Agðaness; þar frèttu þeir þau tíþindi, at Hákon jarl var dauðr, en Ólafr Tryggvason í land kominn, ok alt landsfólk gengit undir hann, ok tekit hann til konúngs; svâ þat með, at Ólafr konúngr boðaði siðaskipti þar í landi, ok gengu menn undir þat allmisjafnt. Þeir Kjartan hèldo skipi síno inn til Níðaróss. Þá voro margir íslenzkir menn í Noregi þeir er mikils voro verðir; lágu þar þá fyrir bryggjunum 3 kaupskip er íslenzkir menn áttu: eitt skip átti Brandr hinn örvi, son Vermundar Þorgrímssonar: annat átti bræðr 2, synir Breiðár-Skeggja austan or Fljótshlíð; hèt annarr Bjarni, en annarr Þórhallr: þriðja skip átti Hallfreðr skáld Ottarsson; var hann þar þá mjök nýkominn er Kjartan kom, þvíat þeir siglðu eitt sumar af Íslandi. Allir fagnaðu þeir enir íslenzku menn vel Kjartani, ok þó Brandr einna bezt; þvíat þeir voro áðr mjök kunnir. Allir Íslendíngar þeir er nú voro nefndir, höfðo átt samband at því, at neita sið þeim er Ólafr konúngr boðaði, aðr enn Kjartan var kominn; en nú báru þeir enn ráð saman, ok leitaðu við hann, hvat hann vildi atgera; hann tók lítinn [1]) af öllu þar um, en kvaðst því mundo samþykkja sem þeim sýndist öllum ráðligazt.

[1]) *þannig A ok C;* litið, *S.*

*Sundleikar framdir á ánni Níð.*

160. Ólafr konúngr var þar þá [1]) ok hafði fjölda manns; lèt hann þar framflytja starfa mikinn, þvíat hann lèt þar setja kaupstað í Níþarósi, ok húsa konúngs garð upp frá Skipakróki. Þar lèt hann ok reisa kirkju um haustit. Konúngr lèt margar tóptir til garða [2]) þar á árbakkanum, ok gaf síðan þeim mönnum sem honum sýndist, ok sèr vildo láta hús gera. Þat var um haustið einn góðan veðrdag, at menn fóro or bænum til sunds á ána Níð. Þat sá þeir Íslendíngarnir. Kjartan mælti at þeir mundi gánga til at sjá sundsíþróttir bæjarmanna; þeir gerðo svâ, ok sá um daginn at þar lèk einn maðr á sundi lángt umfram alla aðra þá er þar voro. Þá mælti Kjartan til Hallfreðar Ottarssonar: vill þú gánga til at reyna sund við þenna mann? Hallfreðr svarar: þat ferr fjarri, þvíat þar er sá maðr er ek ætla [í engum lut at jafnbjóða [3]). Þá ræddi Kjartan við Bolla frænda sinn, ef hann vildi freista sunds við bæjarmanninn; hann svarar: ekki ætla ek þat mitt færi. Kjartan mælti: eigi veit ek hvar nú kemr fram kapp ykkart; skal ek þá til ef hvârgi ykkarr þorir. Gekk hann þá at ánni fram þar gagnvart sem menn voro á sundi. Kjartan var í skarlats kurtli rauðum; hann kastar klæðum, fleygir sèr síðan út á ána; lagðist hann at þeim manni

[1]) í bænum *bætir við* C, í Níðarósi, *S.* [2]) *þannig C, S.* gerða, *A.* [3]) ígegnum kominn vera þessa list, *C.*

er bezt var syndr, færði hann þegar í kaf, ok hèlt niðri um hríð. Eptir þat lèt Kjartan þenna mann upp; en er þeir höfðo tekit eigi lánga hvíld, þá greip bæjarmaðrinn Kjartan ok keyrði í kaf; voro þá niðri heldr lengr enn Kjartani þótti hæfiligazt; komu enn upp um síðir; engi höfðust þeir orð við; fóro enn niðr hit 3 sinn; voro þeir þá miklu lengst í kafi; vissi Kjartan þá varla hversu þessi leikr mundi fara, þvíat hann þóttist aldri furr hafa komit í jafnkrappan stað. Þar kemr enn at þessi maðr lætr hann upp; leggjast þeir til lands báðir ok tóko at klæðast. Bæði þótti Kjartani bæjarmaðrinn mikill ok sturkligr; þessi maðr spur hverr sjá maðr væri; Kjartan segir nafn sitt. Bæjarmaðrinn mælti: þú ert sundfærr vel, Íslendíngr! ertu svâ búinn at öðrum íþróttum sem þessi? Kjartan svarar: engi sæmð er mèr nú í þessi; mun ok svâ fara um aðrar þó at íþróttir hafi kallaðar verit á mínu landi. Bæjarmaðr mælti: þat mun ráða nökkuru hvert orð [þú fær af íþróttum þínum [1]) við hvern þú átt um, eðr hví spurr þú mik eigi at hvat ek heiti? Kjartan sagðist ekki hirða um nafn hans. Bæjarmaðr mælti: þat er bæði at þú ert maðr allgerviligr enda lætr þú heldr stórliga; en eigi því síðr skaltu nú vita nafn mitt ok við hvern þú hefir sundit þreytt: ek em Ólafr Tryggvason, er nú er hèr kallaðr konúngr. Kjartan svarar engu ok

[1]) á leggst um íþróttir þínar, C.

gekk á brottu berkyrllaðr. Konúngr var þá ok klæddr, hann kallaði á Kjartan ok bað hann eigi svâ skjótt gánga. Kjartan veik aptr, ok þó heldr seint; konúngr tók þá skikkjuna af herðum sèr ok mælti: eigi skaltu yfirhafnarlauss gánga til þinna fèlaga, svâ sæmiligr maðr ok hamíngjusamligr sem þú ert, ok vil ek gefa þèr skikkju þessa; vil ek ok at þú takir þat, sem við höfum við ázt í dag, sem ek man gera, fyrir gleði ok gaman, þvíat ek vænti at fáir menn kalli þèr at minni ment í sundförum, þó at ek gángi þar um til jafns við þik. Kjartan þakkaði konúngi gjöfina, gekk hann síðan til manna sinna ok sýndi þeim skikkjuna; var þat enn bezti gripr. Íslendíngar lètu illa yfir er hann hafði þegit skikkjuna; þótti þeim [1]) hafa í því gengit á vald konúngs ok undir hans vináttu. Veðráttu gerði harða er haustaði, voro frost mikil ok kuldar; þá sögðo heiðíngjar at þat var eigi undarligt þó at veðrátta lèti illa; sögðu guðin reið vorðin konúnginum furst at upphafi, ok þar út í frá öllum þeim er þat siðaskipti höfðo tekit, sem hann boðaði. Litlu síðarr batnaði veðrátta; kom þá margt fólk til bæjarins af nærstum hèraðum; var þat fólk flest heiðit. Íslendíngar höfðo ráðit sèr herbergi í bænum til vetrsetu allir samt; var Kjartan mjök fyrir þeim.

*Samtal Ólafs konúngs ok Kjartans.*

161. Einn dag átti konúngr þíng út á Eyr–

[1]) hann *bætir við C.*

um [1]) við þat fólk sem þar var komit; taldi hann trú fyrir þeim; talaði lángt ok mjúkliga, en at lyktum harðnaði heldr ræða hans; hèt hann þeim lífláti eðr öðrum afarkostum, er eigi vildi víkja eptir hans orðum. Lètu þá margir menn skírast af landsfólkinu; var við þat slitit þínginu. Þat hit sama kveld sendi konúngr menn til herbergja Íslendínga at heyra hvat þeir töluðu. Íslendíngar sátu við drykk ok voro kátir; var þar glaumr mikill inn at heyra; töluðu þeir um þíngit er verit hafði um daginn, ok um boðskap þann er konúngr hafði uppborit. Þá mælti Kjartan til Bolla: er þèr nökkut um, frændi! at taka þann sið sem konúngr býðr. Bolli svarar: ekki er ek þess fúss, þvíat mèr líst siðr þeirra veykligr ok mjök eyðiligr. Kjartan svaraði: eigi sýnist okkr þetta einn veg, þvíat mèr þikkir sem konúngs vili fái framgáng, svâ at menn víkjast undir hans boðskap á hverju þíngi; eðr þótti yðr hann í engum hótum hafa við þá menn [2]) í dag, er eigi vildi gánga undir hans boð? Bolli mælti: at vísu þótti oss konúngr or skugga gánga um þat, at þeir mundi mæta af honum miklum afarkostum er eigi vildi honum hlýðnast um trúhaldit. Engis manns skal ek nauðúngarmaðr vera, segir Kjartan, meðan ek má vâpnum valda; þat þikkir mèr ok lítilmannligt hraustum dreng at vera drepinn saklauss [3]) sem skynlaust kvikendi; þætti mèr

[1]) Eyjum, *Sk.* [2]) *þannig A, C, S.* [3]) *vantar í C.*

sá kostr miklu betri, ef ek vissi vísan bana minn, at vinna áðr nökkut til frægðar, þat er lengi mætti uppi vera. Bolli mælti: hvat viltu nú, frændi! láta athafast. Kjartan svarar: þat mân ek skjótt segja þèr; ef konúngr vill halda á trúboði þessu við oss sem við aðra menn, þá sýnast mèr 2 kostir fyrir höndum ok þó újafnir; sá annarr at gánga glaðliga undir allan hans boðskap ok láta engra pyndínga viðþurfa; hinn er kostr annarr, ef konúngr er ráðinn í at veita oss afarkosti, at brenna hann inni. Bolli svarar: eigi kalla ek þetta lítilmannligt, en eigi mân þetta framgengt verða at því er ek hygg, þvíat konúngr mun vera giptudrjúgr ok hamíngjumikill, ok hefir á sèr styrk varðhöld bæði nótt ok dag. Kjartan mælti: svâ sè ek fara at flestum bilar áræðit, þó at góðir karlmenn sè; mælta ek þetta ok meirr til raunar við yðr enn ek vili þess eggja yðr af alvöro. Bolli kvað þat vant at sjá hverjum hugar þyrfti at frýja. Þá tóko margir undir, at þetta væri þarfleysu tal mikit. Fóro þá njósnarmenn aptr til konúngs ok sögðo honum alt þeirra tal. Um morguninn eptir er sagt at konúngr vill eiga þíng, ok lèt til bjóða öllum Íslendíngum. En er þíngit var sett, stóð konúngr upp ok talaði; þakkaði hann öllum mönnum þángatkvâmu þeim er hans vinir vildi vera ok við trú vildi taka; veik hann þá ræðunni til Íslendínga ok spurr ef þeir vildi trúa á sannan guð ok láta skírast; þeir tóko ekki

fljótt undir þat. Þá mælti konúngr: hverr er sá af yðr Íslendíngum er þat þótti ráð at brenna mik inni? Þá svarar Kjartan: þèr munit hugsa, herra! at sá hafi eigi einorð til við at gánga; en hèr megit þèr þann sjá er þat hefir mælt. Konúngr svarar: sjá [má ek þik ok eigi smáráðan [1]); en eigi man þèr þess auðit verða at stíga yfir höfut mèr; nú munu menn þat kalla at þú hafir nóga savk til þess at þú heitist eigi [2]) fleiri konúnga inni at brenna, þá er þèr vilja hit betra kenna; en fyrir því at þú gekkt við svâ drengiliga, en þó eigi víst at hugr hafi fylgt máli, þá er slíkt var talat, þá skal eigi taka þik af lífi fyrir þessa savk; þvíat lítit er at þola hót af sínum jafníngja, hjá því sem vârr drottinn Jesús Kristr, konúngr allra konúnga, þoldi saklauss af sínum úvinum [3]); kann vera, sem ek vænti, at þú haldir því betr helga trú sem þú ert tregari til, [ok mælir [4]) meir ígegn enn aðrir; þat er ok ætlan mín, sem ek vildi at væri, at þat skipti [tögum af íslenzkum mönnum [5]), er þann dag munu við trú taka, er þú lætr ónauðigr skírast, þikkir mèr þess vân, ef þèr komit til Íslands, at frændr yðrir ok vinir láti mjök hallast eptir þínum fortölum; ero hèr nú svâ margir [6]) menn saman komnir af því landi; þat er ok mitt hugboð, at þú, Kjar-

[1]) má þik víst ok ej smáráðan, C. [2]) við *bætir inní* C, F. [3]) *þannig* F, S. vinum, A. pínarum, C. [4]) *þannig* C, S. at mæla, A. [5]) togum íslenzkra manna, C. [6]) göfgir, *bætir við* C.

tan! hafir betra sið er þú siglir af Noregi enn þá er þú komt higat; farit nú allir í friði ok griðum, hvert er þèr vilit af þessum fundi; skal ek ekki pynda yðr til kristni at sinni, þvíat lifandi guð himnakonúngr þiggr sjálfráða ok viljanliga þjónostu, en engi maðr kemst nauðigr til hans dýrðar. Var góðr rómr gerr at máli konúngs ok mest af kristnum mönnum. En Íslendíngar mæltu við Kjartan, at hann svari slíku sem hann vildi. Þá mælti Kjartan: mikla þökk kunnu vèr allir Íslendíngarnir yðr, herra! fyrir þat er þèr gefit oss góðan frið; er þat ok vænazt, at svâ fáit þèr teygt oss til hlýðni við yðr, at þèr farit at með lítillæti ok linleik ok gefit oss upp stórsakir þar sem vèr erum á yðru valdi, svâ at þèr megit gera slíkt af vâru ráði [1]) sem yðr líkar; nú er ek eigi svâ heimskr maðr at ek kennumst eigi við at ek hefir talat illa; hafa Íslendíngar frændr vârir verit lengi úvægnir bæði í orðum ok verkum; þat er ok forn málsháttr með oss sem opt reynist, at avl er annarr maðr, talar maðrinn þat opt hvatskeytliga [2]) við drykkinn sem hann vill með engu móti framfara, þá er skynsemdar geymsla kemr til hans. Nú mun hèr fara með okkr, herra! sem mælt er, at jafnan vægir hinn vitrari; en siðaskipti vort fèlaga er á þann hátt, at vera má at mæli þat nökkurir norrænir menn, at oss Íslendíngum

[1]) máli, *C*; efni, *S*. [2]) hvatvísliga, *C*. *F*.

kippi í kyn, þó at vèr gángim heldr fyrir blíðu enn stríðu; ætla ek því at eins at taka við trúnni hèr í Noregi, at ek skal lítils virða Þór hinn næsta vetr, er ek kem til Íslands. Þá svarar konúngr brosandi: Þat sè ek glöggt, Kjartan! bæði í orðum þínum ok yfirbragði, at þú þikkist meira traust eiga undir afli þínu ok atgervi, heldr enn þar sem er Þórr eðr Óðinn. Var þá slitit þínginu; en er konúngr kom til herbergis, eggjuðu nökkurir menn konúng til at nauðga Kjartani ok Íslendíngum til kristni; sögðu þeir at honum væri úvarligt [1]) at láta svâ marga heiðna menn vera jafnnærr sèr, þá er eigi höfðo bundizt um allra orða at sitja á svikræðum við hann. Konúngr svarar þeim reiðuliga: man ek, segir hann, ekki slíkum ráðum framfara, þvíat ek ætla marga þá menn, er kristnir kallast, vera í sumu lagi eigi betr háttaða enn Kjartan ok hans sveit; ok skal slíkra manna at vísu vel bíða [2]); kenni ek svâ nú Kjartan ok hans lyndi, at ek er ekki hræddr um at hann vili svikræðum sæta við mik hèðan af; líðr nú haustið. Spur konúngr at Þrændir höfðo blót stór at vetrnóttum; hètu þeir fast á guðin, at þau skyldi eigi láta viðgángast kristniboð Ólafs konúngs.

*Kristniboð Ólafs konúngs við Þrænðr.*

162. Á öndverðum vetri lèt Ólafr konúngr fara boð um allan Þrándheim ok stefndi

[1]) úráðligt, *C.* [2]) *þannig A, C, S, F.*

8 fylkna þíng á Frostu. En bændr snèru þíngboði í herör ok stefndo saman þegn ok þræl um allan Þrándheim; en er konúngr kom til þíngs, þá var þar kominn bónda múgrinn með alvæpni. En er þíngit var sett, taldi konúngr trú fyrir bóndum; hann hafði litla hríð talat, þá æptu bændr ok báðu hann þegja, ella munu vèr, segja þeir, veita þèr atgaungu hèr þegar á þínginu, ok drepa þik, eðr reka af landi brott; þenna kost gerðu vèr Hákoni konúngi Aðalsteinsfóstra, þá er hann bauð oss slík boð; skipaðist hann vel við, ok sömdum vèr sáttmál vâr ímillum, ok hèldo hvârir vel við aðra. Nú virðu vèr þik eigi meira enn hann, ok man þèr sá hinn bezti kostr, at gera eptir dæmum þess hins góða höfðíngja. En er Ólafr konúngr sá æði bónda, ok þat með at þeir höfðo her mikinn, svâ at ekki mátti viðstanda, þá veik hann til samþykkis við bændr ræðu sinni ok segir svâ: ekki vil ek halda stríð við bændr, því at ek er minnigr hversu þèr, Þrændir! settut vel á stofn við mik, tókut mik til konúngs yðr úkunnan mann, ok hófut mik til ríkis yfir land þetta; nú vil ek eigi vera svâ úsannsærr at ömbuna slíkt illu, en þá væri svâ, ef ek vildi hèr nú berjast við yðr, ok gerði hvârir avðrum svâ mikit mannspell, at seint eðr eigi biði bætr. Nú vil ek hitt ráð upptaka sem oss gegnir betr, at vèr hafim ok haldim vel vâr ímillum alla þá sætt, er í fyrstu var sett

ok samit með oss, at hvârir styði ok sturki aðra til farsælligra framferða; vil ek fara þar til sem þèr hafit hit mesta blót yðvart, ok sjá þar siðu yðra ok atferli; tökum þá ráð vârt allir samt um átrúnaðinn, hvern vèr viljum hafa, ok verðum síðan á eitt sáttir ok samþykkir þar um. En þegar er Ólafr konúngr talaði linliga til bónda, þá linaðust hugir þeirra; fór þá alt tal þeirra líkliga ok sáttgjarnliga með þeim; var þat ráðit at vera skyldi miðsvetrarblót inn á Mærinni; skyldo þar til koma allir ríkir bændr ok höfðíngjar or Þrændalögum, svâ sem siðr þeirra var til; þar skyldi ok koma Ólafr konúngr. Skeggi hèt einn ríkr bóndi, hann var kallaðr Járnskeggi eðr Yrjaskeggi [1]), hann bjó at Upphaugi [2]) á Yrjum. Skeggi talaði furstr manna ímóti konúngi á þessu þíngi, ok hann var mest fyrir bóndum at standa ímót kristninni; var hann einnhverr mestr höfðíngi af Þrændum. Þeir slitu þínginu með því móti sem nú var sagt; fóro bændr þá heim, en Ólafr konúngr fór með sitt lið út til Níðaróss ok settist þar.

### *Kjartan Ólafsson skírðr.*

163. Ólafr konúngr hafði þar látit húsa konúngsgarð um haustið, ok flytja þángat til öll faung, þau er hann þurfti til vetrsetu. Þar lèt hann ok reisa Clemens kirkju; var kirkja sú

[1]) Yrjarskeggi, *C.* [2]) Upphörgi, *F.*

algjör ok búin at jólum; ætlaði konúngr ok biskup at þar skyldi veita í jólatíðir í kirkjunni. Atfángadag jóla mælti Kjartan til sinna manna, at þeir mundi standa upp um nóttina, ok gánga svâ nærr kirkjunni, at þeir mætti sjá ok heyra atferli kristinna manna, hversu þeir flytti fram sín fræði ok þjónosto við sinn guð. Margir tóko vel undir, ok sögðu at þat mundi vera skemtan mikil; gengu þeir til kirkju um nóttina Kjartan ok Bolli; þar var ok í för Hallfreðr Óttarsson ok margt annarra íslenzkra manna; heyrðu þeir þar klokkna hljóð ok fagran saung, er þar var framfluttr, ok kendo sætan reykelsis ilm. Gengu Íslendíngar eigi furr heim til sinna herbergja enn um daginn eptir hámessu. Tókst þá umræða mikil, hverso þeim virðist siðferði ok athæfi kristinna manna; lètu menn þar allmisjafnt yfir. Síðan var Kjartan eptirspurðr hverja virðíng hann vildi á hafa framferði kristinna manna. Kjartan svarar: þat berr stórum [1]), hversu mèr þókknast vel þeirra athæfi, því heldr sem mèr kynnist meirr; ok jafnan hefir mèr litizt merkiliga á konúnginn, en nú í dag sýndist mèr hans yfirbragð frá því ágætligt sem furr, svâ at ek ætla þá betr hafa, er honum hlýðnazt ok veita góðviljaða þjónosto; ok er þat sannast at segja, at ek ætla þar við liggja öll vor málskipti ok hamíngju, at vèr trúim á þann guð sem hann boðar; nú dvelr mik engi lutr, er ek geng eigi

[1]) *þannig allir.*

þegar til konúngs at biðja skírnarinnar, utan sá einn, at hann mun nú til borða genginn, ok þat at ek vil eigi únáða konúng eðr kristna kennimenn á þessum degi, er þeir kalla mikla höfuðhátíð guðs síns, þvíat mèr er vân at þat sè starfi mikill at veita oss skipverjum öllum þat embætti, ok ætla ek þann dag dveljast er vèr látum allir skírast; en með engu móti má Ólafi konúngi vera annara til at þetta verði framgengt enn mèr; er þat ok eigi staðfastligt at láta svâ ákafliga at einhverjum lut at eigi fylgi hóf ok stillíng; eðr hversu sýnist þèr þetta ráð, Bolli frændi! Bolli tók vel undir; bað hann Kjartan einn ráða beggja þeirra framferði þar um. Konúngr hafði enn sem furr setta [1]) menn til um daginn at verða vísir hvat Íslendíngar talaði; voro honum sögð öll þessi orð áðr sá dagr var allr.

*Kjartan ok Bolli görast konúngi handgeingnir.*

164. Annann dag í jólum, þegar konúngr var klæddr, sendi hann til Kjartans, ok bað hann koma á sinn fund. Kjartan kom til konúngs með nökkura menn ok kvaddi hann. Konúngr fagnaði honum blíðliga; en er þeir höfðo fá orð viðtalazt, bauð konúngr Kjartani at láta skírast. Kjartan svarar: því skal nú eigi neita, ef ek skal þar fyrir fá yðra vináttu, herra! Konúngr sagðist þat vilja, at veita honum fullkomna sína vináttu; er mèr sagt af hit ljósazta, hvat

[1]) senda, C.

þèr fèlagar hafit talat ígær; hefir þú nú, Kjartan! sannat orðskvið vâru kristinna manna: at hátíðir ero til heilla beztar. Sömðu þeir konúngr þetta sáttmál sín ímilli; var þá Kjartan skírðr ok Bolli frændi hans ok öll þeirra skipshöfn; hafði Ólafr konúngr Kjartan ok Bolla í jólaboði síno, ok var hann allkærr til þeirra; þat er sögn flestra manna, at þann dag gerðist Kjartan handgenginn Ólafi konúngi, er þeir Bolli fóro or hvítavâðum.

*Hallfreðr skáld skírðr.*

165. Ólafr konúngr gekk einn dag um stræti; en nökkurir menn gengu imóti honum. Sá fagnaði konúngi er furstr gekk; konúngr spurr þann mann at nafni; hann nefndist Hallfreyðr; konúngr mælti: ert þú skáldit? hann svarar: kann ek at yrkja. Konúngr mælti: þú munt vilja trúa á sannan guð, en kasta forneskju ok illum átrúnaði; þú ert maðr sköruligr ok einarðligr ok er þèr einsætt at þjóna eigi lengr fjanda. Hallfreðr svarar: vel getr þú umtalat, konúngr! en eigi mun ek láta kauplaust skírast. Konúngr mælti: hvat er til mælt? Þat, sagði Hallfreðr, at þú, konúngr! sjálfr veitir mèr guðsifjar; af engum manni öðrum vil ek þat embætti þiggja. Konúngr segir, at hann vill þat til vinna; var þá Hallfreðr skírðr ok allir hans skipverjar, hèlt Ólafr konúngr Hallfreði undir skírn; þess getr Hallfreðr í einni drápu, er hann orti um Ólaf konúng:

Hlaut ek þann er æðstr var einna
ek sanna þat manna
undir niðbyrði [1]) Norðra [2])
norðr guðföður vorðinn.

Síðan er Hallfreðr var skírðr, fèkk konúngr hann í hendr móðurbræðrum sínum Karlshöfði ok Jósteini, at þeir skyldi kenna honum *credó* ok *pater noster*. Tóko þá ok trú Brandr hinn örvi ok þeir bræðr synir Breiðárskeggja [3]) ok allir aðrir Íslendíngar, þeir sem þar voro í bænum. En er á leið jólin, þá sendi konúngr boð inn á Strind [4]) ok út í Gaulardal ok svâ út í Orkadal, ok bauð til sín höfðíngjum ok aðrum stórbóndum. En er þeir komo til konúngs allir sem hann hafði orð sent, þá tók konúngr við þeim með enum mesta blíðskap, ok lèt gera þeim fagra veizlu; var veitt af kappi, svâ at hit fursta kveld vurðu bændr mjök druknir þeir er nýkomnir voro. Um nóttina eptir sváfu allir menn þar í ró. Um morgininn er konúngr var klæddr, lèt hann sýngja sèr tíðir; en er messu var lokit, lèt konúngr blása til húsþíngs; fór hann sjálfr til þíngs með sína menn. En er flokkrinn var kominn ok þíng var sett, þá stóð Ólafr konúngr upp ok talaði, hann segir svá: vèr áttum þíng inn á Frostu, bauð ek þá bóndum at láta skírast, en þeir buðo mèr þar ímót, at ek skyldi hverfa til blóta með þeim; kom þat

[1]) nið byrði, C. [2]) norðan, F, S. [3]) Breiða-Skeggja, C, S. [4]) strönd, C; strandir, F, S.

ásamt með oss, at vèr skyldim finnast inn á Mærinni ok gera þar blót mikit. Nú er þat öllum mönnum kunnigt at ek hefir guðin í marga staði svívirdt ok mínkat þeirra rètt, brotit líkneskjur þeirra, brent hof ok hörga ok alla vega eydt þeirra átrúnaði; fyrir því veit ek at mikils man við þurfva at gera þeim til þæginda til þess, at þau vili þiggja mína þjónosto, ok snúa frá mèr sína grimmu reiði, ok láti mik halda mínu ríki ok sæmd. Nú ef skal til blóta hverfa ok líknast við guðin, þá vil ek gera láta hit mesta blót þat er mönnum er tídt; skal eigi til þess velja þræla eðr illmenni, heldr skal til þess velja at offra þeim ok fórnfæra hina ágætuztu menn ok ríka bændr; nefni ek þar til Orm lyrgju af Meðalhúsum, Styrkár af Gimsum, Kár af Grýtíngi, Ásbjörn Þorbergsson af Örnesi, Orm af Lyxu, Haldór af Skerðíngssteðju. Nú ero þessir allir hèr viðstaddir. En síðan skal til nefna aðra 6 þá er æðstir ero ok mest virðir af Innþrændum; skal þeim mönnum öllum blóta til árs ok friðar. En fyrir því at bráð nauðsyn beiðir at vèr mýkim nökkut, þó at eigi mjök at sinni, reiðihugi ok heipt guðanna, er lengi hefir harðnat ok aukizt oss ígegn af margföldum vorum mótgerðum við þau ok úvingjarnligum framferðum; en þat í annann stað man yðr allannt til vera, at taka af þeim ömbun yðvarrar þjónusto, þat er at samlagast um síð þeirra fagnaði ok fèlagskap, er þèr hafit svâ lengi til stundat

með allri alvöro; þá skal nú þegar í stað veita yðr atgöngu, er til vorut nefndir, at fórnfæra guðunum; skal yðr drepa sem skjótazt ok vísa yðr til þeirrar sælu, er þau munu yðr veita fyrir æfinliga ástar þjónusto. Nú þurfvit þèr eigi at blikna eðr blána fyrir þessi mín orð, þvíat ef goð yður ero góð ok máttug sem þèr segit, þá munu þau gefa yðr eilífa sælu í verkkaup, allraheIzt ef þèr þolit dauða fyrir þeirra sakir á ofan æfinligt starf; en ef svâ er, sem mèr sýnist at heldr hryggvist yðrar ásjónur ok þèr hyggit eigi jafngott til guðanna samlags sem margr mundi ætla, þá mun svâ sýnast sem þèr efizt í um þeirra almátt. Nú ef svâ ferr sem ek veit, at þèr hafit þau heilráð sem ek man yðr kenna: trúit aldri síðan á þá fjandr er enga ömbun veita sínum þjónum, utan þat er þeir hafa sjálfir, þat er eilífr bruni helvítis písla; snúizt heldr til þess guðs, er svâ er máttugr, mildr ok góðgjarn, at hverjum sínum sönnum þjónustomanni gefr eilífa sælu ok úendaligt ríki með sjálfum sèr í himinríkis dýrð eptir þetta fátækliga líf, er vèr höfum í þessi veslu veröld. Þat ríki gefr allsvaldandi guð eigi síðr hinum fatækazta enn ríkum konúngi, ef honum þjónar með sannri trú ok góðum verkum, svâ hit sama þeim, er allan sinn aldr hafa veitt honum mótgerðir, ok snúast algjörliga á örvasa aldri til hans miskunar, sem hinum er alt frá bernsku hafa honum þjónat. Lauk konúngr svâ sinni ræðu at allir bændr,

þeir er þar voro komnir, játaðu at trúa á sannan guð ok báðu konúng griða. Síðan voro þeir allir skírðir, ok veittu konúngi svardaga til þess at halda rètta trú, en leggja niðr blótskap allan; hafði konúngr þessa menn alla í boði síno þar til er þeir fengo honum í gislíng sono sína eðr bræðr eðr aðra náfrændr.

*Kristni boðut Þrændum á Mærinni.*

166. Ólafr konúngr fór með liði síno eptir jólin inn í Þrándheim; þar var ok í för með honum Kjartan ok Bolli ok Hallfreðr Óttarsson [1]) ok margir íslenzkir menn [2]), hafði konúngr mikit lið ok frídt. En er hann kom inn á Mæri, þá voro þar fyrir höfþíngjar Þrænda allir þeir er þá stóðu mest ímót kristninni, ok höfðo þar með sèr alla stórbændr, þá er furr höfðo vanir verit at halda upp blótum í þeim stað; var þar saman komit allmikit fjölmenni, ok eptir því sem furr hafði samit verit á Frostuþíngi, lèt konúngr krefja þíngs, ok gengu hvârirtveggju með alvæpni á þíngit. Var þá í fyrstu hark ok háreysti, en er sjötlaðist [3]) ok hljóð fèkkst, bauð Ólafr konúngr bóndum kristni sem furr. Járnskeggi svarar enn máli konúngs af hendi bónda sem furr, ok mælti svâ: enn er samt sem furr, konúngr! at vèr bændrnir viljum eigi, at þú brjótir lög á oss; er þat vili allra vor at þú, konúngr! blótir sem aðrir konúngar hafa gert hèr í landi fyrir þèr ok svâ aðrir

[1]) skáld *F*, *S*. [2]) þeir er þá voro nýskírðir *bæta við* *F*, *S*. [3]) setnaðe *F*, *S*.

Þrænda höfðíngjar, Sigurðr Hlaðajarl ok Hákon jarl, er nú var nærstr höfþíngi yfir mestum luta lands þessa; var hann ágætr maðr fyrir vits sakir ok harðfengi, þó at hann bæri eigi konúngs nafn; var lánga stund hans ríki allvinsælt, ok ekki var hann fyrir þat ráðinn frá ríki, at hann færi með slíkar lögleysur eðr hans faðir, at eigi skyldi hverr trúa á þann guð er vildi. Nú var Hákon konúngr Aðalsteinsfóstri einn svâ at slíkan boðskap hóf; vurðu Þrændir við þat beiskir, svâ at þeir lètu konúngi eigi úhætt, ef hann hèldi slíku fram, ok sýndist honum at sveigja til við bændr eptir fortölum Sigurðar jarls ok annarra vina sinna, ok mun þèr þat eitt hæfa at gera svâ sem vèr sögðum þèr furr á vetri, þvíat ekki hefir oss síðan hugr horfit um átrúnaðinn.

*Þrændir kristnaðir af Ólafi konúngi.*

167. Bændr gerðo mikinn róm at ræðu Skeggja; sögðo at þeir vildo svâ alt vera láta sem hann hafði talat. Þá mælti konúngr: svâ vil ek gera sem talat var á Frosto, at ek vil nú gánga í hofit ok sjá atferli yðor ok tilbúnat blótanna. Bóndum líkaði þat vel; fóro þá hvârirtveggju til hofsins. Gekk konúngr inn með fá sína menn ok nökkurir af bóndum. Allir voro þeir vâpnlausir er inn gengu; konúngr hafði í hendi refði gullbúit. En er þeir komo í hofit, skorti þar eigi skurðgoð; Þórr sat í miðju ok var mest tignaðr, hann var mikill ok allr gulli búinn ok silfri; konúngr hóf upp refðit ok sló með Þór, svâ at hann

hraut af stallanum ok brotnaði; hljópu þá til konúngs menn þeir er inn höfðo gengit, ok sviptu ofan öllum goðunum af stallonum. En meðan þeir voro inni, þá var Járnskeggi drepinn úti fyrir durunum hofsins af konúngsmönnum. En er konúngr kom út til liðs síns, bað hann alt fólk setjast, ok er svâ var gert, stóð konúngr ok litaðist um; síðan tók hann svâ til máls: hèr er margr maðr saman kominn, ok væri vel ef hverr yðvarr bóndanna væri sèr ok avðrum svâ heilráðr sem hreystiligr at sjá; enn svâ sem þessi fundr er fjölmennr, þá var enn fleira á Frostoþíngi; bauð ek yðr þá sem nú siðaskipti ok átrúnaðar, at þèr skyldut neita djöfli ok leggja niðr alla hans þjónosto ok skurðgoða blót, en trúa á sannan guð, skapara allra luta, ok honum þjóna með hreinu hjarta; hafði ek þar lítt hafit mitt eyrendi, áðr þèr gerðut þar at hark ok háreysti, fengut til síðan einn af yðru liði at flytja ímót fjandans erendi; sleit svâ því þíngi, at vèr lögðum hèr stefnu með oss á Mærinni. Nú flutta ek fram þat sama erendi ok míns drottins boðskap öllum oss til hjálpar ok miskunar, ef þèr vildit vel undir víkjast; en þér ok yðvarr formælandi vârut nú alt djarfari ok fram hvassari í mótmælum enn furr; buðut þèr mèr nú sem furr at hverfa til blóta með yðr, tókut þèr þar til [1]) Hákon Aðalsteinsfóstra, at mèr mundi eigi duga, nema ek gerði eptir hans dæmum. Hákon konúngr var maðr fagr ok fríðr,

[1]) *þannig A, F, S.*

mikill ok sturkr, umfram flesta menn at öllum íþróttum, ok at allri skapan hinn líkazti sínum feðr Haraldi konúngi; hafði hann föðurætt ok alla þessaluti til at vera konúngr yfir Noregi; en ekki lof veitit þèr honum [fyrir þetta, þat er ok rètt [1]), þvíat þetta alt var honum úsjálfrádt, heldr skapat ok skipat af almáttkum guði, þarmeð gaf guð honum kynníng síns nafns hins helga; ok enn umfram skipaði guð hann háleitan höfðíngja yfir sína favðurleifð, ok gaf honum sjálfræði sem hverjum öðrum, at gera hvårt er sjálfr vill gott eðr ílt; hverju man hann ömbuna þeim er þetta veitti? Þèr bændr tókut þat til dæma er Hákon hóf slíkan boðskap sem vèr berum nú fram ok fylgjum; hversu man sá hertogi sjá ráð fyrir sínum riddarum, er hann blindar sjálfan sik allra sanninda, ok hann lætr sjálfviljandi vånda svikara leiða sik lángt af rèttum veg í hendr sínum úvinum, þeim er honum hrinda í djúpa gröf eilífs dauða? hversu má sá konúngr kallast er hinn hersiligazta ok hinn illgjarnazta þræl [2]) lætr stjórna sèr ok síno ríki? Þat lofit þèr fyrir Hákoni, er hann lèt kúgast fyrir sínum þrælum af sannri trú, ok hæddi svå sinn skapara, en svívirði sjálfan sik, at hann gekk til blóta: var þat úngligt ok lítilmannligt at vinna þat til þessa vesala ríkis, er vettugis er verdt hjá eilífri sælu, at neita guði sínum ok gánga or þjónosto hins heilaga herra sem hon-

[1]) í þessu þat er ek veit, *S.* [2]) óvin, *S.*

um hafði gert ok gefit svâ marga góða luti, sem áðr er tínt ok talt; en hitt var miklu herfiligra at gerast svâ mikill ættleri ok skræfva [1]) at vilja ekki aptr hverfa til sanninda, heldr samdi hann síðan sætt við þá er hann sviku frá guði, þvíat aldri hefði hans faðir svâ gert. Haraldr konúngr var heiðinn ok vissi ekki til guðs, ok lèt hann drepa þá menn alla, er hann vissi at rammaztir voro í fjölkýngi ok fjandans þjónostu; finnst þat ok í hans orðum, at hann hafði vænt sèr nökkurs traustս af þeim, sem hann hafði skapat, þó at hann hefði eigi fulla vissu af, hverr sá guð var. En þar sem þèr vikut til Hákonar jarls, þá mátti hann heldr kalla hervíkíng enn höfðíngja, þvíat hann hafði til þess burði at vera jarl yfir ættleifð sinni, en hann drap höfðíngja þá, er rèttbornir voro til lands þessa ok hann átti undir at þjóna, suma með bardaga, suma með undirhyggju ok svikum, en tók ríkit undir sik. Hann tók skírn, þó at nauðigr, í Danmerk at boði Haralds konúngs Gormssonar, ok allir hans menn er þar voro, ok hèt því með svardaga Haraldi konúngi, at láta kristna alt fólk í Noregi; en áðr hann fór or Danmerk, sendi hann frá sèr aptr til konúngs alla þá kennimenn ok klerka, sem Haraldr konúngr hafði fengit honum, ok gerðist enn rammazti guðníðíngr, því öllu verri enn Hákon konúngr, at jarl dró ekki til aptrhvarfs utan eiginlig illska með fjandans

[1]) ættarspillir ok skemdarfull skræfa, *F*, *S*.

flærð; var þess ok vân, at illr ávöxtr mundi upprenna af illri rót, þvíat Sigurðr jarl, faðir hans, var hin mesta gildra [ok snara, tapan ok tjón [1]) Hákonar konúngs með kúgan annarra höfðíngja ok sjálfs hans veykleik. Nú þó at þèr lofit höfðíngskap Hákonar jarls ok harðfengi hans fyrir sigr þann, er hann sýndist fá á Jómsvíkíngum, þá er þat sannara, at ekki vann hann með fræknleik sínum þann sigr, heldr með fjandans krapti ok þeim mikla vândskap, at hann gaf fjandanum opinberliga son sinn 7 vetra gamlan ok eigi síðr sjálfan sik. Nú er yðr þat vânleysi, at ek gángi af heilagri trú ok elsku vârs drottins Jesú krists fyrir yður orð, hvârt er þèr talit til mín blídt eðr strídt, þvíat aldri skal ek svâ svívirða mínatign, at gefast undir vild úvinarins, sem þessir guðníþíngar er vèr höfum nú umtalat. En eigi þarf þetta mál lengr fyrir yðr draga; takit nú í stað allir við kristni, en at avðrum kosti haldit við mik bardaga; skulut þèr þat þó vita, at hèr ero miklu fleiri mínir menn enn þèr ætlit, Innþrændir! þikkir mèr ok þess vân, at vèr hafim komit í meiri raun enn berjast við búandkarlinn eðr þorparann í Þrándheimi. Lauk konúngr svâ sinni ræðu; en þvíat Skeggi var drepinn, þá varð engi til af bóndaliðinu at gerast formaðr ok bera merki ímóti Ólafi konúngi. Var hinn kostr tekinn af öllum, at gefast upp á vald konúngs ok hlýða því sem hann bauð.

[1]) ok drapan, C.

Þá lèt konúngr skíra þat fólk alt er þar var áðr úskírdt, ok tók gisla af bóndum til þess at þeir skyldo halda kristni sína. Síðan lèt konúngr sína menn fara með lærðum mönnum um öll fylki í Þrándheimi; mæltu þá engir ímót kristni, ok var alt fólk skírdt í Þrændalögum; fór Ólafr konúngr með lið sitt út til Níðaróss ok settist þar. En bændr fluttu lík Járnskeggja út á Yrjar, ok liggr hann í austrátt í Skeggjahaugi.

*Skilnaðr Ólafs konúngs ok Guðrúnar.*

168. Ólafr konúngr gerði stefnulag frændum Járnskeggja, ok bauð þeim bætr fyrir víg hans; voro þar margir menn göfgir til andsvara ok eptirmáls. Járnskeggi átti eina dóttur, er Guðrún hèt; þat kom at lyktum í sáttmál Ólafs konúngs ok frænda Járnskeggja, at Ólafr konúngr skyldi fá Guðrúnar. En er brudlaupsstefna kom, þá gengu þau konúngr ok Guðrún í eina rekkju; en þegar [hina furstu nótt þá er þau lágu bæði samt [1]), ok Guðrún ætlaði at konúngr mundi sofnaðr, þá brá Guðrún knífi ok ætlaði at leggja [á honum [2]). En konúngr vakði ok varð þegar varr við, greip hann af henni knífinn, ok stóð upp or sænginni; gekk hann til manna sinna ok segir þeim um hvat leika var. Guðrún tók ok klæði sín ok allir þeir [menn er henni höfðo þángat fylgt, ok fóro

[1]) þau komu undir eina blæju, C. [2]) at konúnginum, S. konúnginn, F.

þegar brottu; kom Guðrún aldri síðan í sæng Ólafs konúngs.

*Ólafr konúngr lèt reisa Trönuna.*

169. Þenna sama vetr lèt Ólafr konúngr reisa lángskip mikit á eyrunum við ána Níð; hafði hann þar til marga smiði, ok gekk skjótt fram smíðin; þat var snekkja; skipit var þrítögt at rúma tali, stafnhátt, heldr mjótt ok ekki borðmikit; þat skip kallaði konúngr Tranann [1]). Kjartan Ólafsson ok Bolli [2]) voro með konúngi um vetrinn, síðan þeir tóko við trú; konúngr mat Kjartan umfram alla íslenzka menn fyrir sakir ættar ok atgervi; er þat ok alsagt, at Kjartan var svâ vinsæll, at hann átti sèr engan öfundarmann innan hirðar; þat var ok allra manna mál at eigi hefði slíkr maðr náliga komit af Íslandi sem Kjartan. Bolli frændi hans þótti ok hinn vaskazti maðr.

*Frá Hallfreði skáldi.*

170. Hallfreðr skáld Óttarsson var með Ólafi konúngi; hann gekk einn dag fyrir konúng ok bað hann hlýða kvæði því, er hann hafði ort um Ólaf konúng. Konúngr kvaðst eigi hlýða vilja kvæði hans. Þá mælti Hallfreðr: Þú munt því ráða, herra! en týna man ek þá þeim fræðum, er þú hefir látið kenna mèr, ef þú vill eigi hlýða kvæðinu, þvíat ekki ero þau fræði skáldligri enn kvæðit. Konúngr mælti:

1) Trönuna, *F*, *S*. 2) Þorleiksson, *bætir við C*.

vandræða skáld ert þú við at eiga, ok skal hlýða kvæði þínu. Hallfreðr flutti kvæðit sköruliga; var þat drápa; en er lokit var, mælti konúngr: þetta er gott kvæði ok vel ort; viltu nú gerast minn maðr ok vera með mèr? Hallfreðr svarar: ek var furr hirðmaðr Hákonar jarls; nú mun ek ekki gerast þèr handgenginn ok engum öðrum höfðíngja, nema þú heitir mèr því, at mik hendi enga þá luti, er þú segir mik þèr afhendan, eðr rekir mik frá þèr. Konúngr svarar: þannig er bragð á þèr, at þú [mundir fás svífast ok láta þèr margt sóma [1]), gánga ok þær sögur heldr frá lyndi þínu, at mèr þikkir eigi örvænt, at þú farir nökkurum þeim lutum fram, er ek vil fur engan mun við sæma. Hallfreðr svarar: þar fæ ek skjótt ráð til; drep þú mik þá! Konúngr mælti: víst ert þú vandræða skáld, en minn maðr skaltu þó vera. [En er samt um viðrnefnit, segir Hallfreðr [2]); hvat gefr þú mèr at nafnfesti, ef ek skal vandræðaskáld heita. Konúngr svarar: sè ek at þetta vill þú kenníngarnafn eiga, ok þigg hèr af mèr sverð heldr frídt, en vandi mikill man þèr á þikkja, þvíat engi skal umgjörðin fylgja, ok varðveit svâ 3 nætr ok 3 daga at engum manni verði mein at. Þá kvað Hallfreðr:

---

[1]) mundir fátt láta ógjört þat er þèr kemr í hug, *C.* [2]) ok hafa samt, viðrnefnit. Hallfreðr svarar, *S, F.*

Veit ek at vísu skreyti
víðlendr konúngr sendi
nökðqn [1] brand af nökkvi
nú ák Sýrar mey dýra;
verða hjölt fyrir herði [2])
höfum gramr kera framdan
skavlkvíngum [3]) þá ek skjálga [4])
skrautlig [5]) konúngs nauti.

Vel gat Hallfreðr varðveitt sverðit. Hallfreðr lastaði ekki guðin, þó at aðrir menn hallmælti þeim, kvað ekki þurfa at ámæla þeim, þó at menn vildi eigi trúa á þau; hann kvað þetta einn tíma svâ at konúngr heyrði:

Fyrr [6]) var hitt er harra
hliðskjálfar [7]) gat ek sjálfan
skipt er á gumna giptu
geðskjótan vel blóta.

Konúngr mælti: þetta er allilla kveðit ok er yfirbóta verdt. Hallfreðr kvað:

Öll hefir [átt við [8]) hylli
Óðins skipat ljóðum
allgilda man [9]) ek aldar
iðju vârra niðja;
enn trauðr, þvíat vel Viðris
vald hugnaðist skáldi,

[1]) navktan, C, S. [2]) harðri, C. [3]) skavlkíngum, C.
[4]) þannig C, F, S, vantar i A. [5]) skrautligr, C.
[6]) Fyrst, C. [7]) hliðskjálfra, S; hliðskjálfan, C, F.
[8]) eitt til, C. [9]) mun C, S.

legg ek [á frumver [1]) Friggjar
fjón, þvíat Kristi þjónum.

Konúngr mælti: helzti mikinn hug leggr þú á at lofa guðin, ok er þat illa virðanda fyrir þèr; [þá kvað Hallfreðr enn:

Höfnum holða reifnir [2])
hrafnblóts goða nafni
þess er öl við lof lýða
lóm í [3]) heiðnum dómi.

Enn mælti konúngr: ekki bætist um, ok er slíkt verra enn eigi gert, ok kveð þú nú vísu til yfirbóta [4])! Hallfreðr kvað:

Mèr skyli [5]) Freyr ok Freyja
fjarð let [6]) ek af dul Njarðar [7])
líknist gravm við grimni [8])
gramr ok [Þórr enn rammi [9]);
Krist vil ek allrar ástar
erumk leið sonar reiði
vald á frægt und foldar
feðr ein ok guð kveðja.

Konúngr svarar: slíkt er betra enn eigi kveðit, ok yrk enn aðra vísu! Hallfreðr kvað:

Sás [10]) með sygna ræsi
siðr at blót ero kviðjut
verðum flest at forðast
forn haldin skavp Norna;

---

[1]) fá born við, *C.* [2]) hæfum havlda ræfir, *C.* [3]) or, *C.*
[4]) *þetta frá merkinu* ([) *vantar í S.* [5]) skili, *C*; skal, *S.* [6]) læt, *C*; leit, *S.* [7]) mærðar, *C.*
[8]) grimri, *C.* [9]) þór enn ramma, *C.* [10]) Sá er, *C, F, S.*

láta allir ýtar
Óðins ætt fyrir róða
verð ek ok neyddr frá Njarðar
niðjum Krist at biðja.

*Hallfreðr vegr Óttar.*

171. Óttarr hèt maðr upplenzkr at ætt; Kálfr hèt bróðir hans; þeir voro hirðmenn Ólafs konúngs; voro þeir með konúngi ok mikils virðir af honum, en ekki vinsælir við alþýðu. Þeir öfundaðo Hallfreð skáld; þotti þeim hann hafa ofmikinn gáng [1]) af konúngi; en Hallfreðr vildi ekki vægja fyrir þeim. Var þat eitt kveld við drykk at sló í mikla deilu með þeim; var konúngr viðstaddr, ok bar hann heldr í hag Óttari ræðuna, þvíat hann sá at honum mundi eigi endast at þræta við Hallfreð. Ok er konúngr var braut genginn, tóko þeir at endrnýja sína deilu, ok umsíðir sló í kappmæli með þeim; sagði Hallfreðr at Óttarr mundi sèr lítt einhlítr, ef þeir ættist ílt við; lauk svâ því tali at Hallfreðr ljóp upp ok hjó til Óttars með öxinni Hákonarnaut jarls ok veitti honum banasár. Kálfr greip Hallfreð höndum ok menn með honum; settu þeir fjötur á fætr honum ok bundo hendr hans. Voro þat lög at þann mann skyldi drepa er vægi mann í konúngs herbergi. Síþan fóro þeir Kálfr til konúngs ok segja honum vígit Óttars; sögðo þá mega sjá, hvat manna Hallfreðr var; mun hann

[1]) *þannig allir.*

svâ ætla at bleðja [1]) hirðina, segir Kálfr, ok er eigi víst hvârt hann hlífir höfðinu, ef hann kemst í færi um; rægði Kálfr ok þeir fèlagar Hallfreð á alla vega sem mest, þar til er konúngr bað þá drepa hann um daginn eptir. Kálfr var við þat glaðr; varðveittu þeir Hallfreð í járnum um náttina, en leiddu hann út um morgininn ok ætlaðu at drepa. Þá mælti Hallfreðr: er sá dauðr er ek vann á; þeir sögðo svâ vera; Hallfreðr svarar: þá man yðr þat makligt þikkja at ek deyi [2]); en hvar er Ólafr konúngr? hvat mun þik þat varða, segir Kálfr; dæmt hefir hann þik nú til dauða. Hallfreðr mælti: ef nökkurir menn ero hèr nærr staddir, þeir er ek hafi vel til gert, þá launi þeir mèr þat nú svâ, at þeir láti leiða mik þar nærr sem konúngrinn er; vil ek þakka honum hirðvist. Þá kom þat fram sem mælt er, at hverr á sèr vin með úvinum; voro þeir menn þar, er við kannaðust at Hallfreðr hafði til góðs við gjört, ok leiddu hann þaðan skamt frá því er Ólafr konúngr var úti staddr ok hirðbiskup hans Sigurðr. En er Hallfreðr kom nærri þeim, mælti hann til konúngs: minnizt þèr nú þess, herra! at þèr hafit mèr því heitit at segja mik yðr aldri afhendan, ok verðit eigi heitrofi við mik, ella man nú skemri verða vor samvist enn ek vildi at væri; sá er annarr lutr til at telja, at þú ert guðfaðir minn. Biskup mælti: fyrir guðs sakir, herra! látit manninn njóta slíkra luta svâ stórra ok góð-

[1]) velja, *S.* [2]) deyja, *S.*

ra. Ólafr konúngr svarar: svâ skal vera, herra biskup! sem þèr beiðit, ok bað þá leysa hann skjótt; ok svâ var gert. Líkaði Kálfi þetta allþúngt. Hallfreðr var enn með hirðinni ok var konúngr þó færi [1]) til hans enn áðr; en þó bætti hann þetta víg fyrir Hallfreð. Þat var einn dag, er Hallfreðr stóð fyrir konúngi, at hann fèll til fóta hans, sá konúngr at hann feldi tár, ok spurði, hvat honum þætti svâ mikit. Hallfreðr mælti: nærr fellr mèr reiðin yður, herra! ok henni vildi ek gjarna af mèr koma. Konúngr svarar: svâ skal vera; þú skalt fara sendiför mína, ok skulu við vera sáttir, ef þú kemr ferðinni fram; eðr hvârt átt þú sverð þat er ek gaf þèr? Á ek víst, herra! segir hann, ok hefir þat ekki í umgerð komit; en þó hefir engum manni mein at því vorðit. Konúngr mælti: þat samir svâ vel, at vandræða skáldit eigi vandræða gripinn; eðr muntu kunna at yrkja vísu, svâ at nefna sverð í hverju vísuorði? Hallfreðr svarar: við mun ek leita, ef þèr vilit, herra! ok alt vil ek til þess vinna at koma af mèr yðvarri reiði. Þá kvað Hallfreðr:

Eitt er sverð þat er sverða
sverðauðgan mik gerði
fyrir svipnjörðum sverða
sverðótt mun nú verða;
munat vansverðat verða,
verðr em ek þriggja sverða

[1]) *þannig, A, S.*

jarðarmens ef yrði
umgjörð at því sverði.

Konúngr þakkaði honum vísuna, ok segir honum mikla íþrótt í skáldskap sínum, ok gaf honum þá umgerð at sverðinu mjök vandaða, ok mælti: nú skulum við vera sáttir; ok þó at þik hendi víti, at þú komir eigi til borðs eðr kirkju sem aðrir menn, eðr annat slíkt, þá skal þér uppgefa framarr enn flestum avðrum. Hann þakkaði konúngi mjúkliga sinn blíðskap.

*Hallfreðr sendr til Þorleifs spaka.*

172. Einn dag litlu síðarr bar svâ til, at konúngr spurði, hvar Hallfreðr skáld væri. Kálfr svarar: hann mun nú hafa vanda sinn ok blóta á laun; er þat til marks at hann hefir í púngi sínum líkneski Þórs af tavnn gert; ok ert þú, konúngr! ofmjök dulinn at honum ok færr hann eigi sannreyndan. Konúngr lèt Hallfreð þegar kalla til sín; ok er hann kom, mælti konúngr: ertu, Hallfreðr! sannr at því, sem þèr er kent, at þú hafir líkneski Þórs í púngi þínum, ok blótir. Hallfreðr svarar: eigi er ek þessa valdr, herra! er hèr skjót raun til; skal nú í staðransaka púng minn; hefir ek nú ekki undanbragð mátt hafa, þó at ek vildi, þvíat mik varði eigi þessa áburðar; var hann þá rannsakaðr ok fanst engi sá lutr í vitum [1]) hans, at til þess væri líkligr sem Kálfr hafði sagt á hann. Þá mælti Hallfreðr til Kálfs: þetta er sannliga dauða róg; skal þèr ok

[1]) *þannig A, S.*

þetta at hörðu verða, ef ek náe svâ til þín sem ek vildi; þú hefir ok enn furr tekit mik með valdi, ok vart þá búinn at veita mèr bana; var þá nökkur savk til, en nú engi nema lýgi þín ok róg. Konúngr mælti: eigi er ykkr saman vært; nú skal Kálfr fara til búa sinna; mun hann ekki þá rægja þik eðr aðra menn við mik; en þú, Hallfreðr! segir konúngr, skalt fara sendiför mína á Upplönd til þess manns, er heitir Þorleifr hinn spaki; þessi Þorleifr er dótturson Þorleifs Hörðakárasonar. Þorleifr vill eigi við kristni taka; nú skaltu drepa hann eðr blinda; skal ek leggja til ferðar þessar með þèr mína gipt ok hamíngju; haf þú ok með þèr svâ marga menn sem þèr líkar; en sent hefi ek fyrrum menn til Þorleifs, ok hafa þeir engu á leið komit við hann, því er ek vildi. Hallfreðr svarar: eigi sýnist mèr ferð þessi ríflig, en gjarna vil ek fara, hvert er þèr vilit senda mik; vil ek, at Jósteinn, móðurbróðir yðvarr, fari með mèr ok bekkjunautar mínir þeir sem ek kýs, svâ at vèr sèm saman [4 menn ok 20 [1]). Síðan var búin ferð þeirra. Riðu þeir þar til er þeir komo í skóg einn skamt fra bæ Þorleifs; þar stigu þeir af hestum sínum í rjóðri nökkro; þá mælti Hallfreðr: nú skal ek gánga til bæjar, en þèr bíðit mín hèr til hins 3ja dags, ef þess þarf við; en þèr farit brottu leið yðra, ef ek kem eigi aptr um þat. Jósteinn bauð at fara með honum, en Hallfreðr vildi þat eigi. Hallfreðr tók sèr staf-

1) einn ok 20, *S.*

karls gervi, ok lèt breyta sem mest ásjónu sinni, hann lèt leggja lit í augu sèr, en snèri um [1]) hvörmunum, ok lèt ríða leiri ok kolum í andlit sèr; hann gerði sèr mikit skegg ok lèt þat líma við havku sèr ok kjálka; var hann þá með öllu úkenniligr ok gamaligr. Síðan lagði hann á bak sèr [tavtra bagga [2]) lángvaxinn, ok var þar í sverðit konúngs nautr. Gekk Hallfreðr svâ búinn heim á bæinn snimma dags. Þorleifr var því vanr, sem mjök var fornmennis háttr, at sitja laungum úti á haugi einum eigi lángt fra bænum, ok svâ bar nú at móti er Hallfreðr kom. Hallfreðr gekk at hauginum; fór hann heldr seint ok stumraði mjök, hafði karl þröngð mikla, ok hrækði mjök í skeggit; rengði til augun þó at úskygn væri, ef hann sæi nökkut manna úti; en er hann kom at hauginum, heilsaði Þorleifr honum ok spurði hvat manna hann væri; hann svarar: ek er einn gamall maðr fátækr sem sjá má, hrumr af vâsi ok nú mest af kuldum, er ek hefi rekizt úti á skógum í allan vetr; varð ek fyrir mönnum Ólafs konúngs snimma á hausti norðr í Þrándheimi; var ek færðr konúngi, ok vilde hann brjóta mik til kristni, en ek hljópumst í brottu leyniliga, ok drap ek áðr einn konúngs mann. Nú hefir mik ángrat síþan húngr ok frost, er ek hefir farit huldu höfði, en ek mundi enn brátt hressast, ef mèr væri við hjúkat; hefi ek því híngat leitat, at mèr er sagt, at þú sèr góðr drengr ok

[1]) út *S.* [2]) næfra bagga *S*, törra næfra bagga, *F.*

mörgum hjálparmaðr þeim er þín þurfa; vil ek biðja at þú veitir mèr ásjá nökkura. Þorleifr svarar: eigi veit ek hvat af því verðr, en þó muntu hafa farit víða ok vera maðr fróðr, ef þú ert gamall; hefir þú ok túngubragð ekki ómjúkligt; tók hann þá at spurja hann margs bæði um landa skipan ok örnefni. Karl leysti or því öllu fróðliga, er hann spurði. Þorleifr mælti: var nökkut sá maðr með Ólafi konúngi, er Hallfreðr hèt? hann dreymir mik opt; en þó er þat úmerkiligt; en koma munu hèr konúngs menn brátt. Karl svarar: heyrt hefi ek getið hans Hallfreðar ok sjaldan at góðu; hafða ek þess ok fullar raunir, at hann var þar, þvíat hann var einn af þeim mönnum, er mik færðu konúngi. Í þessu stumraði karl upp á hauginn til hans. Þorleifr mælti: eigi veit ek hvat manna þú ert, eðr hvat þú segir, en eigi verðr þú mèr alllítill fyrir augum; ætlaði hann þá upp at standa, en Hallfreðr þreif til hans ok keyrði undir sik, þvíat hann var miklu sterkari; þeir vultu ofan fyrir hauginn ok varð Hallfreðr efri; hann setti þegar hæl á augu Þorleifs, ok hleypti út or höfðinu. Þá mælti Þorleifr: nú kemr þat fram sem mèr hefir lengi ótti ok áhyggja verit at þèr, Hallfreðr! en eigi ertu nú einn at, þvíat konúngs gæfan fylgir þèr; ek þikkjumst vita, at þat mun konúngs boðskapr vera, at þú blindir mik eðr drepir, en nú vil ek biðja, at þú gefir mèr annat augat: en ek gef þèr ímóti kníf ok belti, ok er hvártveggja gersimi; en

koma þèr síðan at liði, ef svâ berr til, þvíat vera kann, at einn tíma þurfir þú fultíngs manna. Hallfreðr svarar: þat geri ek fur engan mun, at þiggja af þèr gjafar eðr góðgripi til þess at brjóta konúngs boðskap hèr um; heldr mun ek þat með öllu á mik taka, at gefa þèr kauplaust annat augat. Þorleifr þakkaði honum auga gjöfina, ok skildu at því. Fór Hallfreðr til sinna manna í skóginn, ok varð þar fagnafundr með þeim; en Þorleifr gekk heim til bæjar síns, ok sagði engum manni áverkann furr enn Hallfreðr var allr í brotto. Þeir Hallfreðr riðu leið sína, ok komo þar um farinn veg sem Kálfr átti bú; hann var úti á akri at sá korni sínu. Þá mælti Hallfreðr: nú berr vel til, ok skal drepa Kálf illmenni. Jósteinn svarar: gjörum þat eigi at blanda svâ úgiptu við auðnu. Hallfreðr svarar: eigi skiptir þá at havguðu [1]) til; góðr drengr er meiddr, en vèr látum mannskræfu þessa lifa; ok eigi nenni ek því, at marka hann eigi at minnsta kosti; ljóp Hallfreðr þá af baki, ok greip Kálf höndum, ok stakk or honum annat augat. Kálfr þoldi illa meiðslin ok bar sik lítt. Hallfreðr mælti: nú sýnir þú enn á þèr greyskapinn; var ok þess von, at mikit mundi skilja hreysti ok drengskap með ykkr Þorleifi spaka. Riðu þeir Hallfreðr þá leið sína þar til er þeir fundu konúng. Konúngr fagnaði þeim ok spurði tíðinda. Hallfreðr segir, at hann hafi blindat Þorleif. Konúngr mælti:

[1]) havgum *S*, hogum *F*.

þá hefir þú vel sýst, ok sýn mèr augu hans! Hallfreðr tók augat Kálfs ok sýndi honum; konúngr mælti: hvar fèkkt þú slíkt auga? muntu nú hafa fleira gert enn ek bauð þèr, þvíat ekki hefir Þorleifr átt þetta auga. Hallfreðr sýndi honum þá annat auga; konúngr mælti: þetta er auga Þorleifs, ok seg nú satt, hvat þú hefir gert. Hallfreðr segir þá, at hann hafi blindat Þorleif öðru auganu en stúngit annat or Kálfi; konúngr svarar: þá hefir þú enn eigi betr enn hálfgert mitt erendi, ok muntu nú vilja fara í annat sinn ok færa mèr augat Þorleifs þat er eptir er; þat vil ek eigi, segir Hallfreðr, at ræna Þorleif því auganu, sem ek gaf honum áðr; en fara man ek til Kálfs, ef þèr vilit, ok blinda hann með öllu eðr drepa, þvíat ek hefir enn eigi meirr enn hálflaunat honum þat, er hann stángaði mik með spjótsoddi, ok rak mik til bana bundinn sem þjóf; er þat sannast í, at ek gerði því ekki meira at honum, at mèr þikkir til engis vera at eiga við [mannlæru þá [1]). Konúngr kvað þá svâ standa skyldo; var Hallfreðr þá með konúngi í góðri sæmd.

*Frá Ögmundi ditt ok Gunnari helmíng.*

173. Í þenna tíma voro margir menn ok göfgir á Íslandi, þeir er í frændsemis tölu voro við Ólaf konúng Tryggvason. Einn af þeim var Vígaglúmr, son Eyólfs hrúgu ok Ástríðar Vígfúsdóttur hersis, sem fyrr er sagt. Helga hèt

[1]) mannleysi þat, *F*, *S*.

systir Vígaglúms; hún var gipt Steingrími í Sigluvík. Þorvaldr hèt son þeirra, er kallaðr var tasaldi. Sá maðr hafði vaxit upp með Vígaglúmi, er hèt Ögmundr, hann var Rafnsson; Rafn var þá auðigr maðr ok bjó norðr í Skagafirði; hann hafði verit þræll Glúms ok Ástríðar móðurr hans, ok hafði Glúmr gefit honum frelsi, ok var Rafn hans leysíngi. Móðir Ögmundar var [guðdæla ættar [1]) ok er hún eigi nefnd; hún var skyld Vígaglúmi at frændsemi. Ögmundr var fríðr maðr sýnum, mikill maðr ok gjörviligr; hafði hann gott yfirlæti af Glúmi frænda sínum. Glúmr var þá hníginn á efra aldr, ok bjó at Þverbrekku í Öxnadal, er Ögmundr, frændi hans, var roskinn; en Vígfús, sonr Glúms, var þá með Hákoni jarli í Noregi. Á einu vâri sagði Ögmundr Glúmi, at hann fýstist utanferðar; vildi ek, segir hann, kaupa mèr skip at Gásum, vil ek þar til kosta fjár föður míns er nógt er til, en hafa af þèr ásjá ok orða fultíng. Glúmr svarar: margir fara þeir utan er ekki ero mannvænligri enn þú ert at sjá; nú þætti mèr miklu skipta, at þú fengir heldr af förinni sæmd ok mannvirðíng enn mikit fè, ef eigi er hvârstveggja kostr. Keypti Glúmr honum skip at norænum mönnum; ok bjó Ögmundr ferð sína ok [2]) mikinn fjárlut, er faðir hans fèkk honum; skyldi Ögmundr vera forráðandi skips þess ok manna; voro þar á fáir menn aðrir enn íslenzkir, þeir er ekki höfðo

[1]) *öljóst í S. ok C. en vantar í F.* [2]) við, *S.*

furr farit utan. Þeir lètu í haf heldr síð sumars; gaf þeim vel byri, fengo þeir stór veðr ok hagstæð; en er þá bar or hafi, sá þeir land at áliðnum degi, ok var blásandi burr at landi; mælto þá norænir menn, þeir er leið sögðu, at varligra væri at lægja seglit ok leggja skipit í rètt um nóttina, en sigla til lands at ljósum degi. Ögmundr svarar: ekki skulum vèr ónýta byr svâ góðan, er eigi víst at slíkr byr sè á morgin, en túngls ljós mikit í nótt. Gerðu þeir sem hann mælti, at þeir sigldu; en er þeir áttu skamt til lands, lágu fyrir þeim lángskip mörg í tengslum í eyjasundi nökkuru, ok sá þeir eigi furr skipin enn þeir sigldo eitt í kaf, ok svâ inn at meginlandi til hafnar. Sögðo þá sumir menn þeir er voro á kaupskipinu, at þeir hefði siglt úvitrliga; en Ögmundr svarar, at hvârir vurðu sín at geyma. En fyrir lángskipum þeim átti at ráða Hákon jarl; en þat skip, er þeir höfðo í kaf siglt, átti sá maðr er Hallvarðr hèt; hann var ríkr maðr ok hinn mesti vin jarls; hafði þar týnzt fè alt þat er á var skipinu, en mönnum varð borgit. Jarlinum var sagt þegar um morgininn, hver svívirþíng ok skaði þeim var gjör. Jarl varð við þessi tíþindi mjök reiðr, ok segir svâ: þessir menn munu vera snápar, ok hafa ekki komit furr í önnur lönd; nú gef ek þèr, Hallvarðr! orlof til at refsa þeim ok hefna þinnar svívirðíngar; þvíat þeir einir munu þessir menn vera, at þèr mun ekki ofrefli við at eiga; skort-

ir þik hvârki til hreysti nè harðfengi at gera þeim þvílíka skömm eðr meiri, hverir sem þeir ero. Þá svarar Vígfús Vígaglúmsson: Þèr munut, herra! vilja taka sættir af mönnum þessum, ok haldi þeir lífi síno, ef þeir vilja leggja sitt mál á yðvarn dóm; nú mun ek fara at vita hvat manna þeir sè, ok leita um sættir, ef þess er kostr. Jarl svarar: mátt þú þat gera; en frekr get ek at þeim þikki lokarr [1]) minn til fègjalda um slík stórmál. Vígfús fór til kaupskipsins, ok kendi þar Ögmund frænda sinn, ok fagnaði honum vel, ok spurði tíþinda af Íslandi frá feðr sínum. Ögmundr sagði slíkt er hann spurði. Síðan mælti Vigfús: yðvart mál horfir til mikilla vandræða af tilfellum þessum; sagði Vígfús þá, hvat at var vorðit, ok svâ þat at Hákon jarl hafði seinliga tekit á sættargerð við þá; nú er þat mitt erendi híngat til þín, frændi! at biðja þik leggja á jarls dóm; en ek skal burja [2]) þitt mál sem ek kann, ok mun þá með nökkuru móti vel af hendi fara. Avgmundr svarar: þat eitt frètti ek af jarli þessum, at ekki legg ek alt mitt mál á hans dóm, ok einna sízt, ef hann heitr illu, þvíat þat mun hann efna; en eigi fyrirtek ek [3]), ef hann mælir lítilliga til. Vígfús svarar: á þat mættir þú líta, hvat þèr hæfir, þvíat þú átt við þann um, at þèr er ekki berandi hans reiði, ok

[1]) *þannig A, C, S, F.* [2]) flytja, *C, S, F.* [3]) at bæta þetta tilfelli, *bæta við C, S, F.*

neita hans dómi. Vígfús fór út til skips jarls, ok segir honum, at þessir voro hans fóstbræðr en sumir frændr; vilja þeir ok leggja sitt mál á yðvart vald. Þá svarar einn maðr jarls: rángt segir þú, Vígfús! þínum herra; þeir bjóða engi nýt boð fyrir sik. Hallvarðr svarar: þetta er sannast, at mèr er hæfiligt at hefna mín sjálfr, ok þurfva þar ekki annarra manna við. Jarl bað hann svâ gera. Vígfús mælti: þess manns skal ek banamaðr verða, ef ek má ráða, er drepr Ögmund frænda minn. Hallvarðr svarar: þó at þèr sèt ofrhugar miklir, Íslendíngar! þá er þess von hèr í landi, at menn vili eigi þola skammir bótlaust heldr af yðr frændum Vígaglúms enn avðrum mönnum, þeir er nökkurs þikkjast verðir. Reyri Hallvarðr þá til kaupskipsins; en jarl lèt hafa styrk varðhöld á Vígfúsi. Hallvarðr kom at kaupskipinu ok spurði, hverr þar væri formaðr. Ögmundr segir til sín. Þá mælti Hallvarðr: vèr fèlagar eigum við yðr stórsakir, ok erum nú til þess hèr komnir at vita, ef þèr vilit bjóða fyrir yðr nökkurar sæmiligar bætr. Ögmundr svarar: eigi mun yðr bóta synjat, ef eigi er frekliga til mælt. Hallvarðr mælti: þeir menn eiga hèr í lut, at eigi vilja smá luti þiggja fyrir stórar svívirðíngar. Ögmundr mælti: þá viljum vèr varna bóta, ef stórliga er látit ímót. Ek ætla þat ok líkazt, segir Hallvarðr, at biðja yðr ekki þess, er þèr ættit at bjóða; ljóp hann þá upp á kaupskipit,

ok laust Ögmund mikit öxarhamars högg, svâ at hann fèll þegar í óvit; fór Hallvarðr við þat á fund jarls ok segir honum. En jarl kvað miklu minna atgert enn makligt væri; Hallvarðr svarar: höfðíngi þeirra var mest sakbitinn hèr um, ok sýndist mèr at gera eigi meira at í þessu sinni, en ljósta hann í svima; var þat makligt at svívirðíng kvæmi svívirðíng ímót; en þat er fyrir hendi at auka enn hefnd síðarr ef sýnist. En þegar Vígfús vissi þetta, þá eirði hann stórilla, ok vildi vinna á Hallvarði eðr drepa hann, ef hann kvæmist í færi; en jarl lèt geyma hans, svâ at honum vurðu engi færi á því. Ögmundr vitkaðist ok hafði þó fengit mikla ákvâmu, ok lá lengi vetrar, en varð þó heill um síðir, ok varð af þessu efni mjök gabbaðr, svâ at hvar sem hann kom, var hann kallaðr Ögmundr dyttr; en hann lèt sem hann vissi eigi hvat hvergi [1]) talaði. Vígfús kom opt til hans, ok bað hann hefna sín; vil ek þar til, segir hann, veita þèr mitt liðsinni, at þú rekir þinnar svívirðíngar. Ögmundr svarar: þetta mál veit eigi svâ við, frændi! sýnist mèr at ek sè eigi meirr vanvirðr í þessu máli enn Hallvarðr; ok er varla von at minna mundi við koma svâ harðliga sem vèr höfðum vâra sök til búit í furstu; er þat úráð at hefna þessa, svâ sem Hallvarðr er mikill vin Hákonar jarls, en þú kominn hèr á hans vald;

[1]) hverr, C.

á ek annat at gjalda Glúmi föður þínum enn hafa þik í þeirri hættu, at þèr sè vís vân meiðsla eðr bana af minni tilstýríngu [1]). Vígfús svarar: fyrir þat kann ek þèr enga þökk ok eigi mun faðir minn kunna, at þú látir sem þú skulir sjá fyrir mínum kosti þar um er ek vil eigi sjálfr; ætla ek þèr heldr gánga til þess hugleysi enn varhygð [2]), ok ílt at fylgja þeim manni, er hèra hjarta hefir í brjósti; er þat ok líkazt at þèr bregði meirr í þræla ættina enn Þveræínga. Skildu þeir við þat, at Vígfús var hinn reiðazti. Leið af vetrinn ok vârit; bjó þá Ögmundr skip sitt ok fór út til Íslands um sumarit, ok hafði aflat mikils fjár í ferð þessi; kom hann skipi síno í Eyjafjörð. Glúmr frètti skjótt skipkvâmuna; var honum ok þegar sagt, hverja svívirðíng Ögmundr hafði fengit. En er Ögmundr hafði gert ráð fyrir skipi síno ok fè, þá fór hann til Þverbrekku, ok dvaldist með Glúmi um hríð; var Glúmr við hann fálátr, ok fannst þat á, at honum var engi þökk á hans kvâmu. Ögmundr var hinn kátazti ok barst á mikit; hann fór til allra mannfunda ok var heldr hlutsamr um mál manna; ok ef nökkura menn greindi á, þá þótti engi maðr skjótligri til stórræða enn Ögmundr; hann var ok tiltakasamr um alt, þat er Glúmr þurfti við um bús tilskipan eðr atflutníngar, ok lèt yfir sèr hit vænligsta; en þat var lengi at Glúmr vildi ekki við hann mæla.

[1]) mínum tilstýríngum, *C*. mínum tilstillum, *S*. [2]) varygð, *C*, *S*.

Ok einn dag mælti Glúmr til hans: vita skaltu þat, Ögmundr! at ek kann þèr enga þökk fyrir starfa þinn, ok undarligt þikkir mèr, hví þú ert svâ framgjarn eðr íhlutanarmikill um mál manna, þar sem engin dáð fylgir þèr, ok hefir herfvilig vorðit þín hin fursta ferð, svâ at ek vildi gjarna aldri sjá þik, er þú vildir verða sjálfum þèr at skömm ok brígðsli öllum frændum þínum ok bera æfinligt klækisnafn, at þora eigi at hefna þín. Ögmundr svarar: á þat mátt þú líta, frændi! hvat mèr gekk til, er hefndin fórst fur; mèr þótti mikit í hættu þar sem Vígfús var sonr þinn. Þar máttir þú, segir Glúmr, ekki fyrir sjá, er hann vildi eigi sjálfr, þætti mèr þat til vinnanda, at þit værit báðir dauðir, ok hefðir þú sýnt af þèr hugprýði um hefndina. Nú er þat annathvârt, at þú ert frá því þróttigr ok þolinn sem flestir menn aðrir, ok muntu sýna af þèr karlmennsku, þó at síðarr sè; þvíat í annann stað værir þú eigi [1]) svâ bleyðimannligr í bragði; ella ert þú með öllu ónýtr, ok verðr þat þá ríkara, sem verr gegnir, at optverðr údrjúg til drengskaparins en ófrjálsa ættin; en ekki vil ek þik lengr hafa með mèr. Fór Ögmundr þá til föður síns. En er Ögmundr hafði verit 2 vetr á Íslandi, þá bjó hann skip sitt ok fèkk manna til, ok sigldi til Noregs, kom af hafi norðr við Þrándheim, ok hèlt inn á fjörðinn; hann lagði skipi síno síð dags undir Níðarhólm [2]).

[1]) en, *S.* [2]) Níðaróshólm, *F.*

þá mælti Ögmundr: nú skal skjóta báti [1]; mun ek róa inn í ána, ok vil ek vita tíðindi af landinu. Ögmundr tók yfir sik feld hálfskiptan ok hlavðum búinn um handveginn; var þat ágæta gripr; gekk Ögmundr á bát við þriðja mann; þat var um morgin snimma; rèro þeir inn at bryggjunum. Þá gekk maðr ofan or bænum, sá var í heklu, hún var gjör af skarlati ok saumut öll brögðum; heklumaðrinn gekk ofan á bryggjurnar, ok spurði, hverr fyrir bátinum rèði. Ögmundr segir til sín. Bæjarmaðrinn mælti: ert þú Ögmundr dyttr? Kalla svâ sumir menn, segir hann, eðr hvat heitir þú? Hann svarar: ek heiti Gunnarr helmíngr; en ek er því svâ kallaðr, at mèr þikkir gaman at hafa hálflit klæði. Ögmundr mælti: hvat er tíðinda hèr í landi? Gunnarr svarar: þau þikkja nú stærst tíðindi, at Hákon jarl er dauðr, en kominn til ríkis ágætr konúngr Ólafr Tryggvason. Ögmundr mælti: hvat veizt þú til, hvar sá maðr er, er Hallvarðr heitir, þrænzkr maðr, ættstórok auðigr? Gunnarr svarar: þat er eigi undarligt, þó at þú spyrir at honum; hann er nú kallaðr Hallvarðr hárr [2]), þvíat hann var í Jómsvíkínga bardaga í fyrra vetr með Hákoni jarli, ok fèkk þar sár mikit á hálsinn fur aptan eyrat, ok berr hann síðan halt höfuðit; en nú er hann hèr í bænum með Ólafi konúngi, ok hefir fengit af honum góðar virðíngar; en feld hefir þú góðan,

[1]) fram, *bætir við S.* [2]) harz, *S.* háls, *F.*

Ögmundr! ok vel litan, er tvískiptr er; viltu selja mèr feldinn? Ögmundr svarar: eigi vil ek selja þèr feldinn; en ef þèr lízt vel á hann, þá vil ek gefa þèr. Gef þú manna heilstr, segir Gunnarr, ok vildi ek geta launat þèr þessa gjöf; en heklu þessa skaltu furst hafa, má vera at þèr verði at henni gagn. Gekk Gunnarr þá upp nökkro innarr í bæinn ok var í feldinum, en Ögmundr fór í hekluna. Hann mælti til manna sinna: nú skulut þit festa bátinn við [bakkann lítt þat [1]) at skutstafninum, svâ at eigi svífi frá meðan ek geng upp; en þit skulut sitja í rúmunum ok hafa búnar árar til róðrar. Síðan gekk Ögmundr upp í garðinn ok varð lítt við menn varr. Hann sá [2]) dyrr á einu herbergi, ok stóðu þar nökkurir menn við handlaugar, ok var einn mestr ok fríðastr sýnum; sá bar halt höfuðit, ok kendi Ögmundr at frásögn Gunnars, at þar mundi vera Hallvarðr. Gekk Ögmundr at durunum, ok þóttust allir þar kenna Gunnar helmíng, þeir er inni voro. Hann var heldr lágtalaðr, bað hann Hallvarð gánga út til sín um litla muni, þvíat ek á skylt ok skjótt erendi við þik, segir hann; snèri hann þá annann veg frá durunum ok brá sverðinu, er hann hafði í hendi. Gunnarr helmíngr var þar öllum mönnum málkunnigr, ok gekk Hallvarðr út einnsaman, en Ögmnndr bjó hann þegar banahögg, er hann

[1]) bryggjona, S. bátinn lítt að við bakkan, C. [2]) opnar *bæta við C, S.*

kom at honum; ljóp Ögmundr þá ofan til bátsins, kastaði hann af sèr heklunni, lèt koma stein í höttinn ok fleygði út á ána, ok sökk hún til grunna. Ögmundr gekk á bátinn, ok bað þá róa út or ánni. En er þeir komo til kaupskipsins, mælti hann til sinna manna: hèr er úfriðr mikill í landi; en nú kastar í vindi innan eptir firðinum, munu vèr vinda segl vârt, ok sigla út aptr til Íslands. Þeir kölluðu hann heldr hræddan, er hann þorði eigi at koma á land, þó at þarlenzkir menn ættist ílt við. Þeir gerðu þó sem hann mælti fyrir, komo aptr til Íslands ok tóko Eyjafjörð. Fór Ögmundr á fund Vígaglúms ok sagði honum sína ferð, kvað þá hefndina komna fram, þó at frestin væri laung. Glúmr lèt þá vel yfir, kallaði þat ok verit hafa sitt hugboð, at hann mundi verða nýtr maðr um síðir. Var Ögmundr þá með Glúmi um vetrinn í góðu yfirlæti. En nú er þar til at taka, at þá er mönnum Hallvarðar þótti seinkast innkvâma hans, gengu þeir út ok fundo hann liggja dauðan í blóði síno; voro þá sögð þessi tíðindi Ólafi konúngi, ok þat með at menn hugðu, at Gunnarr helmíngr hefði drepit hann. Konúngr svarar: hann mundi ek [eigi í heldra lagi [1]) til kjósa, en þó skal nú þegar í stað leita at honum ok festa hann upp, ef hann er þessa valdr. Gunnarr helmíngr átti sèr bróður, er hèt Sigurðr; hann var auðigr ok hirðmaðr Ólafs konúngs ok hon-

[1]) sízt, C, S.

um kærr mjök. Var Sigurðr þar í bænum; en þegar hann varð varr við, at bróður hans var ætlaðr dauði, þá leitar hann at honum ok finnr hann; spurði Sigurðr, ef hann væri sannr verks þessa, er honum var kent. Gunnarr kvað þat fjarri vera. Sigurðr mælti: þat hafa menn þó fyrir satt, ok seg þú mèr, hvat þú veizt til um atburð þenna? Gunnarr svarar: þat segir ek at sinni hvârki þèr nè avðrum. Sigurðr mælti: forða þèr þá! Gunnarr gerði svâ, ok komst hann til skógar ok varð eigi fundinn; fór hann síðan austr um fjall ok um Upplönd alt huldu höfði; lètti hann sinni ferð eigi furr enn hann kom fram austr í Svíþjóð. Þar voro blót stór í þann tíma, ok hafði Freyr þar verit mest blótaðr lengi, ok svâ var mjök magnat líkneski Freyrs, at fjandinn mælti við menn or skurðgoðinu, ok Frey var fengin til þjónosto kona úng ok fríð sýnum; var þat átrúnaðr landsmanna, at Freyr væri lifandi, sem sýndist í sumu lagi, ok ætlaðu at hann mundi þurfa at eiga hjúskaparfar við kono sína; skyldi hún mest ráða með Frey fyrir hofstaðnum ok öllu því er þar lá til. Gunnarr helmíngr kom þar fram um síðir, ok bað konu Freys hjálpa sèr, ok beiddi at hún mundi hann láta þar vera; hún leit við honum, ok spur hverr hann væri; hann kvaðst vera brautíngi [1]) einn lítilsháttar ok útlendr. Hún mælti: eigi muntu vera í alla staði gæfu-

[1]) breytíngi, *S.* leysíngi, *F.*

maðr, þvíat Freyr lítr eigi vinar augum til þín; nú hvíl þik hèr furst 3 nætr, ok vita [1]) þá hversu Frey þókknist [2]) til þín. Gunnarr svarar: miklu þikkir mèr betra, at þiggja þína hjálp ok hollostu enn Freys. Gunnarr var glaðr ok skemtanar maðr mikill; en er 3 nætr voro liðnar, spurði Gunnarr kono Freys, hversu þá skyldi vera um þarvist hans. Eigi veit ek þat gjörla, segir hún, þú ert maðr fèlauss, ok kann þó vera at þú sèr góðra manna, ok væri mèr um þat meira at veita þèr nökkura ásjá, en Frey er lítit um þik, ok uggi ek at hans reiði liggi á; nú ver þú hèr hálfan mánat, ok sjám þá hvat ígerist. Gunnarr mælti: svâ skiptir hèr til sem ek mundi kjósa, at Freyr hatar mik, en þú hjálpar mèr, þvíat ek ætla hann eigi meðalfjanda vera. Gunnarr þókknaðist mönnum því betr sem hann hafði þar lengr verit fyrir skemtan sína ok annann vaskleik; kom hann enn at máli við kono Freys, ok spur um sína hagi. Hún svarar: vel líkar mönnum til þín, ok þikkir mèr ráð, at þú sèr hèr í vetr ok farir á veizlur með okkr Frey, þá er hann skal gera mönnum árbót; en þó er honum illa við þik. Gunnarr þakkaði henni vel. Líðr nú at þeirri stundo, er þau búast heiman, ok skyldo þau Feyr ok kona hans sitja í vagni, en þjónustomenn þeirra skyldo gánga fyrir; þau áttu lángt at fara yfir fjallveg nökkurn, þá gerði at þeim hríð mikla, gerðist þá

[1]) vitum, *C.* [2]) þokkast, *S*, *F.*

færðin þúng, en Gunnarr var til ætlaðr at fylgja vagninum [ok leiða eykinn; en um síðir kom svâ, at alt fólk dreif frá þeim, svâ at Gunnarr einn varð eptir ok þau Freyr í vagninum [1]); tók Gunnarr þá at mæðast mjök, er hann leiddi eykinn; ok er svâ hafði farit um stund, þá gefr hann upp fyrirgaunguna ok sezt í vagninn, en lætr eykinn ráða leiðinni; litlu síðarr mælti hon til Gunnars: dugi þú enn ok leið hestinn, ella mân Freyr standa at þèr; hann gerir svâ um hríð; en er hann mæddist enn mjök, mælti hann: til mun ek nú hætta at taka ímóti Frey, ef hann ræðr á mik. Freyr rèðst þá or vagninum, ok taka þeir fáng, ok verðr Gunnarr mjök aflvani; hann sèr at eigi man svâ búit duga; hugsar hann þá fyrir sèr, ef hann getr yfirkomit þenna fjanda, ok verði honum auðit at koma aptr til Noregs, at hann skal hverfa aptr til rèttrar trúar, ok sættast við Ólaf konúng, ef hann vill við honum taka; ok þegar eptir þessa hugsan tekr Freyr at hrata fyrir honum, ok því nærst fellr hann; hleypr þá or líkneskinu sá fjandi, er þar hafði í leynzt, ok var þá trèstokkr einn tómr eptir; braut hann þat alt í sundr. Síðan gerði hann konunni 2 kosti, at hann mun laupa frá henni ok leita fyrir sèr, ella skal hún segja, er þau koma til bygða, at hann sè Freyr; hún kvaðst þat vilja gjarna segja heldr. Fór hann þá í búnat skurðgoðsins,

[1]) *vantar í S.*

en veðrit tók at birta; komo þau um síðir til veizlu þeirrar, er þeim var búin; var þar fyrir mart þeirra manna, er þeim skyldu fylgt hafa; þótti fólkinu nú mikils um vert, hversu Freyr sýndi mátt sinn, er hann skyldi komast til bygða með konu sína í veðri slíku, þar sem allir menn höfðo laupit frá þeim, ok þat með at hann mátti nú gánga með öðrum mönnum, ok át ok drakk sem aðrir menn. Fóro þau at veizlum um vetrinn, var Freyr jafnan fátalaðr við aðra menn [1]). En svâ kom, at eigi vill hann láta kvikvendi sæfa fyrir sèr sem furr, ok engi blót vill hann þiggja ok engar fórnir eðr offur utan gull ok silfr, klæði góð eðr aðrar gersimar. En er stundir líða fram, þikkjast menn finna, at kona Freys er með barni, þat verðr mönnum allágætt, ok þótti Svíum nú allvænt um þenna guð sinn, var ok veðrátta blíð ok allir lutir svâ árvænir, at engi maðr mundi slíkt. Spurjast þessi tíðindi víða um lönd, hversu blótguð Svía er máttugr; kemr þetta ok fyrir Ólaf konúng Tryggvason, ok grunar hann um hverju gegna mun; ok einn dag um vârit kallaði Ólafr konúngr til tals við sik Sigurð, bróður Gunnars helmíngs. Konúngr spurði, ef hann frètti nökkut til Gunnars bróður síns. Sigurðr kvaðst ekki til hans frètta. Konúngr mælti: þat hefvir hugr minn [2]), at þessi blótguð Svía, er nú gánga

[1]) en konu sína, *bæta við C, S.* [2]) *þannig allir.*

mestar sögur frá, ok þeir kalla Frey, at þar muni vera reyndar Gunnarr bróðir þinn; þvíat þau blót verða römmuzt [1]), er lifandi menn ero blótaðir. Nú vil ek senda þik austr þángat eptir honum; þvíat þat er herfiligt at vita, ef kristins manns sála skal svâ sárliga fyrirfarast, vil ek gefa honum upp reiði mína, ef hann vill auðveldliga koma á minn fund; þvíat ek veit nú, at Ögmundr dyttr hefir drepit Hallvarð en eigi Gunnarr. Sigurðr brá við skjótt ok fór til fundar við Frey þenna, ok kendi þar Gunnar bróður sinn; bar hann honum eyrendi ok orð Ólafs konúngs. Gunnarr svarar: fúss væra ek at fara ok sættast við Ólaf konúng; en ef Svíar verða varir við hvat um er, þá munu þeir vilja taka mik af lífi. Sigurðr mælti: vèr skulum leyniliga leita hèðan á braut ok hafa á því traust, sem vera mun, at meira megi gæfa ok góðvili Ólafs konúngs með guðs miskun, enn illvili ok eptirleitan Svía. Gunnarr býr sik ok kono sína, ok höfðo með sèr lausafè slíkt er þau máttu með komast, rèðu síðan til ferðar leyniliga um nótt. En er Svíar verða þessa varir, þá þikkjast þeir alt sjá, hversu farit mun hafa, ok sendu þegar menn eptir þeim; en er þeir voro skamt komnir, þá viltust þeir vegar ok fundo þau eigi; fóro Svíar við þat aptr. En þau Sigurðr lèttu eigi sinni ferð, furr enn þau

[1]) verða mest blót, S.

fundu Ólaf konúng, tók hann Gunnar aptr í sætt við sik, en lèt skíra kono hans, [ok hèldo þau síðan rètta trú [1]).

*Konúngr bauð Kjartani til Íslands at boða kristni.*

174. Þenna vetr sem Gunnarr helmíngr var í Svíþjóð, voro þeir Kjartan ok Bolli ok Hallfreðr vandræðaskáld með Ólafi konúngi sem fyrr var getið. En er vetr leið ok menn bjöggust ferða sinna, þá gekk Kálfr Ásgersson til fundar við Kjartan, ok spurði hvat hann ætlaði ráða sinna um sumarit; hann svarar: þat hafða ek helzt ætlat, at við mundim halda skipi okkru til Englands í sumar, þvíat þángat er nú kaupferð góð kristnum mönnum; en þó vil ek finna konúng áðr enn ek ráða þessu til staðar, þvíat hann tók lítt á um þá ferð, er okkr varð umtalat. Síðan gekk Kálfr á brottu, en Kjartan gekk til tals við konúng. Konúngr tók honum þá sem jafnan með hinni mestu blíðu, ok spurði, hvat í tali hafði verit með þeim fèlögum. Kjartan segir, hvat þeir Kálfr hefði helzt ætlat, en kvað þá sitt erendi, at biðja hann orlofs um sína ferð. Konúngr svarar: þann kost mun ek gjöra þèr, Kjartan! um ferðir, at þú farir út til Íslands í sumar ok brjótir þar fólk til kristni annathvart með styrk eðr ráðum; en ef þèr þikkir sú ferð torsóttlig, þá vil ek fyr engan mun láta þik lausan, þvíat oss virðist, at þèr sè betr hent

[1]) *vantar í S.*

at þjóna tignum mönnum, heldr enn gerast at kaupmanni ok rekast landa ímilli. Kjartan svarar: skjótkjörit geri ek þat, herra! at ek vil miklu heldr vera hèr með yðr enn deila af kappi við frændr mína ok vini; er þat ok líkara um föður minn ok aðra frændr mína, at þeir sè eigi at strángari ímóti at gera yðarn vilja, at ek sè hèr á yðru valdi í góðum kostum. Konúngr mælti: þetta er bæði kjörit vitrliga ok mikilmannliga. Gaf konúngr honum þá avll klæði ný skorin af skarlati, er hann hafði sèr gera látit, ok hæfðu Kjartani þau vel; þvíat þat segja menn, at þeir hafi verit jafnháfir menn, er þeir gengu undir mál, Ólafr konúngr Tryggvason ok Kjartan Ólafsson. Fór Kálfr Ásgersson með fè þeirra Kjartans til Englands um sumarit.

*Hallfreðr vandræðaskáld kemr til Gautlands.*

175. Einn dag um vârit er Hallfreðr vandræðaskáld var fyrir konúngi, mælti hann: leyfi vildi ek þiggja af yðr, herra! at sigla í sumar kaupferð suðr til Haleyrar; konúngr mælti: eigi skal þat banna þèr; en svâ segir mèr hugr um, at eigi munir þú ófúsari aptr koma til mín, enn nú ferr þú í brott; ok mart mun áðr líða yfir hagi þína. Hallfreðr svarar: til þess verðr nú at hætta. Eptir þat bjóst Hallfreðr, ok sigldi til Danmerkr, sem hann hafði ætlat; hann hafði spurn af Sigvalda jarli, at hann var höfðíngi mikill; Hallfreðr kom á fund hans, ok sagðist

hafa ort um hann kvæði. Jarl spurði, hverr hann væri? Hallfreðr segir nafn sitt. Jarl mælti: ert þú skáld Ólafs konúngs Tryggvasonar? Svâ er, segir Hallfreðr, ok vildi ek nú hljóð fá at flytja kvæðit. Jarl svarar: hví mun oss þat eigi sæmiligt, er Olafr konúngr lætr sèr vel líka. Hallfreðr færði kvæðit, þat var flokkr. Jarl þakkaði honum, ok gaf honum gullhríng þann, er vâ hálfa merk, ok bauð honum með sèr at vera. Hallfreðr svarar: hafit þökk fyrir boðit, herra! en ek á erendi til Svíþjóðar, ok verð þó furst at venda aptr til Noregs, þá er ek verðliðugr. Jarl bað hann gera sem hann vildi. At áliðnu sumri sigldi Hallfreðr sunnan til Víkrinnar, ok fèkk storm veðrs, brutu þeir skipit austan fjarðar ok týndu fè öllu; fór Hallfreðr þaðan til Konúngahellu, ok dvaldist þar um hríð. Svâ bar til einn dag, er Hallfreðr gekk út, at maðr kom ímót honum, kvaddi hvârr annann, ok spur Hallfreðr, hverr þessi maðr væri; hann svarar: ek heiti Auðgisl [1]), gauzkr maðr, á ek á Gautlandi bú ok konu, en þó er ek nú at kominn vestan af Englandi, skortir mik eigi auð, eða ertu Hallfreðr vandræðaskáld? Hann kvað svâ vera. Auðgisl mælti: ek hefir spurt, at þú hefir verit í skipsbroti ok ert nú vorðinn mjök svâ öreigi ok fèþurfi; nú mun ek slá kaupi við þik, at þú far með mèr austr á Gautland til vetrvistar, en ek skal gefa þèr 10 merkr silfrs

[1]) Auðgils, C, S.

til fylgðar, því at mèr er sagt, at þín fylgð sè vel kaupandi, en vegrinn er kallaðr ekki hreinn, ok setjast af því margir aptr, þeir er fara vildi. Hallfreðr svarar, at hann vill þenna kost. Eptir þat bjöggust þeir, ok höfðo klyfjaða 5 hesta ok einn lausan, fóro síðan austr á markir 2 saman; ok einn dag sá þeir at maðr fór í móti þeim, sá var mikill ok styrkligr; þeir spurðu, hverr hann væri; hann svarar: ek heiti Önundr, ek em sænskr at ætt ok nú austan at kominn, eða hvert ætlit þit at fara? þeir segja honum. Önundr mælti: vandfært er mjök er austr sækir á skóginn, þeim er úkunnigt er, geta þess ok sumir menn, at ekki farist vel þeim mönnum vegrinn, er með fè fara, en þó varð ek við engan háska varr, ok er þat eigi mark, því at mèr ero hèr allar leiðir kunnar, ok veik ek hjá alsstaðar þar er spellvirkja bælin ero vön at vera. Nú mun ek ráðast til ferðar með ykkr, ef þit vilit gefa mèr leigu nökkura. Auðgisl svarar: lítit er mèr um þat, veit ek eigi hverr þegn þú ert. Hallfreðr var heldr eggjandi, at þeir tæki við honum, ok þat varð; skyldi hann hafa 12 aura silfrs í leigo. Hallfreðr var þá sem þroskamestr, hann var bæði mikill maðr vexti ok afrendr [1]) at afli, hraustr ok skjótr til áræðis; Auðgisl var við aldr ok ekki styrkr maðr. þeir fóro nú leið sína ok voro 3 saman. Önundr fór fyrir

[1]) *þannig A, C.* rammr, *S.*

um daginn ok kom at sæluhúsi nökkuru um kveldit; þá mælti Hallfreðr: nú munu vèr eiga þrenn verk fyrir höndum, ok skaltu, Önundr! viða heim til eldibranda oss, þú hefir öxi mikla í hendi, en Auðgisl skal gera eld, en ek mun taka vatn. Önundr svarar: þat mun bezt at viða heim útæpiliga til hússins, þvíat hèr kunnu opt menn at koma ok þurfa eldivið. Hallfreðr kvað þat vel mælt. Auðgisl mælti: heldr vil ek sækja vatnit, en þú gerir eldinn; látum svâ þá, segir Hallfreðr. Þeir fóro nú, Auðgisl at sækja vatn, en Önundr eptir viðinum, en Hallfreðr sló eld, ok tendraðist eigi skjótt, þótti honum ok þeir at verða heldr seinir til hússins; Hallfreðr hafði leyst af sèr beltit ok kastað á háls sèr, var þar við týgilknífr mikill, [sem þá var mönnum tídt at hafa [1]), ok lá knífrinn aptr á bak Hallfreði, er hann lagðist niðr at kveykja eldinn; þá kom Önundr inn með viðinn ok kastaði honum skjótt niðr, en hann snaraði at Hallfreði sem harðazt með reidda öxina, ok hjó til hans tveim höndum um þvert bakit; kom öxin í knífinn, ok skeindist Hallfreðr lítt tveim megin [2]) á hrygglundunum, er öxar hyrnurnar námu, en í því er hann heyrði at öxin reið at honum, fèkk hann þat fánga ráð at hann greip hit neðra til fótanna Önundi, hèt Hallfreðr þá á guð ok

[1]) er Ólafr konúngr hafði gefið honum, *F*, *S*. sem fyrr er sagt, *bætir enn við S.* [2]) hryggjar, *bætir við S.*

mælti: dugi þú nú, Hvítakristr! at eigi stígi sjá mannfjandi yfir mik, ef þú ert svâ máttugr, sem Ólafr konúngr, lánardrottinn minn, segir. Ok með guðs miskun ok gipt Ólafs konúngs, er jafnan stóð yfir honum, þá gat hann rèzt upp með Önund, ok rak hann niðr fall svâ mikit, at hann lá í óviti, ok hraut öxin or hendi honum. Hallfreðr brá litlu saxi, er hann var gurðr [1]) með undir klæðunum; vitkaðist þá Önundr. Hallfreðr spurði, hvârt hann hefði drepit Auðgisl. Hann kvað svâ vera. Hallfreðr lagði saxinu ígegnum hann, dró hann síðan út ok burgði húsit; ætlaði Hallfreðr þá at taka á sik náðir, en þess gerðist varla kostr, þvíat Önundr brauzt á hurðina fast, en Hallfreðr stóð við innan. Gekk þat alt til dags. Um morgininn fann Hallfreðr Auðgisl drepinn við brunninn, tók hann af honum kníf ok belti ok hafði með sèr, þat voro góðir gripir; síðan gróf hann Auðgisl; sá Hallfreðr þá, at Önundr mundi verit hafa spellverki ok drepit menn til fjár sèr, var hús þat mjök svâ fult af fè ok alskonar varníngi; þá kvað Hallfreðr vísu:

Ól ek þar er [aldri væla [2])
auðgildanda vildag
hyrjar njóts [3]) á hvítu
hrafnvíns fè mínu;

[1]) gyrðr, *C*, *S*. [2]) vela, *C*. [3]) njót, *C*, nátt *F*, *S*.

vann ek til góðs fyrir [1]) grenni
gunn márs sem ek kunna,
en furskerðir færði
fjavrtál at mèr hjörva.

Síðan fór Hallfreðr austr á fjallit ok varð eigi greiðfært, þvíat hann kunni illa leiðir, ok at kveldi eins dags heyrði hann viðarhögg fram á skóginn fyrir sik, reið hann þángat eptir, þvínæst fann hann rjóðr í skóginum, ok var þar maðr fyrir ok feldi við; þessi maðr var mikill ok þrekligr, rauðskeggjaðr, skolbrúnn ok heldr illmannligr; sá heilsaði honum, ok spurði, hverr hann væri. Hallfreðr segir til sin, ok spurði ímóti, hverr hann væri; ek heiti Björn, segir hann, bý ek hèr fur austan skóginn, far þú til gistíngar með mèr, ek á húsakynni góð, ok má ek vel varðveita at varníngi þínum. Hallfreðr þá boð hans, ok fór með honum, þvíat Hallfreði var þar úkunnigt um bygðir, en nökkut þótti honum bóndi grunsamligr, sýndust Hallfreði fèkrókar í augum hans. Björn var allbeinn við hann um kveldit, var þar margt manna, ok er til rekkna var farit, lá bóndi ok húsfreyja í lokhvílu einni, þar voro 2 rekkjor, var Hallfreði skipat í aðra; en er þau höfðo niðrlagizt, þá var skotit aptr lokhvílu hurðinni ok sett á hespa fyrir framan. Hallfreðr grunaði Björn því meirr, hann hafði ekki farit af klæðunum, stóð hann upp við fóta þilit, ok brá sverðinu

[1]) við, *B*, *C*, *S*.

konúngs naut; í því bili lagði Björn í rúmit, en Hallfreðr hjó hann þegar banahögg; húsfreyja ljóp upp æpandi, hèt hún á heimamenn, bað þá duga til ok höndla þenna glæpamann, er drepit hafði bónda hennar saklausan; stóðu menn þegar upp, var þá kveykt ljós, ok lokit upp hvílugólfinu; Hallfreðr bjóst til varnar, en húsfreyja bar klæði á vâpn hans, var hann þá handtekinn ok fjötraðr. Síðan sendi húsfreyja orð þeim manni er hèt Ubbi, ok var kallaðr Blót-Ubbi, vildi hún taka ráð af honum, hvat gera skyldi við þenna hinn útlenda mann, er drepit hafði bónda hennar; en hann lagði þat til, at hann væri færðr á þíng, ok þar dæmt um mál hans af öllum samt bygðarmönnum. Bróðir Ubba hèt Þórarr [1]), hann var auðigr maðr, ok rèð mestu í því hèraði. Dóttir Þórars hèt Íngibjörg, hún var vitr kona ok hinn mesti kvennskörúngr, þá konu hafði Auðgisl átta. Nú var fundr stefndr, kom Þórarr þar ok Blót-Ubbi, þar kom ok Íngibjörg, dóttir Þórars, var þá talat um mál þessi, kom þat helst ásamt með þeim, at glæpamaðr þessi hinn útlendi mundi hafðr vera til blóta. Þá mælti Íngibjörg: mun eigi ráð at hafa mál ok tíðinda sögn af manni þessum, er um lángan veg er atkominn, áðr hann sè til dauða dæmdr fullkomliga. Þórarr svarar: þat mun enn lýsast sem jafnan, at þú ert vitrari enn þeir aðrir, sem hèr

[1]) Þórarinn, *F. allstaðar.*

ero samankomnir; gakk þú nú til hans ok vit, hvat manna hann er, eðr hvat hann kann segja. Hún gekk til þar sem Hallfreðr sat bundinn harðliga, ok spur, hverr hann væri. Hallfreðr nefndi sik, ok sagðist vera íslenzkr maðr. Ert þú Hallfreðr vandræðaskáld? segir hún. Hann segir svâ vera. Íngibjörg mælti: hvat dró þik til kristinn mann ok hirðmann Ólafs konúngs, at rekast austr híngat í heiðni vâra einnsaman? Hann hóf þá upp sögu alla, ok sagði henni um ferðir sínar frá því er hann sigldi um sumarit til Danmerkr ok alt þar til, er hann tók gistíng at Bjarnar. Nú fóro skipti okkur Bjarnar, segir Hallfreðr, svâ sem vita má, at ek drap Björn, ok þó eigi furr enn hann veitti mèr svikligt tilræði; en ef þú ert, sem ek ætla, sú Íngibjörg, er Auðgisl sagði mèr at væri húsfreyja hans, þá hefir ek hèr nú ekki annat til míns vitnisburðar, at saga mín er sönn enn knif ok belti, er ek tók af Auðgisli dauðum, þvíat alla aðra penn-ínga, þá er ek fór með, tók Björn í sína varðveizlu um kveldit, er ek kom til hans; ok kom Auðgisli fyrir lítit at hafa mik dýrt leigt til ferðar með sèr, ef ek skyldi eigi hefna dráps hans en fjörráða við mik; sýndi hann henni þá gripina; Hallfreðr kvað þá vísu:

Svâ hefk hermila harma
hnigbaldr í gný skjalda
baugs erum svipt at sveigi
sárlinns rekit minna;

at loſhnugginn liggja
lèt ek sunnr [1]) í dyn gunnar
ekk [2]) um hefnda svâ okkar
Auðgisl bana dauðan.

Íngibjörg kvaðst gerla kenna þessa gripi, at Auðgisl hafði átt, spurði hún vandliga at, hversu farit hafði með þeim Önundi; Hallfreðr kvað:

Ek brá elda stökkvi
ölna skeiðs af reiði
lagða ek hendr at hundi
hundgeðjaðum undir;
stendr eigi sá sendir
síðan Hlakkar skíða
bál rauð ek Yggjar èla
èls fyrir [3]) þjoð á vèlum.

Íngibjörg mælti: sjá mun vera sönn saga, þvíat Björn hefir lengi um grun búit; skaltu nú furst fara heim með mèr, en síðan skal ek reyna sannsögli þína. Nú fór Hallfreðr með henni, ok var hann þrekaðr mjök af harðri knúskan ok böndum, en Íngibjörg lèt skjótt næra hann. Íngibjörg ok Þórarr faðir hennar fóro til bæjar þess, er Björn hafði átt, voro þar allir peníngar, þeir er Hallfreðr hafði með farit, ok Auðgisl hafði átt, tók Íngibjörg þat fè alt til sín, þvíat þau Auðgisl áttu ekki barn. Síðan sendu þau menn á fjallit, ok reyndist þat alt sannindi, sem Hallfreðr hafði sagt; var þá flutt fè þat alt til

[1]) sundr, *B.* [2]) ek, *B*, *C*, *S.* [3]) við, *B*, *C*, *S*, *F.*

bygða, er Önundr hafði samandregit, var þat þá samþykkt af öllu bygðarfólki ok dæmt eptir lögum þeirra, at Hallfreðr ætti fè þat alt, er hann hafði svâ drengiliga til vunnit, var þat alt mikill auðr. Hallfreðr var með Íngibjörgu vel haldinn, ok hèldo landsmenn brátt mikit tal af honum. Íngibjörg var bæði vitr kona ok væn at sjá, var hvârt þeirra Hallfreðar öðru vel hugþokkat; leið eigi lángr tími, áðr Hallfreðr vakti bónorð sitt við hana ok bauðst henni til bónda. Hún svarar: margt er í því vænligt, en þó eigi sèð fyrir allri gegníngu [1]) þar um; þú ert maðr skírðr ok hèr útlendr, en hèr ero blót mikil, ok munu menn ekki þola [2]) at þú haldir þann sið, sem þú hefir áðr játat, en í annann stað eigi víst, at þèr dugi vel, ef þú fellir niðr þann átrúnat, en líkligr ertu til góðrar forostu. Nú far þú á fund föður míns ok leita við hann þessa mála. Hallfreðr gerði svâ. Töluðo þeir þetta mál með sèr, ok kom alt ásamt með þeim, lauk því svâ, at Hallfreðr fèkk Íngibjargar ok settist í bú með henni, skorti þar eigi auð fjár. Dvaldist hann þar um hríð, ok undi vel ráði sínu.

[*Frá Færeyíngum*].

176. Nú þó at margar ræður ok frásagnir sè skrifaðar í þessu máli, þær [3]) er eigi þikkja mjök tilheyra sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar, þá þarf þat eigi at undrast, þvíat svâ sem renn-

[1]) virðíng, *S*, *F*. [2]) *þannig B*, *C*, þora, *A*. [3]) *þannig B*, *C*, þá, *A*.

andi vötn fljóta af ýmissum uppsprettum, ok koma öll í einn stað niðr, til þeirrar sömu líkíngar hafa þessar frásagnir af ýmisligu upphafi eitt endimark, at ryðja til þeirra atburða, sem Ólafr konúngr verðr viðstaddr eðr menn hans, svâ sem enn man sýnast í því er eptir ferr.

177. Maðr er nefndr Grímr kamban, hann var faðir Þorsteins, er kallaðr var skrof [1]; hann var faðir Þórólfs smjörs, föður Auðunar rotins, föður Einars, föður Eyjólfs Valgerðarsonar, föður Guþmundar hins ríka ok Einars Þveræíngs. Móðir Einars Auðunarsonar var Helga, dóttir Helga hins magra. Dóttir þeirra Auðunar ok Helgu var Vigdís, móðir Halla ens hvíta, föður [2] Orms, föður Gellis, föður Orms, föður Halla, föður Þorgeirs, föður Þorvarðar ok Ara, föður Guðmundar biskups. Svâ er sagt at Grímr kamban bygði furstr manna Færeyjar; en á dögum Haralds ens hárfagra flýðu fyrir hans ríki fjöldi manna, settust sumir í Færeyjum ok bygðu þar, en sumir leituðu til annarra eyðilanda. Auðr hin djúpauðga, dóttir Ketils flatnefs, fór til Íslands eptir fall Þorsteins rauðs, sonar síns; kom hún þá til Færeyja, sem furr er getit, ok gipti þar Ólöfu, dóttur Þorsteins rauðs, ok er þaðan kominn hinn mesti kynþáttr Færeyínga, er þeir kalla Gavtuskeggja.

178. Þorbjörn hèt maðr ok var kallaðr

[1]) skrofi, C. [2]) ok, B.

götoskegg [1]), hann bjó í Austrey í Færeyjum. Guðrún hèt kona hans; þau áttu 2 sono, hèt hinn ellri Þorlákr, en annarr Þrándr, báðir voro þeir miklir menn ok styrkir. Þorlákr kvângaðist þar í eyjunum, ok var þó heima í Götu með föður sínum. Þorbjörn var þá gamall ok andaðist litlu síðarr; áttu synir hans þá arfi at skipta með sèr, vildi hvârtveggi hafa heimabólit í Götu, þvíat þat var gersimi sem mest; lögðu þeir á luti ok hlaut Þrándr heimabólit, en eptir skiptit beiddi Þorlákr at hafa heimalandit, en Þrándr hefði útlendur ok lausa fè, þat er Þorláki hafði hlotnazt, þvíat hann hafði tekit lausafè með kono sinni; Þrándr vildi þat eigi; seldi hann þá at leiga [2]) landit í Götu mörgum mönnum, ok tók af leigu sem mesta, en hann fór með kaupmönnum austr til Noregs um sumarit, ok hafði lítinn kaupeyri, hafði hann þar skemmusetu um vetrinn, hann þótti heldr myrkr í skapi. Um sumarit eptir fór hann með burðíngs mönnum suðr til Haleyrar, þá er þar var fjölmenni mest ok kaupstefna; fèkk Þrándr þar of lausa fjár af engu efni utan svikum sínum ok undirhyggju, fór hann þaðan til Noregs ok keypti sèr þar byrðíng mikinn ok góðan; bar hann þar á þat hit mikla fè, er hann hafði fengit um sumarit, sigldi síþan til Færeyja ok setti bú saman í Götu. Þrándr var mikill maðr

[1]) Götuskeggr, *B*, *C*.   [2]) *þannig allir, kannske* leigu.

vexti, rauðr á hár ok rauðskeggjaðr, freknóttr ok greppligr í ásjónu, myrkr í skaplyndi, slægr ok ráðugr til allra vèlráða, údæll ok ágjarn [1]) við alþýðu, talaði fagrt við hina meiri menn, en hugði flátt.

179. Hafgrímr hèt maðr, er bjó í Suðrey þar í Færeyjum á bæ þeim, er heitir at Hofi, hann var blótmaðr mikill ok höfþíngi; hann hafði í lèn hálfar Færeyjar af Haraldi gráfeld, er í þann tíma var konúngr yfir Noregi. Guþ-ríðr hèt kona Hafgríms, hún var dóttir Snæúlfs, er bjó í Sandey. Snæúlfr var ættaðr or Suðr-eyjum, hafði hann flýit þaðan fyrir víga sakir, var hann nú aldraðr ok þó enn údæll ok illr við at eiga. Hafgrímr mágr hans var ákafamaðr mikill ok ekki vitr. Þá bjöggu í Skúfey bræðr 2 auðigir, hèt annarr Brestir en annarr Beinir, þeir voro Sigmundarsynir; Sigmundr faðir þeirra var bróðir Þorbjarnar götuskeggs, föður Þrán-dar í Götu. Þeir Brestir ok Beinir voro menn auðigir ok höfþíngjar yfir hálfum eyjunum til móts við Hafgrím, hèldo þeir þann helmíng í lèn af Hákoni jarli Sigurðarsyni, ok voro þeir bræðr hirðmenn hans ok kærir vinir. Brestir var allra manna mestr ok sterkaztr, ok hverjum manni betr vígr, þeim er þá var í Færeyjum, hann var fríðr maðr sýnum ok fimr við alla leika. Beinir var líkr bróður sínum um margt, en komst eigi til jafns við hann; fátt var jafnan með

[1]) illgjarn. *B*, *C*, *S*.

þeim bræðrum ok Þrándi í Götu, þó at frændsemi væri með þeim mikil.

180. Bjarni hèt maðr, er bjó í Svíney, hann var auðigr, ekki vinsæll ok undirhyggjumaðr mikill; hann var móðurbróðir Þrándar í Götu. Þíngstayð Færeyínga var í Straumsey, þar er höfn góð, er þeir kalla Þórshöfn, ok sóttu menn þángat þíng um allar Færeyjar. Báðir voro þeir bræðr úkvæntir, en þó átti sinn son hvârr þeirra; Þórir hèt son Beinis, en Sigmundr son Brestis, ok var hann 2 vetrum ýngri. Þessu nærst hófust deilur með þeim bræðrum í Skúfey ok Hafgrími, sem segir í Færeyíngasögu, ok kom því máli svâ, at Hafgrímr gaf fè til liðs sèr bæði Þrándi í Götu ok Svíneyjar Bjarna. Þeir bræðr voro allar stundir vel sáttir ok samþykkir sín í milli ok bjöggu báðir samt í Skúfey, sem áðr er sagt; annat bú áttu þeir í Dímun enni meiri, en höfðo fènat sinn, naut ok sauði, í hinni minni Dímun, þvíat sú ey var ekki bygð. Þat var einn tíma, þá er þeir Brestir ok Beinir voro at búi síno í Dímun, at þeir bjöggust heim, ok ætlaðu sem þeir gerðo at fara í hina litlu Dímun at sækja sèr slátrfè. Sveinarnir Sigmundr ok Þórir beiddu at fara með þeim, ok þat veittu þeir þeim; Sigmundr var þá 9 vetra, bæði mikill ok mannvænligr at jöfnum aldri; Þórir var þá 11 vetra. Þeir bræðr höfðo vopn sín öll með sèr, sem þeir voro vanir,

ok er ekki getit um ferð þeirra furr enn þeir fóro aptr ok voro mjök komnir at hinni meiri eyunni; þá sá þeir fara ímóti sèr 3 skip, ok voro 12 menn á hverju skipinu, allir alvâpnaðir, þeir kendu formenn skipanna, var þar Hafgrímr or Suðrey ok Þrándr or Götu ok Svíneyjar Bjarni; þeir komust í milli þeirra Brestis ok eyjarinnar, svâ at þeir bræðr náðu eigi lendíngu sinni, ok hleyptu þeir skipinu einshversstaðar upp á fjörugrjótit, var þar hamarklettr nökkurr upp frá þeim, komust þeir þar á með vopnum sínum, ok settu sveinana niðr á klettinn hjá sèr, var hamarrinn víðr ofan ok vígi gott. Nú koma þeir Hafgrímr at landi ok brýna upp skipunum, hlaupa síðan upp at klettinum, ok veita þeir Hafgrímr ok Svíneyjar Bjarni þeim bræðrum þegar atsókn, en þeir verjast drengiliga. Brestir varði þar klettinn, sem betra var til atsóknar ok vanst eigi skjótt með þeim. Þrándr reikaði eptir fjörunni með sína menn, ok var eigi í atsókninni greiðliga; þá mælti Hafgrímr: þat átti ek skilit við þik, Þrándr! at þú veittir mèr lið, ok til þess gaf ek þèr fè mitt. Þrándr svarar: þú ert mannskræfa at meiri, at þú getir eigi sótt tvâ eina menn með tvennar tylftir manna, ok er þat háttr þinn at hafa jafnan aðra [1]) fyrir þèr, en þú þorir lítt sjálfr nærr at gánga ef nökkur mannraun er, væri þat nú þitt, ef nökkur dáð væri í þèr,

[1]) at skotspæni, *bæta við B, C.*

at gánga furstr upp á klettinn at Bresti en aðrir fylgði þèr, ella sè ek at þú ert engu nýtr; eggjar Þrándr hann sem mest. Hafgrímr reiddist við orð hans, ljóp hann þá upp í klettinn at Bresti, ok lagði spjóti ígegnum. Brestir kennir at þat er banasár, ok vill sjálfr hefna sín; gekk hann þá á lagit, þar til er hann náði sverðinu til hans, ok hjó á öxlina vinstri, svâ at hann klauf frá niðr alla síðuna, fèll Hafgrímr dauðr ofan fyrir klettinn ok Brestir á hann ofan; þeir sækja nú Beini, en hann verst vel, lýkr svâ at hann fellr ok lætr líf sitt; svâ segja menn at Brestir yrði 4ra manna bani áðr hann fèll, en Beinir 2ja. Þessu nærst mælti Þrándr at drepa skyldi sveinana Sigmund ok Þóri. Bjarni svarar: eigi skal þá drepa. Því er at skipta, segir Þrándr, ef þeir ero látnir lifa, at þeir verða þínir banar, Bjarni! ok svâ flestra þeirra manna, sem hèr ero viðstaddir. Eigi at heldr skal þá drepa, segir Bjarne. Þrándr mælti: þetta var mèr ok engi alvara, vildi ek þetta gera til raunar við yðr, hversu huggóðr þèr værit við þá, er hitt heldr minn alhugi, at ek skal bæta sveinum þessum þat er ek hefir verit í ferð þessi, skal ek fóstra þá ok fæða upp, þartil er þeir taka þroska, þvíat þeir ero frændr mínir. Sveinarnir sátu á hellunum ok sá á þessi tíðindi. En er þeir bræðr voro fallnir, þá tok Þórir at gráta. Sigmundr mælti: grátum eigi, frændi! festum heldr þenna dag í minni. Eptir þat fóro menn i brotto.

Hafði Þrándr sveinana með sèr heim í Götu, en hann tók undir sik alt ríki ok eignir, er þeir Brestir ok Beinir höfðu átt, svâ ok ei síðr tók hann undir sik þann luta eyjanna til forráða, er Haraldr konúngr Gunnhildarson hafði skipat Hafgrími, ok þar með fóstraði Þrándr son Hafgríms, er hèt Avzur, hann var þá 10 vetra. Rèð Þrándr þá einn öllum Færeyjum, ok treystist engi maðr honum ímóti at mæla.

181. Þetta sama sumar er þeir bræðr fèllu, hafði komit skip af Noregi til Færeyja í Þórshöfn, ok rèð fyrir skipinu víkverskr maðr, er hèt Hrafn ok var kallaðr hólmgarðsfari, þvíat hann hafði siglt austr í Garðaríki. Hrafn var auðigr maðr ok átti garð í Túnsbergi. En er kaupmenn voro mjök búnir til brautsiglíngar, þá kom Þrándr or Götu einn morgin á skútu. Þrándr leiddi stýrimanninn á eintal ok sagðist hafa at selja honum þrælaefni tvav. Hrafn sagðist eigi kaupa mundo furr enn hann sæi. Þrándr leiddi þá fram sveina tvâ kollótta í hvítum kuflum, þeir voro fríðir sýnum ok mjök harmþrútnir í andliti. Hrafn mælti þá: er eigi þat, Þrándr! at þessir sveinar sè synir þeirra Brestis ok Beinis, er þèr dráput fyrir skömmu. Ek hugg þat víst, segir Þrándr, at svâ sè. Eigi koma þeir svâ í mitt vald, segir Hrafn, at ek gefi fè fyrir þá. Þrándr svarar: við skulum þá sveigja til svâ, ok ero hèr 5 merkr silfrs, er

ek vil gefa þèr til at þu flytir þá í brott með þèr ok sjáir svâ fyrir, at víst sè at þeir komi aldri síðan til Færeyja; helti Þrándr þá silfrinu í knè stýrimanninum, telr ok tínir fyrir honum. Hrafni sýndist fagrt fèið ok mælti: við mun ek taka fènu ok flytja brottu sveinana, ef þú vill, ok hvârki senda þá aptr nè flytja sjálfr, en ef ek sel þá eða með nökkuru móti verði mitt vald eigi yfir þeim, þá má ek eigi ábyrgjast, þó at þeir komi aptr. Verðr þetta þeirra samkeypi,[1] at Þrándr ferr brott en Hrafn siglir með sveinana til Noregs, ero þeir með honum um vetrinn í Túnsbergi vel haldnir. Um vârit bjóst Hrafn at sigla í Austrveg; hann spurði sveinana, hversu þeir þættust komnir? Sigmundr svarar: vel hjá því sem þá er við vorum á valdi Þrándar. Hvârt vitit þit sammæli [1]) okkart Þrándar, segir Hrafn. Vitum við þat, segir Sigmundr. Hrafn mælti: þat ætla ek gott ráð, at þit farit frjálsir fyrir mèr, hvert er þit vilit, skulut þit ok hafa fè þat til atvinnu ykkr, er Þrándr fèkk mèr, erot þit þó helzti fáráðir í úkunnu landi, tók ek ok mest fyrir þá skyld við ykkr, at ek þóttumst sjá, hversu erfiðliga Þrándr mundi við ykkr búa, ef þit værit þar á hans valdi. Sigmundr þakkaði honum sinn góðgerníng, ok segir honum drengiliga fara, sem þá var komit þeirra máli. Fór Hrafn um sumarit austr í Garða, en sveinar dvöldust þar

[1]) samkeypi, *B*, *C*.

í Víkinni 2 vetr, síðan Hrafn lèt þá lausa, var þá gengit í kost fè þat, er hann hafði fengit þeim. Þá var Sigmundr 12 vetra, en Þórir 14 vetra.

182. Á því sumri er þeir Brestir voro drepnir í Færeyjum ok sveinarnir komo til Noregs, var feldr frá landi Haraldr konúngr gráfeldr, en Hákon jarl tók mestan lut ríkis í Noregi í lèn af Haraldi Gormssyni Danakonúngi, ok sat jarl löngum norðr í Þrándheimi. En með því at þeir frændr Sigmundr ok Þórir voro nú fèlausir ok atvinnulausir þar í Víkinni, þá fýsast þeir at fara norðr á fund jarls, ætlaðu þeir sèr þat helzt til nökkurrar hjálpar, fyrir þá skyld er feðr þeirra höfðo honum þjónat ok verit hans kærir vinir. Rèðust þeir þá til ferðar ok gengu or Víkinni, furst til Upplanda ok svâ austan um Heiðmerk, komo þeir norðr til Dofrafjalls við vetr sjálfan, rèðu þó á fjallit 2 samt, gerði at þeim veðr hörð, ok fóro þeir villir, er þeim voro vegir úkunnir, lagði þá á snjáfa ok úfærðir, lágu þeir úti matlausir svâ at mörgum dægrum skipti, kom þá svâ um síðir, at Þórir lagðist fyrir ok mátti eigi gánga, bað hann þá at Sigmundr skyldi hjálpa sèr ok leita af fjallinu; Sigmundr svarar: þat skal verða aldri at við skilim svâ, skulu við annathvârt báðir til bygða komast eða deyja ella. Nú var sá þroskamunr þeirra, þó at Sigmundr væri ýngri, at hann lagði Þóri á bak sèr ok bar hann lengi,

tók hann þá ok mjök at dasast, finna þeir þá einn dag at nökkut gerði forbrekkt undir fæti, varð þeim þá þegar hóti lèttara at gánga, komo þeir er kvelda tók í einn lítinn dal, ok því næst kendu þeir reykjar daun ok fundu fyrir sèr lítinn bæ, gengu þar inn ok hittu stofu, þar sátu fyrir konur tvær, var önnur við aldr, en önnur barnúng, báðar voro þær fríðar sýnum, ok fögnuðu þeim vel, drógu af þeim klæðin, þau er vât voro, en fengu þeim þurr klæði, síðan settu þær borð ok báru vist fyrir þá; eptir þat var þeim fylgt til sængr ok búit um þá vel; sagði húsfreyja at hún vildi eigi at þeir vyrði þegar fyrir augum bónda, er hann kvæmi heim, segir hún hann vera nökkut stygglyndan. Þeir Sigmundr vöknuðu við þat, at maðr mikill kom inn í hreinbjálba ok hafði dýr á baki, hann var ýgldr mjök ok spurði, hvat komit væri. Húsfreyja segir, at þar voro komnir sveinar 2, er lengi höfðo úti legit á fjöllum, voro þeir svâ máttdregnir af matleysi ok kulda, at þeir voro mjök at þrotum komnir, ok nenta ek eigi, at svâ mannvænir sveinar dæi hèr úti undir görðum vorum, er þá hafði hèr at borit. Bóndi mælti: löngu hefi ek þat sagt þèr, at þú mátt [1]) oss svâ skjótast uppi hafa, at þú takist mennina [2]) á hendr; lætr bóndi þá þó vera kyrt, sofa af nóttina. Um morgininn snemma kemr bóndi til sveinanna ok mælti: þat þikki mèr sem kon-

[1]) mundir, *B.* [2]) enn meira, *B.*

urnar vili, at þit dvelizt hèr í dag ok hvílit ykkr. Þeir sögðust þat gjarna vilja. Bóndi nefndist Úlfr, en kona hans Ragnhildr, en dóttir þeirra Þuríðr, hún var bæði væn kona ok skörulig [1]; bóndi var í brottu um daginn, ok kom heim at kveldi, var hann þá hinn kátazti við þá Sigmund ok spurði þá at vandliga, hverir þeir voro eðr hvaðan þeir komo at, eðr hvert þeir ætlaðu. Sigmundr segir honum greiniliga slíkt er hann spurði. Ok annann morgin kom Úlfr til þeirra ok mælti: svâ er háttat at þit sögðut mèr um ferðir ykkrar, ok hafit þit farit þvers á brottu frá því sem þit vildit ok almanna vegr er, er hèðan allavega lángt til bygða, því þikkir mèr þat ráð með áeggjan húsfreyju, at þit dvelizt hèr í vetr, ef ykkr þikkir eigi annat vænna, en verit húsfreyju auðveldir ok oflèttir, ef hún þarf ykkr til nökkurs at kveðja á bæ heima, þvíat ek man brotto vera dag hvern at leita oss at matföngum. Þeir þökkuðu honum þetta boð ok lètust þat gjarna vilja. Voro þeir þar um vetrinn vel haldnir. Brátt var auðsærr ástarþokki með þeim Sigmundi ok bónda dóttur, talaðu þau löngum, en faðir hennar ok móðir meinaðu þeim þat ekki. Um vârit at sumarmálum mælti Úlfr til þeirra: nú hafit þit hèr verit í vetur, ok líkar oss öllum vel til ykkar, nú skal ykkr kostr af minni hendi at vera hèr lengr, ok

[1]) kurteislig, *B.*

vita at þit þroskaðizt nökkut, ef ykkr þikkir eigi annat líkara fyrir liggja, en þat vil ek tilskilja, at þit sèð úforvitnir, ok eigi víðförlir, þá er ek er eigi heima; er þó einna mestr varnaðr á, at þit gángit aldregi á þann skóg, er norðr er frá garði. Þeir þekktust þetta boð gjarnsamliga; var bóndi laungum heima um sumarit ok kendi þeim skylmíngar ok skotfimi, sund ok aðrar íþróttir, kannaðu þeir þat brátt af, at bóndi mundi vera hinn mesti íþróttamaðr um alla luti, hann var ok bæði mikill maðr ok styrkr. En er þeir frændr höfðo þar verit 3 vetr, þá var þat einn dag um sumarit, er Úlfr var eigi heima, at Sigmundr mælti til Þóris: þat er mèr mikil forvitni at vita, hvat þess mun vera á skógi þessum norðr fra garði, at vèr megim þar eigi koma. Þórir kvaðst þat ekki vilja forvitnast, er fóstri hans hafði svâ mjök bannat. En þó rèð Sigmundr, ok gengu þeir á skóginn. Sigmundr hafði í hendi eina viðaröxi litla ok lágskepta, þeir komo fram í eitt rjóðr fagrt, ok heyrðo brak mikit í skóginn, því nærst kom þar fram viðbjörn [1]) mikill ok mjök grimmligr, ok fór með miklum stormi ok ákefð. Sveinarnir ljópu þegar á stiginn, er heim lá til bæjarins, en björnin eptir þeim; stigrinn var heldr þröngr; en er björnin var kominn á stiginn, þá snèrist Sigmundr ímót hart ok tídt, ok hjó tveim höndum milli hlusta dýrinu, svâ

[1]) híðbjörn, S.

at öxin stóð á hamri, en dýrit fèll daudt niðr; síðan reistu þeir upp björninn ok runnu heim, kom þá Úlfr ímóti þeim úfrýnligr ok spur, hvar þeir hefði verit. Sigmundr svarar: nú hefir eigi vel tiltekizt, fóstri minn! er við höfum brugðit af boði þínu, ok hefir björn einn mikill elt okkr í dag. Úlfr svarar: mèr var slíks vân, ok því var ek nú á ferð kominn, at ek vildi leita ykkar, en þó þikkir mèr nú vânum betr, ef hann hefir eigi meidt ykkr, mundi ek þat ok vilja, at hann meiddi [1]) ykkr eigi opt, en þó er þat dýr svâ, at ek hefi nökkut helzt æðrazt við at eiga, en skal nú freista at finna hann. Rann hann þá stiginn í skóginn, ok sá brátt björninn ok ætlaði lifanda, hann hafði mikit spjót í hendi. Sveinarnir runnu eptir honum, en þegar er bóndi sá björninn, gæddi hann ferðina, ok er hann kom at, lagði hann tveim höndum til bjarnarins, ok fèll hann þegar sem vân var, sá Úlfr þá, at björninn var dauðr áðr ok mælti: hæðit þit nú at mèr, eðr hvârr ykkarr hefir drepit dýrit? Þórir svarar: ekki er mèr at eigna af þessu verki, ok hefir Sigmundr drepit björninn með viðaröxi þinni. Bóndi mælti: þetta er mikit þrekvirki, ok munu hèr mörg eptir fara þín afreksverk, Sigmundr! [Hafði Úlfr þaðan í frá enn meiri virðíng á Sigmundi enn áðr. Voro þeir þar nú als með honum 6 vetr [2]), var Sig-

[1]) elti, *B.* [2]) þeir höfðu þá verit 3 vetr með Úlfi, er þetta gerðist, enn alls voro þeir þar 7 vetr. *S.*

mundr þá 18 vetra, enn Þórir tvítögr. Sigmundr var þó vorðinn hinn mesti frægðar maðr á vöxt ok afl ok á alla atgervi ok íþróttir þeirra manna, er þá voro í Noregi.

183. Sigmundr sagði þá Úlfi fóstra sínum, at hann vildi leita á braut þaðan. Úlfr segir, at þat skyldi þá vera á þeirra valdi, ok dugir þat at [1]), segir hann, at þit hafit heldr þroskazt í koti mínu, lèt hann þá gera þeim klæði ok búa þá vel í braut. Fylgði Úlfr þeim norðr yfir Dofra fjall, svâ at þeir sá norðr af til Orkadals. Nú hefi ek fylgt ykkr af garði, sem ek mundi sonum mínum, mun ek hèðan af hverfa aptr, skulum vèr, áðr vèr skiljumst setjast niðr, er nú svâ komit, at mèr þikkir næsta svipr [2]) at brautför ykkarri, en þó þótti konunum meiri; vil ek nú vita, hverja ek hefi í fóstri haft, svâ at þit segit mèr ætt ykkra ok eðli, ok hvat yfir ykkr hefir liðit, áðr þit komut til mín. Þeir sögðu honum glöggliga ætt sína ok uppruna, ok hversu þeir voro flæmdir frá sinni eign ok ættlandi; en nú viljum við, fóstri minn! segir Sigmundr, at þú segir okkr frá æfi þinni, ok hvat manna þú ert. Hann svarar: þat er ekki mikillar frásagnar verdt, er þat furst þar af at segja, at ek heiti rèttu nafni Þorkell, faðir minn hèt Steingrímr, hann var maðr auðigr ok bjó á Heiðmerk á Upplöndum, vóx ek upp með föður mínum, ok var ek kall-

1) helzt, *B.* 2) *þannig A, B, C.*

aðr í æsku mikill ok styrkr, vandi faðir minn mik snemma við fimleika ok skotfimi, ok gerðumst ek brátt eigi allóbeinskeytlr; þat lagða ek fur mik, þegar ek hafða aldr til ok þroska, at hvern vetr, þegar er ísa lagði á vötn ok þurra frost gerði, at ek lögðumst út á merkr með leiksveina mína at veiða dýr, var ek því kallaðr Þorkell þurra frost. Þar á Heiðmerk skamt fra bygð föður míns rèð fyrir ríkr maðr, er hèt Þórálfr, hann var sýslumaðr Upplendínga konúnga. Þórálfr var kvângaðr, ok hèt Iðunn kona hans, dóttir þeirra hèt Ragnhildr, hún var kvenna fríðust sýnum. Þeirrar kono bað ek mèr til handa, en Þórálfr vildi gipta hana tignara manni; litlu síðarr, er Þórálfr var eigi heima, fór ek til við annann mann, ok tók ek Ragnhildi á brott um nótt ok flutti ek hana heim til föður míns, en með því at hann vildi mik eigi þar hafa, nema ek flytti hana aptr, þá fèkk ek mèr til fylgðar 11 [1]) menn mína jafnaldra, ok lögðumst vèr út á skóga; en þegar Þórálfr kom heim ok varð þessa varr, þá fór hann furst til föður míns með 100 manna, ok rannsakaði þar hvert hús; síðan fóro þeir á skóginn ok skiptu sínu liði í sveitir, at leita vâr ok fann Þórálfr oss við 50 manna, sóttu þeir oss með bardaga, en vèr vörðumst drengiliga; lauk svâ um síðir, at fèllu 12 [2]) menn af Þórálfi, en 7 af mèr, ok flýðu vèr þá 5 sárir á skóginn. Þórálfr var sárr til ólífis, ok var hann fluttr heim

[1]) 9, S. [2]) 9, S.

af sínum mönnum ok svâ Ragnhildr dóttir hans; Þórálfr dó af sárum þegar hann kom í bygðina, en vèr fèlagar vorum græddir með föður mínum á laun. Upplendínga konúngar áttu örvarþíng eptir Þórálf sýslumann sinn, ok gerðo mik útlaga, en aðrir 4 fèlagar mínir komo fèbótum fur sik, mátti faðir minn þá eigi halda mik heima þar, ok sendi hann mik til eins hellis, var ek þar um hríð einnsaman, ok þótti mèr heldr daufligt; síðan fór ek eina nótt til bæjar, þess er Þórálfr hafði átt, ok tók ek Ragnhildi íbrott í annat sinn, fór ek þá víða um skóga at leita mèr hælis, kom ek hèr niðr um síðir, sem ek hefir síðan bygt 18 vetr, þat er aldr Þuríðar dóttur minnar. Sigmundr mælti: mikil er saga þín, sem mik varði, en nú vil ek þèr kunnigt gera, at ek hefir þèr verr launat fóstr ok velgernínga enn vera ætti; dóttir þín sagði mèr, áðr við skildum, at hún er með barni ok kennir mèr, ok því fór ek nú einna mest á brotto, at ek vildi eigi, at okkr vyrði þat at sundrþykki, ok þess vil ek beiða þik, fóstri minn! at þú giptir hana eigi avðrum manni enn mèr, þvíat ek skal hana eiga ella enga kono. Þorkell svarar: fyrir laungo vissi ek, at ástarþokki var með ykkr, ok vildi ek þat ekki meina, mun ok mín dóttir eigi betra mann fá; en þess vil ek beiða þik, Sigmundr! ef þú færr framkvæmd hèr í Noregi með höfðíngjum, at þú komir mèr í sætt við sveitúnga mína, þvíat mèr tekr mjök at leiðast í úbygð-

um þessum. Sigmundr játaði at koma því á leið, ef hann mælti ráða. Eptir þetta skildu þeir, ok hvarf Þorkell aptr. En þeir Sigmundr fóro þar til, er þeir fundo Hákon jarl norðr í Þrándheimi, þeir kvöddu jarl, hann tók því vel, ok spurði hverir þeir væri. Sigmundr segir nöfn þeirra, ok em ek, segir hann, son Brestis, en hann son Beinis, er voro um hríð hirðmenn yðrir ok sýslumenn út í Færeyjum ok þar drepnir fyrir 9 vetrum; nú erum við frændr ok fóstbræðr því hèr komnir um síðir á yðvarn fund, herra! at vèr vildim gerast yðrir menn ok væntum af yðr góðrar sæmdar ok framkvæmdar sakir feðra okkarra. Hákon jarl svarar: eigi veit ek, hvat satt er í því, er þú segir, þvíat ek hefi spurt, at þeir bræðr áttu sono únga, gánga þar ýmissar sagnir frá, hvârt þeir hafa drepnir verit með feðrum sinum eðr hefir annat verit sèð fyrir þeim þar í eyjunum; sumir menn segja, at þeir hafi verit fluttir híngat til Noregs, ok hafi verit í Vík austr um hríð, en síðan spurist [1]) ekki til þeirra. Nú spari ek ekki mat við ykkr, en sjálfr munt þú þik verða í ætt at færa með nökkurum hreystiverkum, áðr enn ek trúi, at þú sèr son Brestis vinar míns, en ekki ertu honum úlíkr at vexti ok yfirbragði. Vísaði jarl þeim til sætis hjá gestum sínum; voro þeir þar um vetrinn; ok svâ sem áleið, veitti jarl þeim Sigmundi sæmiliga, með atfylgju sona sinna

[1]) spyrst, B, C.

Sveins ok Eiríks jarls; fóro þeir Sigmundr í hernat um sumarit, komo at hausti aptr við mikinn afla ok herfáng, voro þeir frændr með jarlinum vetr annann vel haldnir, komst Sigmundr þá í hina mestu kærleika við jarl, ok gerðist hirðmaðr hans. En eptir um sumarit gerði jarl Þorkel þurrafrost sýknan á alsherjar þíngi at bæn Sigmundar, ok lèt flytja hann af fjallinu. Var þá Þorkell með jarli um vetrinn eptir, kona hans ok dóttir ok barn þeirra Sigmundar ok Þuríðar, er hún hafði fædt um vetrinn, þat var mær ok hèt Þóra. Síðan fèkk Hákon jarl Þorkeli þurrafrost sýslu í Orkadal. Fór nu svâ fram fjóra vetr, at Sigmundr var með jarlinum um vetrum með hinni mestu virðíng, en fór í hernat um sumrum, ok aflaði sèr fjár ok ágætis í frækn-ligum framgöngum ok mörgum frægðarverkum, sem segir í sögu hans. Hann var hinn kænasti at allri herstjórn, hinn fræknazti ok fimazti í orostum ok öllum sóknum, hann lèk þat optliga, þá er hann barðist, er fáir gátu við sèð, þó at fræknir víkíngar væri til móts, at hann kastaði í lopt upp bæði senn sverði síno ok skildinum, tók svâ hinni hægri hendi skjöldinn en hinni vinstri sverðit, ok vâ með, þvíat honum voro báðar hendr jafnhægar til vígfimi, ok at allri atgervi hefir Sigmundr Brestisson verit umfram flesta menn í Noregi í þann tíma, svâ at honum er jafnat um afl ok um íþróttir við Ólaf konúng.

184. Þá er Sigmundr Brestisson hafði verit

4 vetr með Hákoni jarli, sagði hann jarli at hann vildi leita út til Færeyja, at hefna föður síns, ok bað jarl efla sik til þeirrar ferðar bæði at tilbúnaði ok ráðagerðum, hversu hann skyldi til þeirrar ferðar ætla. Jarl svarar: ek skal víst þar um hugsa með þèr, ok er sú ferð eigi svâ laung sem torveldlig, þvíat þángat má eigi halda lángskipum sakir storma ok strauma, þeirra er þar kunnu verða optliga svâ stríðir, at varla megu kaupskip haldast, þikkir mèr þat líkast, at ek láti gera þèr til ferðarinnar tvâ knöru [1]), en þú skalt sjálfr velja menn til, þá er þú færr röskvazta [2]). Sigmundr bað hann þökk fur hafa sínar tillögur ok góð heit. Þetta var at áliðnum vetri. Lèt jarl þegar taka til skipagerðar. Sigmundr hèlt á búnaði sínum, þá er á leið vârit, fèkk hann sèr menn ok allan reiða öruggan, ætlaði hann til fimmtígi hraustra drengja á hvârn knörinn. Gekk jarl til at seá, þá er flotat var skipunum ok ferðin albúin; þá mælti jarl: nú sýnist mér, Sigmundr! sem þín ferð muni búin sem bezt ero faung á, en svâ er þar við rammann reip at draga, er Þrándr í Götu á í hlut, at varla mun enn þessu einu við hlíta; nú vil ek þat vita, Sigmundr! hvern átrúnat þú hefir. Sigmundr svarar heldr seint: þat er eigi merkiligt, herra! segir hann, þvíat ek hefir engan

[1]) knörru, *B*, *C*. [2]) af sveitúngum þínum, þá er þú hefir áðr reynda at snarpleik í orrostum ok sjákæni, *bæta við B*, *C*.

átrúnat annann enn ek treystumst hamíngju minni ok sigrsæli, ok hefir mèr þat vel dugat, meðan ek hefi verit í hernaði. Jarl mælti: ekki má svâ vera, ok verðr þú þángat trausts at leita, sem ek hefir allan trúnat á, er Þorgerðr er hölgabrúðr, skulum við fara ok finna hana. Gengu þeir þá til hofsins, ok fèll jarl allr til jarðar fyrir líkneski hennar, þar lá hann lengi; líkneskit var prýdt mjök ok hafði digran gullhríng á armi, en er jarl stóð upp, þá tók hann til hríngsins ok vildi ná af henni; en Sigmundi sýndist sem hún beygði hreifann [1]). Jarl mælti: ekki er henni blídt til þín, Sigmundr! ok veit ek eigi, hvârt ek get þèr í sætt komit við hana, en þat megum við þar at marki hafa, hvârt hún vill miðla okkr hrínginn, er hún hefir á hendi; tók jarl þá silfr mikit ok lagði á fótstallinn fyrir hana, lagðist jarl þá niðr í annat sinn á gólfit fyrir hana, ok fann Sigmundr, at hann táraðist mjök, en er hann stóð upp, tók hann til hríngsins, ok lèt hún þá lausan. Jarl fèkk Sigmundi hrínginn ok mælti: þenna hríng gef ek þèr til heilla, ok skaltu honum aldri lóga. Sigmundr hèt því. Fór Sigmundr þá til skipa sinna ok manna, ok lètu þeir í haf, stýrði Sigmundr knerrinum, en öðrum Þórir frændi hans. Spurt höfðo þeir, áðr þeir sigldu af Noregi, öll tíþindi af Færeyjum, at Özur Hafgrímsson, er Þrándr hafði fóstrat, var vorðinn þroskuligr maðr, ok hafði tekit við föð-

[1]) hnefann, *B*, *C*, *S*.

urleiðr sinni Suðrey, ok til forráðs hálfar Færeyjar til móts við Þránd, þarmeð hafði hann tekit undir sik at ráði Þrándar allar þær eignir, er átt höfðo Brestir ok Beinir, sagði Þrándr, at þat skyldi vera favðurbætr hans; átti Özurr bú í Suðrey ok Dímun ok hit 3ja í Skúfey, ok sat hann þar lengstum, ok lèt þar gera virki um bæinn bæði hátt ok styrkt, þvíat Færeyíngar höfðo spurt, at Sigmundr Brestisson var vorðinn frægr af sínum stórvirkjum.

185. Nú er at segja frá þeim Sigmundi, þeim gaf vel byri, þartil er þeir áttu eigi lángt til Færeyja; sögðu þeir menn, er þar var kunnigt, at þeir voro nærst Austrey. Sigmundr sagði, at hann vildi þat ok helzt at fá fyrst vald á Þrándi; litlu síðarr kom ímót þeim veðr mikit, ok bægði þeim frá eyjunum bæði straumr ok stormr, skildi þá með skipunum, er áðr höfðu haft samflot, en með því at liðskostr var nógr, ok menn voro fræknir á skipi Sigmundar, þá gátu þeir náð Svíney, komo þar í nætr eldíng, gengo þegar upp til bæjar 40 manna, en 10 gættu skips, brutu þeir upp herbergi þat, er Bjarni svaf í, tóko hann höndum ok leiddu hann út. Bjarni spurði, hverr fyrir liði því rèði, er svâ fór geyst. Sigmundr sagði til sín. Bjarni mælti: veit ek at þú munt þikkjast eiga sakar við mik, er ek var á þeim fundi, er faðir þinn var af lífi tekinn ok föþurbróðir, en þó muntu þeim þá grimmr, er þèr sýndu þá ekki nema

ílt, ok lögðu þat til ráðs, at ykkr Þóri skyldi drepa báða, er þú ferr svâ harðliga at mèr, eðr mantu nökkut til, hver orð ek hafða þar um? Sigmundr svarar: þat man ek görla ok þess skaltu nú *njóta*, svâ at þú skalt hafa lífs grið ok lima, en ek vil einn ráða öllu öðru. Bjarni játaði því. Þá skaltu nú þegar fara með oss, segir Sigmundr, ok segja oss leið til Austreyjar. Bjarni svarar: þángat má með engu móti komast at þessi veðrstöðu, sem nú er. Þá seg þú oss leið til Skúfeyjar, ef Özur er þar. Þat skal gera sem þú *vill*, segir *Bjarni*, ok ætla ek *ekki* þat til getu [1]), at hann sè þar. Bjarni fèkk þeim menn alla, þá er hann fèkk til, ok fóru öndverða nótt ok komu í nætrelding til Skúfeyjar. Skúfey er svâ háttut, at þar er einstígi upp at gánga, ok komr aldri svâ margr maðr til, at hún megi vunnin verða, ef þar ero 20 karlar til varnar í einstíginu. Þeir Sigmundr gengu þegar upp á eyna með sína sveit, þvíat eingir voro menn til varnar í einstíginu, en er þeir komo heim til bæjar, þá var Özur kominn upp í virkit með 30 manna. Özur spurði, hverir þessir menn væri, er þar voro komnir. Sigmundr nefndi sik ok föður sinn. Þá mælti Özurr: þú munt þikkjast eiga híngat eyrendi, vil ek bjóða þèr sættir af minni hendi, at hinir beztu menn hèr í eyjunum dæmi um mál okkur öll. Ekki man af sættum verða, segir Sigmundr, nema þú selir mèr sjálfdæmi. Özur

[1]) *þannig A, B, C.*

neitaði því skjótt. Sigmundr bað sína menn sækja at virkinu, en hann gekk einnsaman með virkinu á bak húsunum, ok geymðu þeir ekki um þát, er í virkinu voro, hann kom þar at í einum stað [er lítt þat hafði hrunit [1]) virkisveggrinn, ok var þar nökkuru auðveldra at at leita enn annarstaðar. Sigmundr hafði í hendi öxi silfrrekna ok snaghyrnda, hjálm á höfði en var gurðr sverði, gekk Sigmundr frá virkinu, rann síðan at skeið ok svâ lángt upp í vegginn, at hann gat krækt á upp öxinni, ok las sik skjótt upp eptir skaptinu, ok því nærst var hann uppi á virkinu; þat getr at líta einn maðr Özurar, snèri sá þegar ímóti honum, ok hjó til hans með sverði; Sigmundr laust af sèr höggit, en lagði með öxar hyrnunni framan í fáng honum, svâ at öxin stóð á kafi, ok fèll sá dauðr á bak aptr; þetta sá Özur ok ljóp í mót Sigmundi ok hjó til hans, hann laust af sèr höggit, en hjó ímóti til Özurar, svâ at af tók höndina hægri, ok fèll niðr sverðit, ok þegar hjó Sigmundr annat högg framan í fángit á hol, ok fèll Özur dauðr til jarðar, drifu þá menn at Sigmundi, en hann stavkk út af virkinu öfugr, ok kom standandi niðr. Síðan gerði Sigmundr þeim mönnum kosti, er í virkinu voro, at þeir skyldi gefast upp ok selja honum sjálfdæmi ella man hann brenna ok brjóta virkit. En þeir gengu á hans vald.

[1]) er hruninn var, *B.* sem lítt hafði hrunit, *C.*

186. Þat er at segja frá Þóri Beinissyni, at hann hafði borit til Suðreyjar, ok kom þá til móts við Sigmund, er Özur var fallinn. Eptir þat fóro menn milli Sigmundar ok Þrándar, varð þá griðum á komit ok stefndr með þeim sættarfundr í Straumsey, kom þar Þrándr ok var þá hinn kátazti, var þar fjölmenni mikit; en er um sættir var leitat með þeim Sigmundi, þá mælti Þrándr: þat var eigi viðrkvæmiligt, er ek var á þeim fundi, er faðir þinn var drepinn, Sigmundr frændi! vil ek þar fyrir unna þèr þeirrar sættar, sem þín sæmð má mest aukast við, ok þú megir bezt við una, at þú gerir einn úskorat alt um mál okkur, utan þat, at ek hafi landsvist hèr í eyjunum ok manna forráð slíkt er ek á. Sigmundr svarar: tveir ero kostir til af minni hendi, at við Þrándr skulum fara báðir norðr til Noregs á fund Hákonar jarls, ok skal hann gera alla sætt okkar ímilli, sem hann vill, en at avðrum kosti skulu við vera úsáttir, ok ætla ek þat makligazt at skeiki at sköpuðu hvârr okkarr berr hæra lut, ef við eigumst ílt við. Þrándr var til þess alltregr, at fara á fund Hákonar jarls, en með því at Sigmundr var ekki leiðitamr þar um, ok Þrándr sá at annarr var verri, þá játaði hann því, sem Sigmundr bauð, at þeir skyldo fara báðir til Noregs at sumri. Var þá kyrt í Færeyjum um vetrinn. Sat Sigmundr at búi síno í Skúfey við rausn mikla ok fjölmenni. En um sumarit eptir bjó hann skip

sitt; Þrándr bjó þá ok burðíng mikinn ok góðan er hann átti, vissu þá hvârir til annarra um búnaðinn. Sigmundr sigldi þegar hann var búinn, gaf honum vel, kom hann á fund jarls, ok segir honum um sætt þeirra Þrándar. Jarl svarar: eigi hafit þit Þrándr jafnslægir vorðit í þessu, þikkir mèr þat úvænna, at hann komi skjótt á minn fund, er hann fór eigi með þèr. En er á leið sumarit, komo menn utan af Færeyjum, ok kunnu þat til Þrándar at segja, at hann hafi siglt á haf út ok vorðit aptrreka, ok lest skip hans, svâ at eigi var sæfært. Bað Sigmundr þá jarl lúka upp gjörðum með þeim Þrándi, þó at hann væri eigi kominn. Jarl segir at svâ skyldi vera; gjöri ek, segir hann, tvenn manngjöld fyrir þá bræðr af Þrándi, hin þriðju fyrir fjörráð við ykkr Þóri, er Þrándr vildi láta drepa ykkr, hin 4ðu manngjöld skulo koma fyrir þat, er Þrándr seldi ykkr frændr mansali; þú skalt ok taka undir þik til forráða helmíng eyjanna, þann er faðir þinn hafði í lèn af mèr, en annarr helmíngr eyjanna skal falla í minn garð fyrir þat, er þeir Hafgrímr ok Þrándr drápu hirðmenn mína Bresti ok Beini. Hafgrímr skal úgildr fyrir víg Brestis ok atför við saklausa menn; Özur skal eigi fè bæta fyrir þann újafnat, er hann settist í eign þína ok var þar drepinn, en þetta fè skal Þrándr lúka þèr á einu sumri. Nú er þessi gjörð mín, en þú skipt fèbótum með ykkr Þóri, sem þèr sýnist.

Sigmundr þakkaði jarli gerð þessa, ok var með honum um vetrinn; en um vârit fór hann út til Færeyja, ok stefndi Þrándi þíng í Straumsey. En er þeir fundust, kvað Sigmundr hann skjöplazt [1]) hafa í ferðinni til Noregs; sagði hann honum þá upp gjörð jarls, ok bað hann skjótt gera annathvârt at játa þessi gerð eðr neita sættum. Þrándr bað enn at Sigmundr sjálfr skyldi dæma þeirra mál; en er hann sá, at Sigmundr vildi þat eigi, þá kjöri hann heldr at halda gjörð jarls, enn þeir væri úsáttir, en beiddi sèr þó fresta meiri um útgjöld fjárins, enn jarl hafði ákveðit. Ok við bæn manna lèt Sigmundr þat leiðast [2]), at þetta fè skyldi greiðast á 3 vârum [3]). Skildust þeir þá sáttir at kalla. Özur Hafgrímsson hafði eptir átt úngan son, er Leifr hèt, þeim sveini bauð Þrándr fóstr, vóx Leifr upp í Götu með Þrándi. Um sumarit bjó Sigmundr skip sitt til Noregs, greiddi Þrándr þá einn þriðjúng fjárins ok stánkaði [4]) þó mjök við. Sigmundr heimti saman skatta Hákonar jarls, áðr hann sigldi af Færeyjum, ok færði honum; dvaldist hann með jarli um sumarit, ok þá gekk hann at eiga Þuríði, dóttur Þorkels Þurrafrosts. En um haustit sigldi Sigmundr út til Færeyja, fór þá Þuríðr kona hans út með honum ok dóttir þeirra Þóra. Var Sigmundr þar um vetrinn. Ok um vârit á

[1]) brugðizt, *C.* [2]) þannig *A*, *B*, *C.* lèt Sigmundr þát til, *S.* [3]) árum, *B*, *C*, *S.* [4]) þannig *A*, *B*, *C.*

Straumseyjar þíngi, þá heimti Sigmundr fè sitt at Þrándi þann þriðjúng, er þá átti at lúkast. Þrándr svarar því seinliga, en mælti þó alt mjúkliga til Sigmundar: svâ er háttat, frændi! segir Þrándr, at hèr er sveinn einn at fóstri með mèr, er heitir Leifr; nú vil ek biðja þik, frændi! ok þat mun þèr sýnast sannara ok rèttara, at þú unnir Leifi nökkurra bóta eptir föður sinn Özur Hafgrímsson, er þú drapt; væri þat vel fallit, at ek mætti greiða honum í föðurbætr þat fè, er þú þikkist eiga at mèr. Þat geri ek eigi, segir Sigmundr, ok ekki annat fyrir þín orð, mun þèr ekki stoða nökkurr undandráttr hèrum; skaltu gjalda mèr fèit, annarr mun þèr verri. Þrándr greiddi þá helmíng af þeim þriðjúnginum, ok sagðist þá eigi viðlátinn at gjalda meira at sinni. Sigmundr hafði jafnan í hendi öxina þá ena snaghyrndu, er hann drap Özur með. En er Þrándr lèt tregt gánga at greiða fèit, þá gekk Sigmundr at honum, ok setti öxar hyrnuna fyrir brjóst honum ok mælti: gjör nú annathvârt, Þrándr! at þú greið fèit þegar ístað, slíkt sem þú átt nú at lúka, ella mun ek þrýsta öxinni, svâ at þú skalt kenna útæpiliga. Þrándr svarar: vandræðamaðr ertu, er þú hlífir eigi heldr frændum þínum enn avðrum mönnum; bað Þrándr þa mann sinn einn gánga heim til búðar, ok vita ef nökkurir penníngar væri eptir vorðnir í fèsjóð þeim er þar lá; maðrinn kom

aptr ok rètti sjóðinn at Sigmundi, var þá vegit silfrit, ok var þar í svâ mikit sem Sigmundr átti þá at taka; skilþu við svâ búit; fór Sigmundr þá enn um sumarit austr til Noregs, ok færði Hákoni jarli skatta sína, ok kom aptr til Færeyja um haustið, sat hann þar í búi síno um vetrinn; var Sigmundr allvinsæll þar í eyjunum; hèldu þeir Svíneyjar-Bjarni vel sætt sína, ok gat Bjarni opt samit með þeim Sigmundi ok Þrándi, þá er áðr hèlt við vâða sjálfan. Um vârit er menn komo til Straumseyjar þíngs í Þórshöfn, ok Sigmundr heimti at Þrándi þann þriðjúng fjárins, er þá var úgreiddr, þá beiddi Þrándr enn föðurbóta fyrir Leifs hönd, lögðo þá ok margir menn orð til, at þeir skyldi semja. Þá mælti Sigmundr: heldr geldr Leifr Þrándar en nýtr frá mèr, en fyrir orð góðra manna skal fè þetta standa nú svâ búit, en eigi gef ek þèr upp ok eigi geld ek þat. Var við þat slitit þínginu. Sigmundr bjóst, er á leið sumarit, at sigla til Noregs með skatta Hákonar jarls, varð hann heldr síðbúinn, hèlt hann í haf þegar hann var búinn; Þuríðr kona hans var þá eptir í eyjunum, en Þórir Beinisson var jafnan með Sigmundi, hvârt er hann var í kyrrsetu eðr fór landa ímilli, hèldo þeir allar stundir sín ímilli hit kærazta fóstbræðralag meðfrændsemi. Þeir Sigmundr tóko Þrándheim um haustið, ok voro þeir Þórir með jarli um vetrinn i hinum mestum kærleikum. Þann vetr komo Jómsvíkíngar til

Noregs, ok börðust við þá Hákon jarl ok sonu hans, sem furr er sagt. Þeir frændr Sigmundr ok Þórir voro í bardaga meðjörlum Hákoni ok Eiríki, ok er svâ sagt, at Sigmundr gengi furstr manna upp á skeið Búa digra, þá er hann barðist sem ákafazt, ok Þórir þar næstr með 50 manna; en er þeir Sigmundr ok Búi áttust vâpnaskipti við, þá sá Sigmundr at hann mátti eigi jafnbjóða Búa um afl ok stórhögg, tók hann þá til vígfimi sinnar ok kastaði upp í lopt skildi sínum ok sverði, ok skipti svâ um í höndum sèr, sem hann var opt vanr; við því átti Búi eigi gert, ok hjó Sigmundr með vinstri hendi af Búa hendr í úlfliðunum; eptir þat stavkk Sigmundr aptr á sitt skip við 7 menn, [en allir aðrir voro drepnir, þeir er upp höfðo gengit eptir þeim Þóri [1]); steig Búi þá fyrir borð, ok var hroðit skip hans, sem áðr er getit. En um vârit eptir gaf Hákon jarl Sigmundi stórgjafir [2]), áðr þeir skildu. Sigldu þeir frændr þá út til Færeyja, ok settust um kyrt, ok rèð Sigmundr þar þá einn öllu.

### *Ólafr konúngr gerði orð Sigmundi Brestissyni.*

187. Nú er þar til at taka, sem furr var frá horfit, at Ólafr konúngr Tryggvason hafði verit 2 vetr í Noregi, ok kristnat um vetrinn allan Þrándheim. Þá um vârit gerði konúngr orðsendíngar út til Færeyja til Sigmundar Brest–

[1]) en uppgengu þrír tígir með þeim Þóri, *B*, *C*. [2]) strengjaferju, *B*.

issonar, ok boðaði honum á sinn fund, lèt hann þat ok fylgja orðsendíngu, at Sigmundr skyldi fara sæmdarför, ok konúngr mundi gera hann mestan mann í Færeyjum, ef Sigmundr vildi gerast hans maðr. Þat sumar kom utan af Íslandi Stefnir Þorgilsson, er konúngr hafði sendt út þángat hit furra sumarit, sem áðr er getit, tók konúngr við honum með hinum mesta blíðskap, var Stefnir með hirð konúngsins, ok segir honum alt hit sanna um ferðir sínar, ok hversu þúngliga hans máli var tekit á Íslandi, sagðist þat ætla at seigt mundi veita at koma kristni á Ísland.

*Ólafr konúngr sendir Þángbrand til Íslands.*

188. Ólafr konúngr hafði skipat Þángbrandi presti kirkju inn í Mostr, sem furr er sagt, ok bauð honum at skíra fólk þat, er trú tæki um Hörðaland, ok eigi varð skírdt, áðr konúngr fór norðr í land. En fyrir því at Þángbrandr var maðr örlyndr, en hafði mannmargt með sèr, ok hèlt sik vel ok menn sína, en nálægir ríkismenn úngir í rèttri trú ok úölmösugjarnir at styðja kennimenn ok klerka, þá eyddust skjótt upp eignir þær, er Ólafr konúngr hafði lagt til kirkjunnar. En er Þángbrandr sá, at hann mátti eigi halda viðrfángalaust teknum hætti um risnu ok örlæti, þá tók hann at herja á heiðíngja ok ræna, ok flutti við þat fram sik ok lið sitt; af þeim sökum varð hann fyrir reiði Ólafs konúngs, þvíat hann bauð frið um alt ríki sitt, ok bannaði mönnum allan hernat ok rán

innan lands, utan hann sjálfr lèti refsa mönnum rángindi; boðaði konúngr Þángbrand fyrir þá skyld til sín; kom Þángbrandr þá á fund Ólafs konúngs norðr í Þrándheim, þann tíma er Stefnir var nýkominn utan af Íslandi, sem nú var sagt. En er Þángbrandr fann Ólaf konúng, taldi konúngr fast á hann, ok mælti svâ: þú gerir ílt umskipti á ráði þínu, leggst í hernat sem heiðnir víkíngar, ok fæðir þik ok aðra á rifsi ok ránum, þar sem þú skyldir guði þjóna ok heita hans kennimaðr; vit þat víst, at hèr fyrir skaltu missa af mèr allrar sæmdar ok verða í brottu or mínu ríki. Þángbrandr svarar: mjök hefi ek misgert, en þó vil ek biðja at þèr, herra! miskunit mínu máli, ok leggit á mik nökkura yfirbót eðr þraut, heldr enn þèr útlægit mik eðr rekit frá yðr, þvíat ek vil gjarna alt til þess vinna, þat er má, at hafa eigi yðra reiði. Konúngr svarar: ef þèr þikkir varða um mína vináttu, þá skaltu fara út til Íslands, ok geta þar snúit með guðs vilja öllum lýð til rèttrar trúar; nú ef þú getr þessu á leið komit, þá skaltu eiga vân af mèr slíkrar sæmdar ok framkvæmdar sem furr eðr meiri. Þrángbrandr svarar: fara skal ek hvert sem þèr vilit senda mik, ok kostgæfa at reka guðs eyrendi ok yðvart, en eigi má ek vita, hvat at framkvæmdum verðr. Síðan fèkk Ólafr konúngr Þángbrandi skip gott ok menn til fylgðar bæði lærða ok úlærða [1]) ok alla luti,

[1]) ok vel trúaða, *bæta við B, S.*

þá er hann þurfti til kristins dóms, ok lèt búa ferð hans at öllu sem bezt. Þángbrandr var mikill maðr vexti ok sturkr at afli, snjallr í máli ok klerkr góðr, garpr mikill ok fullhugi at allri karlmenzku, þó at hann væri kennimaðr, ekki áleitinn, en harðr ok úvæginn bæði í orðum ok verkum, ef hann varð reiðr. Skildo þeir Ólafr konúngr í Níðarósi, ok sigldi Þángbrandr í haf, þegar hann var búinn ok byr gaf.

*Ólafr konúngr telr trú fyrir Sigmundi.*

189. Ólafr konúngr fór norðan or Þrándheimi, er áleið sumarit; en er hann kom á Sunnmæri, ok þá þar veizlu at einum ríkum bónda, þá kom utan af Færeyjum Sigmundr Brestisson at orðsendíngu konúngs, ok Þórir frændi hans. En er Sigmundr fann konúng, tók konúngr honum glaðliga, áttust þeir brátt tal við; konúngr segir svâ: vel hefir þú gert, Sigmundr! er þú lagðist þessa ferð eigi undir höfuð, bauð ek þèr af því mest á minn fund, at mèr er mikit sagt af fræknleik þínum ok atgervi, vil ek gjarna vera þinn vin fullkominn, ef þú hlýðnast mèr um þá luti, er mèr þikkir mestu varða; er þat ok mál sumra manna, at okkarr fèlagskapr væri eigi úviðrkvæmiligr, fyrir því at við erum nú kallaðir báðir eigi úhreystimannligir, en þolat lengi vâlk [1]) ok vandræði, áðr við fengim okkrar eiginligar sæmdir, þvíat okkr hafa sumir lutir eigi úlíkt atborizt í útlegð ok ánauð; þú vart barn

[1]) vâs, F, S.

ok sátt uppá, er faðir þinn var drepinn saklauss, en ek var í móður kviði, er faðir minn var sviksamliga drepinn utan alla savk nema ilzku ok ágirnd sinna frænda; svâ er mèr ok sagt, at þèr væri því síðr boðnar favðurbætr, at frændr þínir báðu drepa þik eigi síðr enn föður þinn, ok vart síðan seldr svâ sem mansali, eðr enn heldr gefit fè til, at þú værir þjáðr ok þrælkaðr, ok með því móti flæmdr ok fluttr frá þínum eignum ok óðalsjörðum, ok hafðir ekki til hjálpar þèr í úkunnu landi lángan tíma utan þat er vandalausir menn veittu þèr miskunn með þess fyrirhyggju ok forsjá, er alla luti má; en þessu eigi úlíkt, sem nú hefi ek tínt af þèr, hefir mèr farit: þegar ek var fæddr, var mèr veitt ofsókn ok umsát ok hugat líflát af mínum samlöndum, svâ at móðir mín varð fátækliga at flýja með mik, sinn föður ok frændr ok allar eignir, liðu svâ fram hinir furstu 3 vetur minnar æfi; síðan voro við bæði tekin af víkíngum, ok skilda ek þá við móður mína, svâ at ek sá hana aldri síðan, var ek þá þrysvar seldr mansali, var ek á Eistlandi með öllum úkunnum [1]) til þess er ek var 9 vetra, þá kom þar einn minn frændi, sá er við kannaðist ætt mína, leysti hann mik or ánauð, ok flutti mik með sèr austr í Garða, var ek þar aðra 9 vetr enn í útlegð, þó at ek væra þá kallaðr frjáls maðr, fèkk ek þar þroska nökkurn, ok þaðan af meiri sæmd ok virðíng af Vald-

[1]) ókendr, *S.*

amar konúngi enn líkligt mundi þikkja um einn útlendan mann, mjök enn á þá mynd ok þú fèkkt af Hákoni jarli. Nú er svâ komit um síðir, at hvârtveggi okkarr hefir avðlazt sína föðurleifð ok fóstrland fyrir lángan missi sælu ok sæmdar. Nú allra helzt fyrir þá skyld, er ek hefir spurt, at þú hafir aldri blótat skurðgoð eptir hætti annarra heiðinna manna, þá hefi ek góða vân á, at hinn háleiti himnakonúngr, skapari allra luta, muni leiða þik til kynníngar síns háleita nafns ok heilagrar trúar af mínum fortölum, ok gera þik mèr samfèlaga í rèttum átrúnaði, svâ sem samjafnan í afli ok atgervi ok avðrum sínum margföldum miskunar gjöfum, er hann hefir þèr veitt sem mèr laungum tíma furr enn ek hafði nokkura vissu af hans dýrð. Nú veiti þat sá hinn sami allsvaldandi guð, at ek geti þik leidt til sannrar trúar, ok undirokat hans þjónosto, svâ at þaðan af megir þú með hans miskunn ok mínu eptirdæmi ok áeggjan leiða til hans dýrðar alla þína undirmenn, sem ek væntir at verða skal; skaltu ok, ef þú vill svâ hlýðnast mínum fortölum, sem nú hefir ek sagt, ok þjóna guði trúliga með staðfesti, öðlast af mèr vináttu ok virðíng, þó at þat sè engis vert hjá þeirri sæmd ok sælu, er almáttigr guð faðir mun þèr veita sem hverjum annarra, þeim er geyma hans boðorða fyrir ást hans hins helga anda, at samríkja sínum sæta syni, konúngi allra konúnga, eilífliga í hinni hæstu himinríkis

dýrð. En er konúngr lauk sinni ræðu, svarar Sigmundr: þat er yðr kunnigt, herra! sem þèr komut við í yðru máli, at ek var þjónostobundinn Hákoni jarli, veitti hann mèr gott yfirlæti, ok unda ek þá allvel mínu ráði, þvíat hann var hollr ok heilráðr, örlyndr ok ástúðigr sínum vinum, þó at hann væri grimmr ok svikull úvinum sínum; en lángt er ímilli okkars átrúnaðar, en svâ sem ek skil af yðrum fagrligum fortölum, at þessi átrúnaðr, sem þèr boðit, er í alla staði fegri ok farsælligri enn hinn, er heiðnir menn hafa, þá er ek fúss at fylgja yðrum ráðum ok eignast yðra vináttu, ok fyrir því vildi ek eigi blóta skurðgoð, at ek sá laungu, at sá siðr var engu hæfr [1]), þó at ek kynni engan betra.

190. Ólafr konúngr varð glaðr við, er Sigmundr tók svâ skynsamliga máli hans. Var Sigmundr þá skírðr ok alt hans föroneyti, ok lèt konúngr kenna þeim heilög fræði; var Sigmundr þá með konúngi um hríð í mikilli virðíng. En er hausta [2]) tók, sagði konúngr Sigmundi, at hann vill senda hann út til Færeyja at kristna þat fólk, er þar byggir. Sigmundr mæltist undan því starfi, en játti þó um síðir konúngs vilja, skipaði konúngr hann þá valdsmann yfir allar Færeyjar, ok fèkk honum kennimenn at skíra fólkit ok kenna þeim skyld fræði. Sigldi Sigmundr þegar hann var búinn, ok greiddisi hans ferð vel; en er hann kom til Færeyja,

[1]) nýtr, *C.* [2]) vora, *F.*

stefndi hann þíng í Straumsey við bændr, kom þar fjölmennt; en er þíngit var sett, stóð Sigmundr upp, ok skaut á erendi, ok segir frá því, at hann hafði farit um sumarit austr til Noregs á fund Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok at konúngr hafði skipat í hans vald allar eyjarnar. Tóko flestir bændr því vel. Þá mælti Sigmundr: þat vil ek yðr ok kunnigt gera, at ek hefir tekit siðaskipti, ok er ek maðr kristinn, ok hefir ek tekit við því erendi ok boðskap Ólafs konúngs, at snúa hèr í eyjunum öllu fólki til rèttrar trúar. Þrándr svarar máli hans, sagði þat tilheyra at bændr tali með sèr þetta vandamál. Bændr sögðu, at þat var vel sagt. Gengu þeir Þrándr þá annan veg á völlinn; telr Þrándr þá um fyrir bóndum, at þeim er einsætt at neita þessum boðskap skjótt, ok lýkr svâ með hans fortölum, at þeir verða allir á eitt sáttir. En er Sigmundr sèrr, at alt fólk er drifit til þeirra Þrándar, svâ at ekki er eptir hjá honum utan hans menn, þeir er kristnir voro, þá mælti hann: of mikit vald hefi ek nú fengit Þrándi. Því næst drifu menn þángat, er þeir Sigmundr sátu, ok höfðo þegar vâpnin á lopti, ok lètu ekki friðliga. Þeir Sigmundr spruttu upp í móti; þá mælti Þrándr: setist menn niðr ok geri sik ekki svâ óða, en þèr er þat at segja, Sigmundr frændi! at vèr bændr verðum allir á eitt sáttir um erendi þat, er þú flutfir, at vèr viljum með engu móti taka siðaskipti, ok hèr munu vèr veita þèr atgöngu á

þínginu ok drepa þik, nema þú lèttir af ok heitir því til fasta at flytja aldri þenna boðskap síðan hèr í eyjunum. En er Sigmundr sèrr, at hann kemr engu til leiðar at sinni um trúna, en hafði engan afla til at deila kappi við alt fólk, þá verðr þat at hann heitr þessu, sem þeir beiddu við vitni ok með handfesti, ok slíta við þat þíngit. Sigmundr sat heima um vetrinn í Skúfey, ok líkaði allþúngt, er bændr höfðo kúgat hann, en lèt þat þó ekki finna á sèr.

*Sigmundr Brestisson kristnar Færeyjar.*

191. Um vârit einn tíma, þá er straumar voro nærr sem mestir, ok mönnum þótti úfært á sjá milli eyjanna, þá fór Sigmundr heiman or Skúfey með 30 manna á tveim skipum; sagði hann at þá skyldi leggja á tvíhættu at koma fram konúngs erendinu eðr deyja at öðrum kosti. Þeir hèldo til Austreyjar ok gátu tekit eyna, komu þar at áliðinni nótt á úvart, svá at þeir slógu hríng um bæinn í Götu, skutu síðan stokki á skemmu hurðina, þar er Þrándr svaf í, ok brutu upp, tóko Þránd höndum ok leiddu út. Þá mælti Sigmundr: nú er enn svâ, Þrándr! at ýmsir eiga [1]), þú kúgaðir mik á hausti, ok gerðir mèr tvâ harða kosti, nú vil ek gera þèr 2 kosti mjök újafna; sá er góðr at þú takir trú rètta ok látir skírast; en ef þú vill eigi þenna, þá er sá annarr kostr, at þú skalt vera drepinn

[1]) *þannig A, B, C*; en svâ Þr. ymsir eiga, *B*; en svâ ymsir eiga, *S*.

þegar í stað; er þèr sá illr, þvíat þú missir þá skjótt auðæfa ok veraldligrar sælu þessa heims, en tekr ímóti eymð ok eilífa píno helvítis annars heims. Þrándr svarar: ekki mun ek bregðast hinum fornum vinum mínum. Sigmundr fèkk þá mann til at vega at Þrándi, ok fèkk þeim manni mikla öxi í hönd, en er hann gekk at Þrándi með reidda öxina, leit Þrándr við honum ok mælti: högg mik eigi svâ skjótt, maðr! ek vil áðr mæla nökkut, eðr hvar er Sigmundr frændi minn? Hèr em ek, segir hann. Einn skaltu ráða okkar ímilli, frændi! segir Þrándr, ok skal ek taka þann sið er þú vill. Þá mælti Þórir Beinisson: havgg þú hann, maðr! Sigmundr svarar: eigi skal höggva hann at sinni. Þat er þinn bani ok þinna vina, segir Þórir, ef hann gengr nú undan. Sigmundr segir at hætta skyldi þá á þat. Var þá Þrándr skírðr af presti ok hans heimamenn. Sigmundr lèt Þránd þá fara með sèr. Fór Sigmundr þá um allar Færeyjar, ok lètti eigi furr enn þar var alt fólk kristnat. Síðan burr hann skip sitt um sumarit, ok ætlar til Noregs at færa konúngi skatta sína, ok þar með Þránd or Götu. En er Þrándr varð þess varr, at Sigmundr ætlaði at flytja hann á konúngs fund, þá baðst hann undan þeirri ferð, en Sigmundr lèt þat ekki tjá, ok slógu landfestum [1]), þegar byrr kom; en er þeir voro eigi lángt í haf komnir, þá hittu þeir í

[1]) landtjöldum, *F.*

strauma ok storm mikinn, vurðu við þat aptrreka til Færeyja, ok brutu skipit í spán, ok týndo fè öllu, en mönnum varð borgit flestum. Sigmundr barg Þrándi ok mörgum avðrum. Þrándr segir, at eigi mundi þeim ferðin takast slètt [1]), ef þeir lèti hann nauðigan fara. Sigmundr segir, at hann skyldi fara alt at einu, þó at honum þætti ílt. Tók Sigmundr þá skip annat ok fè sitt at færa konúngi fyrir skattinn, þvíat Sigmundr skorti eigi lausafè; láta þeir í haf í annat sinn, komast nú eigi lengra áleiðis enn furr, fá þeir enn mótviðri stór, ok rekr þá aptr til Færeyja ok lesta skipit. Sigmundr segir, at honum þótti mikit farbann á liggja. Þrándr segir, at svâ mundi fara, hversu opt sem þeir leitaði til, svâ at þeir flytti hann nauðigan með sèr. Sigmundr lætr Þránd nú lausan með því skilorði, at hann sverr trúnaðareiða, at hann skal hafa ok halda rètta trú, vera tryggr ok trúr Ólafi konúngi ok Sigmundi, tefia eigi eðr tálma fyrir nökkurum manni þar í eyjunum, at við þá haldi trúleika ok lýðni, fremja ok fullgjöra í alla staði þenna boðskap Ólafs konúngs, ok svâ hvern annarra, er hann sendir til Færeyja. Ok svâ sverr Þrándr frekliga, sem Sigmundr kann vandligazt fyrir at skilja. Ferr Þrándr þá heim í Götu, en Sigmundr sitr þá ok í búi síno í Skúfey þann vetr, þvíat þá var haustat mjök, er þeir vurðu aptrreka hit síðarra sinn.

[1]) skjótt, *B.*

Lèt Sigmundr þá bæta þat skipit, er minnr var brotit; var alt kyrt ok tíðindalaust í Færeyjum um vetrinn.

192. Nú er furst at segja, hvat framfór í Noregi þenna tíma, er Sigmundr Brestisson dvaldist í Færeyjum ok kristnaði þar. Ólafr konúngr fór suðr með landi, þá er þeir Sigmundr skildu, sem áðr er sagt, fór konúngr at veizlum um haustit, ok alt heldr tómliga; þegar hann kom suðr um Staði, bauð hann til sín bóndum, bætti trú þeirra ok samdi siðo þar sem honum þótti þurfa; kom Ólafr konúngr á öndverðum vetri austr í Víkina.

*Ólafr konúngr hóf bónorð við Sigríði.*

193. Sigríðr drottníng í Svíþjóð, er köllut var en stórráða, sat þar at búum sínum. Litlu síðarr enn Ólafr konúngr kom austr í Víkina, sem nú var sagt, fóro menn ímilli þeirra Ólafs konúngs ok Sigríðar drottníngar með þeim erendum, at konúngr hóf bónorð sitt við Sigríði, en hún tók því líkliga, var þat fest með einkamálum, at stefnulag skyldi vera með þeim til þessa mála um vetrinn eptir jól í Elfinni við landamæri. Þá sendi Ólafr konúngr Sigríði drottníngu gullhríng þann enn mikla, er hann hafði tekit hrínginn or hofshurðinni á Hlavð, þótti þat öllum, er sá, en mesta gersimi. Sigríðr drottníng tók við hrínginum ok lofaði mjök stórlyndi ok örlæti Ólafs konúngs,

lèt hún þegar hríngínn fara til sýnis um alla höllina, ok sögðu allir menn eitt, at eigi þóttust sèð hafa jafngóðan hríng; þar voro með drottníngu gullsmiðir hennar 2, en er hríngrinn kom til þeirra, þá handvættu [1]) þeir hrínginn, ok lögðu til ekki, utan þeir talaðust með einmæli; ok er þat sá drottníng, kallaði hún þá til sín, ok spurði, hvat þeir spottaði at hrínginum, en þeir duldu þess; hún sagði at þeir skyldi fyrir hvern mun segja, hvat þeir hefði at fundit; þeir sögðu at fals var í hrínginum. Síðan lèt hún brjóta í sundr hrínginn, ok fanst þar í innan eirteinn [2]). Hún varð þá reið, ok sagði at Ólafr konúngr mundi svâ [falsat hafa fleira [3]).

### *Kristnað fólk á Hríngaríki.*

194. Ásta, dóttir Guðbrands kúlu, er átt hafði Haraldr konúngr grænski, giptist brátt eptir dauða hans þeim manni, er nefndr er Sigurðr sýr, hann var konúngr á Hríngaríki. Sigurðr konúngr sýr var son Hálfdánar Sigurðarsonar hrísa, Haraldssonar hárfagra. Ólafr, son Haralds konúngs grænska ok Ástu, fæddist upp í bernsku á Hríngaríki með Sigurði konúngi stjúpföður sínum ok Ástu móður sinni. Þenna sama vetr fór Ólafr konúngr Tryggvason or Víkinni upp á Hríngaríki, ok boðaði kristni, lèt þá skírast Sigurðr konúngr sýr ok Ásta kona 998

[1]) handvógu, *F.* [2]) járnteinn, *C.* [3]) falsa hana at fleira, *B, C.*

hans ok Ólafr son hennar, var hann þá þrevetr, ok gjörði Ólafr konúngr sjálfr guðsifjar við Ólaf Haraldsson. Var þá kristnat alt Hríngaríki ok víða um Upplönd. Eptir þat fór Ólafr konúngr enn út í Víkina, ok dvaldist til þess, er hann fór austr til Konúngahellu til stefnu við Sigríði drottníngu, sem mælt hafði verit um vetrinn, at þau mundi gera samgáng sinn; kom þar Sigríð drottníng, ok tóko þau konúngr tal sitt, fór þat í furstu alt líkliga til samþykkis ok þess er rædt hafði verit. Þá mælti Ólafr konúngr, at Sigríð skyldi taka skírn ok trú rètta. Hún svarar: ekki mun ek gánga af trú þeirri, er ek hefi haft ok haldit hèr til ok frændr mínir fyrir mèr, mun ek ok ekki at telja, þó at þú trúir á þat goð, er þèr líkar. Ólafr konúngr varð mjök reiðr svörum hennar, hann laust glófa sínum heldr bráðliga í andlit henni ok mælti: ætlar þú hrokkinskinnan, at ek vilja eiga þik afgamla ok þó hundheiðna, hygg af því, ok gjör þik eigi svâ djarfa, at þú guðlastir optarr míns drottins nafn með þínu heiðíngligu orðtaki at mèr áheyranda, svâ at þú kallir goð hinn hæsta himnakonúng, er ek trúi á. Þá mælti Sigríðr: þessi öll saman smán ok svívirðíng, er þú gjörir mèr, Ólafr! mætti vel verða þinn bani. Skildu þau svâ sitt tal bæði mjök reið; fór Ólafr konúngr þá norðr í Víkina, en drottníng austr í Svíþjóð til búa sinna, ok litlu síðarr giptist hún Sveini tjúgu-

skegg [1]) Dana konúngi, því at þá var dauð Gunnhildr, dóttir Búrizlafs Vinda konúngs, er hann hafði áðr átt. Gjörðist þá kær vinátta með tengðum milli Sveins Dana konúngs ok Ólafs konúngs sænska, sonar Sigríðar drottníngar.

*Ólafr konúngr fèkk Þyri drottníngar.*

195. Búrizlafr Vinda konúngr kærði þat mál optliga fyrir Sigvalda jarli mági sínum, at sættargerð sú var rofin, er Sigvaldi hafði gert í millum Sveins konúngs ok Búrizlafs konúngs, at Búrizlafr skyldi fá Þyri, dóttur Haralds konúngs Gormssonar, systur Sveins konúngs; en þat ráð hafði ekki framgengit svâ sem ætlat var ok ákveðit, því at Þyri setti þvert nei fyrir, at hún mundi giptast gömlum konúngi ok heiðnum. Fór nú svâ fram um hríð, at Þyri var í Danmerk með Sveini konúngi. En er Búrizlafi konúngi þótti fyrir vân komit, at Sveinn konúngr mundi senda systur sína til hans, þá segir hann Sigvalda jarli, at hann vill hafa máldaga sinn, ok bað jarl fara til Danmerkr ok færa sèr Þyri heitkonu sína. Jarl lagðist þá ferð eigi undir höfut, ok fór á fund Sveins konúngs, ok bar þetta mál upp fyrir honum, segir at hann átti vísan úfrið ok hernat á ríki sitt af Vindum, ef eigi hèldist gjört sáttmál af hans hendi við Búrizlaf konúng; kom jarl svâ sinum fortölum,

[1]) Saumæsusyni, *nærri allstaðar F.*

at Sveinn konúngr fèkk honum í hendr þyri systur sína nauðga, ok fylgðo henni or Danmerk nökkurar konur ok fóstri hennar, er nefndr er Avzur Agason, ríkr maðr, ok enn fleiri menn; kom þat í einkamál með þeim Sveini konúngi ok Sigvalda jarli, at eignir þær í Vindlandi, er átt hafði Gunnhildr drottníng, skyldi þá hafa þyri til eiginorðs, ok þar með aðrar eignir stórar í tilgjöf sína. þyri grèt sárliga, ok fór mjök nauðig. En er þau komo í Vindland, þá gerði Búrizlafr konúngr brúðlaup sitt, ok fèkk þyri drottníngar; en er hún var með heiðnum mönnum, þá vildi hún hvârki þiggja at þeim vist nè drykk; fór svâ 7 daga. Síðan liópust þau þyri drottníng ok Özur fóstri hennar á braut um nótt til skógar; er þat skjótazt frá þeirra ferð at segja, at þau komu fram í Danmerk, ok þorði þyri fyrir engan mun þar at vera, þvíat hon þóttist vita, at Sveinn konúngr mundi þegar, er hann vissi þarkvâmu hennar, senda hana aptr til Vindlands; fóro þau þaðan ok alt huldu höfði, þartil er þau komo norðr í Noreg á fund Ólafs konúngs, tók hann við þeim vel, ok voro þau þar í góðum fagnaði. Sagði þyri Ólafi konúngi alt um sín vandræði, ok bað hann hjálpræða, ok beiddi sèr friðlands í hans ríki. þyri var kona orðsnjöll, ok virðust konúngi vel ræður hennar, hún var ok fríð kona sýnum ok kurteislig, kom konúngi þá í hug at þat mundi vera gott kvânfáng at fá henn-

ar, veik hann síðan þannig sinni ræðu, at hann spurði ef hún vildi giptast honum. En svâ sem hennar ráði var þá komit, ok í annann stað sá hún, hversu þat gjaforð var farsælligt at giptast svâ ágætum konúngi, þá sýndist henni vant at neita þessu boði, ok bað konúng sjá ráð fyrir sèr ok sínum kosti. En er þetta mál var talat, þá fèkk Ólafr konúngr Þyri, ok fastnaði hún sik sjálf at ráði Özurar fóstra síns; efnaði Ólafr konúngr þá til ágætrar veizlu, ok gerði brúðlaup sitt í Túnsbergi, þat var hinn 3ja vetr, er hann var konúngr at Noregi, litlu síðarr enn þau Sigríðr drottníng höfðo fundizt í Elfinni, þvíat Þyri drottníng fann konúng í Víkinni, þá er hann var nýkominn austan frá stefnunni. Stefndi konúngr þá til sín öllu stórmenni ok göfgum bóndum um Víkina ok víða annarstaðar, kom þar saman allmikit fjölmenni, var sú veizla en stórmannligazta. Ok fursta dag veizlunnar sem ágætr drykkr gladdi menn, var konúngr kátr ok allir þeir er inni voro, kallaði konúngr til sín einn hæfverskan skutilsvein, ok bað hann gánga til drottníngar með sitt erendi. Þjónostomaðrinn gekk fyrir Þyri drottníng, hneigði henni ok mælti: minn herra sendi mik til yðar, frú! eptir at spurja, hvârt hann skal velja yðvarri tign bekkjargjöf eptir því sem tilheyrir mey eða þeirri kono, er manni hefir verit gipt. Hún svarar: gakk ok seg svâ þínum herra, at hann hugsi sjálfan sik, hvârt heldr mundi til hæfa, ef

ek hefði byggt með honum eina sæng 7 nætr, sem nú hefir ek með avðrum konúngi, gjöri hann síðan sem honum sýnist meiri sæmð í sèr ok mèr. Sveinninn fór ok sagði konúngi svör hennar. Honum líkaðu vel hennar svör, ok sendi henni þegar eina kvennskikkju með allfríðum skinnum ok fögrum búnaði. At þessi sömu veizlu talaði konúngr marga luti til siðbótar þeim mönnum, er þar voro samankomnir, ok gerði þat opinbert fyrir alþýðu, at þeir menn allir, svâ karlar sem konur, er sannir ok kunnir vyrði at því at færi með galdra ok gjörníngar, einkannliga seiðmenn, skyldi allir fara af landi á brott; síðan lèt konúngr leita at öllum þesshàttar mönnum um Víkina, ok öll nálæg hèruth ok bygðir, ok bauð þeim öllum á sinn fund; en er þeir komo til konúngs, var þat fjöldi manna, ok var einn allra þeirra foríngi, sá hèt Eyvindr kellda, hann var seiðmaðr ok allmjök fjölkunnigr. Eyvindr var ættstórr ok auðigr, hann var sonarson Rögnvalds rèttilbeina, sonar Haralds konúngs hárfagra. Konúngr talaði til þeirra blíðliga, ok bað þá taka skírn ok rètta trú, en láta af forneskju ok fjölkýngi, en at öðrum kosti, sagði hann, skulut þèr fara útlægir af mínu ríki, ok fyrirláta fè ok fóstrlönd. En er þeir vildo ekki skipast við orð konúngs, þá skipaði hann öllu þessu fólki [1]) í eina mikla stofu, þar var búizt um vel ok gjör þeim öllum

[1]) illþýði, *B.*

hin bezta veizla, ok gefinn hinn styrkazti drykkr, ok borinn kappsamliga; en er á leið daginn ok heiðíngjar gerðust avlóðir, þvíat þeir hlífðust ekki við at drekka sem lysti, þá kom konúngr enn til þeirra ok mælti: þat mun ílýsast, at mèr þikkir mikit fyrir at láta yðr, þvíat mikinn skaða gerit þèr oss ok auðn ríki voro, ef svâ margt ok herligt [1]) fólk, sem hèr er samankomit, skal á brotto fara, en ek nenni þó eigi at hafa yðr hèr í landi, ef þèr látit eigi af villu yðvarri; nú vil ek gjarna, ef hins er kostr, at þèr látit at mínum fortölum, ok leggit niðr fornan átrúnat, en takit í staðinn kristni ok sanna trú almáttigs guðs, skulut þèr þá halda eignum yðrum ok ættlöndum, ok þar með hafa með oss samfagnat ok sæmd, vald ok virðíng nærr sem þèr kunnit beiða ok mèr sè heyriligt at veita. Þá svarar Eyvindr kellda fyrir hönd allra þeirra, ok segir svâ: þess þarf ekki at leita, konúngr! er eigi mân fást hvârki fur orð glyslig nè afarkosti, at vèr fyrirlátim vârn átrúnat nè íþróttir. Gekk konúngr þá í brotto, en bað sína menn veita þeim eigi úkappsamligarr enn furr. Varð þat fólk svâ mjök drukkit, at hverr maðr lá þar sofinn, er setit hafði; konúngr lèt um kveldit leggja eld í stofuna, vaknaðu heiðíngjar eigi furr enn eldr lèk um þá, brann þar stofan ok alt þat er inni var, nema Eyvindr kellda komst

[1]) *þannig B, C, F.* herfiligt, *A.*

út um glugginn [1]) með fjölkýngi ok fjandans krapti, leitaði hann svâ á braut ok forðaðist sem mest at sinni fund Ólafs konúngs; en er Eyvindr var lángt á leið kominn, fann hann á veg sínum einn dag nökkura menn saman, þeir talaðust við [2]), ok spurði Eyvindr, hvert þeir ferðaðist, en þeir sögðo, at þeir ætlaðu á fund Ólafs konúngs. Eyvindr mælti: þat berr allvel til, ok gerit svâ vel, at þèr rekit eyrendi mitt til konúngs ok segit honum svâ: at Eyvindr kellda er kominn braut or eldinum, ok þat vænna, at hann komi ekki síðan á vald Ólafs konúngs, en alt á sömu leið ok furr mun fara með alla seið sína ok fjölkýngi, utan nökkut megi viðauka. Fór Eyvindr þá leið sína, en þessir menn komo á konúngs fund, ok sögðo honum erendi Eyvindar ok öll orð hans, sem hann hafði þeim boðit. Konúngr lèt illa yfir, er Eyvindr var eigi dauðr, ok kvað hann eigi skyldi þurfa svâ at hælast, ef hann fengi náð honum öðru sinni. [*Höfundarins hugmind um brögð djöfulsins*].

196. Ólafr konúngr sendi boð um Víkina, at hann vill lið hafa úti um sumarit ok fara norðr í land; fórkonúngr sjálfr ok hirðin, þegar er vâraði, út eptir Víkinni, ok tók veizlur at stórbúum sínum, sótti hann norðr á Agðir ok Rogaland, er áleið lángaföstu; hann kom páska-

[1]) ljórann, *B.* laundyr, *F.* [2]) *þannig, B, C.* með, *A.*

aptaninn í Körmt á Avgðvaldsnesi, var þar búin fyrir honum páskaveizla, þar var með konúngi Þyri drottníng ok Sigurðr biskup ok margt annat stórmenni, hafði hann nærr 300 manna. En svâ sem margheyrt er ok sannprófat, at síðan er allsvaldandi guð hafði sèr skapat til þjónosto háleita hirð himneskra krapta, þá steypti öfund ok ofmetnaðr þeim englinum, er einna var ágætaztr skapaðr, or þeirri hærstu sæmð ok sælu, er honum var gefin af guði, ok svâ öllum þeim, er honum vurðu samhuga í ofbeldi á mót skaparanum, ok svâ sem áðr var hann fegri ok fríðari öllum englum í hinni hæstu dýrð, svâ varð hann þá ok er æ síðan ljótari ok leiðiligri [1]) öllum djöflum í enu neðsta helvíti, svâ ilzku fullr ok öfundar með sínum árum ok erendrekum, at hann kostgæfir alls mest at fyrirkoma hverju góðu ráði, ok byrlar optliga eitr sinnar slægðar mannkyninu meðr ýmisligri ásýnd eðr yfirbragði, þvíat ef hann sèrr nökkurt sinn eyðast flokk sinna þjónostomanna, en fjölgast sauði [2]) guðligrar hjarðar, af fortölum ok fagrligri áeggjan erendreka Jesú krists, þá leitar hann á flesta vega til at tæla þá með nökkurum svikum, er hann þikkist skömm ok skaða af hljóta, ok ætlar síðan aptr at leiða í snörur sinnar útöluligrar villu þat sama fólk, er hann þikkist áðr hafa týnt ok tapat, sem sýnast má í því er eptir ferr.

[1]) leiðari, B, C. [2]) sæði, B, C.

*Óðinn hittir Ólaf konúng.*

197. Svâ er sagt, at þat fursta kveld er Ólafr konúngr þá páskaveizlu á Ögvaldsnesi, kom þar maðr gamall, mjök orðspakr, einsýnn ok augdapr, ok hafði hatt síðan; hann kom sèr í tal við konúng, ok þótti konúngi gaman at ræðum hans, þvíat hann kunni af öllum löndum tíðindi at segja, eigi síðr forn enn ný. Spurði konúngr margra luta, en gestrinn fèkk orlausnir til allra spurnínga. Sat konúngr lengi um kveldit; ok um síðir spurði konúngr, ef hann vissi hvat manna Ögvaldr hefði verit, er bærrinn er viðkendr ok nesit. Gestrinn svarar: Avgvaldr var konúngr ok hermaðr mikill, hann blótaði mest kú eina, ok hafði hana með sèr, hvar sem hann fór á sjá eðr landi, þótti honum heilsamligt at drekka jafnan mjólk hennar, ok er sá orðskviðr þaðan, er magir hafa: at alt skal fara saman karl ok kýr. Avgvaldr konúngr barðist við þann konúng, er Varinn [1]) hèt, ok í þeirri orrosto fèll Avgvaldr konúngr, var hann þá hèr heygðr skamt frá bænum á nesinu, ok þar settir upp hjá bautasteinar, þeir er en standa hèr á nesinu; en í annann haug hèðan skamt frá var lagin kýrin. Slíka luti ok marga aðra sagði hann frá fyrrum tíðindum, ok af fornkonúngum. En er lengi var setit á nótt fram, þá minnti biskup konúng á, at mál væri at gánga at sofa; gjörði konúngr þá svâ, en er

[1]) Dixin, *F.*

hann var afklæddr ok hafði lagizt í sængina, þá kom þar gestrinn gamli ok settist á fótskörina ok talaði enn lengi við konúng, þvíat konúngi þótti orðs vant er annat var talat. Sigurðr biskup lá í næstu hvílu konúngssænginni; ok er konúngr hafði lengi vakat, mælti biskup at mál væri at sofa, hneigðist konúngr þá at hægindum, ok þótti mikit fyrir at lètta talinu; en gestrinn gekk út. Konúngr sofnaði skjótt ok fast, ok hraut mjök, hann vaknaði litlu síðarr, ok spurði þegar at gestinum, bað hann kalla þángat til sín, var hans þá leita farit, ok fannst hvergi, þá stóð biskup upp ok klæddist. Konúngr spurði, ef þegar væri mál til tíða. Biskup segir at svâ var. Klæddist konúngr þá, ok bað kalla til sín matbúðar mann ok steikara, ok spurði, ef nökkurr úkunnr maðr hefði komit til þeirra fyrir litlu. Þeir svöroðo: at vísu, herra! kom til vor maðr aldraðr, sá er vèr kendum eigi, þá er vèr bjöggum veizlu þessa, hann sagði at vèr syðim furðu ílt slátr, ok kvað ekki hæfa at bera slíkt á konúngs borð á jafnmikilli hátið, sem í hönd ferr; fèkk hann oss þá tvær nauts síður digrar ok feitar, ok suðum vær þær með öðru kjöti. Konúngr mælti: gjörla skil ek, at sá er allr einn ok gestrinn, er talaði við oss í gær kveld, farit nú sem skjótazt ok brennit þá vist alla eðr berit á sæ út, en búit til aðra í staðinn, þvíat eigi skal fjandinn svâ svíkja oss, at nökkurr minna manna eti hans eitri fulla fæðu;

hefir þetta reyndar verit enginn maðr, þó at hafi sýnzt, heldr hefir úvinr alls mannkyns fjandinn sjálfr brugðit á sik ásjánu hins ódygga Óðins, þess er heiðnir menn hafa lángan tíma trúat á, ok sèr fyrir guð haft, en nú sýnir hann sik eigi mega þola heilan bruna sinnar logandi öfundar, er hann sèrr eyðast sveit manna sinna, svâ sem fólkit gefr sik á vald ok undir viljanliga þjónosto alzvaldanda guðs, ok fyrir þá skyld leitar hann oss at veiða í neti sinnar ilzkufullrar slægðar, því er hann egndi [1]) með sínum bragðvíslígum prettum, at hann tafði ok tálmaði fyrir oss hvíldina á hæfiligum svefnsins tíma, ætlaði síðan at vèr þarfyrir, þýngðir af svefni, skyldim láta or lagi gánga eðr með öllu úrækja skipaðan tíma guðligrar þjónosto [lèttliga, at enn síðarr birtist [2]) sumar hans slægðir, þó at ek tína [3]) eigi. Hvat enn með þessu, sem nú var talat [4]), hefir vorum sönnum úvin fjandanum til gengit, er hann dvaldi svefninn fyrir oss í gærkveld; kemr mèr ekki á úvart, at þat fyllist með nökkuru móti á þessum degi, sem ek hefir nú á vísat. Gekk konúngr þá til tíða, ok var súngit.

*Eyvindr kelda kemr við Avgvaldsnes.*

198. Nú er þar til at taka, at á þessi sömu páskanótt kom þar við eyna Eyvindr kellda, hann hafði mikit lángskip alskipat, voro þat alt seiðmenn ok fjölkunnigt fólk. Eyvindr gekk upp

[1]) gjörði, *B.* [2]) kann vera at enn birtist síðar, *C.* [3]) þær nú *hafir* við *C.* [4]) talt, *B, C.*

af skipi, ok alt fólk hans, tóku þá at magna fjölkýngi sína. Gjörði Eyvindr þeim huliðs hjálm, ok þoku myrkr svâ mikit, at konúngr ok lið hans skyldi eigi mega sjá þá; en er þeir komo nærr bænum á Ögvaldsnesi, þá varð mjök annann veg enn Eyvindr hafði ætlat, þoku myrkvi sá, er hann hafði gjört með fjölkýngi, stóð yfir honum ok hans föruneyti, vurðu þeir allir senn svâ blindir, at þeir sá eigi heldr augum enn hnakka, ok gengu allir í hríng ok í kríng. En varðmenn konúngs sá, hvar þeir fóro, ok vissu eigi, hvat flokki þat var, var þá sagt konúngi í þann tíma, er lokit var óttosaung. Konúngr gekk út, ok er hann sá, hvar þeir Eyvindr fóro, bað hann menn sína vâpna sik, ok fara at vita, hvat manna þeir væri, er svâ fóro undarliga. Þeir gerðo svâ; kendo konúngsmenn Eyvind kelldo, tóko þá alla ok leiddu heim til hæjar ok síðan á konúngs fund, er hann gekk frá messu. Sagði Eyvindr þá allan atburð um sína ferð, ok svâ þat, at hann hafði þá ætlat at koma at konúngi úvörum ok drepa hann sofandi eðr brenna hann inni með alla sína sveit. Konúngr mælti: hèr er nú þat fylt, at sú en sama snara eðr gilðra hefir fallit á yðr sjálfa, sem þèr egndut öðrum, ef eigi hefði blindleikr sá meinat, er fèll á þik ok þína menn, var ok þess vân, at meira mundi mega miskun almáttigs guðs ok styrkr hans ágætra engla, er hann skipar til varðveizlu ok verndar sínu fólki enn fjölkýngi þín eðr sá hinn

bölvaði fjandans sendiboði Óðinn, er til þess dvaldi fyrir oss svefninn á tækiligum tíma með sínum skemtiligum skröksögum, at hann mætti því avðveldligarr oss svíkja ok svæfa, þá er vèr skyldim vaka, sem ek kom við í morgin; ferr þetta ok makliga eptir valdi ok vilja hins hæsta himnakonúngs, at hann sjálfr með sínum sæta syni vârum herra Jesú krist, er á þessum dyrðar degi lífgaði sinn líkam ok reis af dauða, ok með sínum helgum anda einn guð í þrenníngu, hefir af þessu sem öllu öðru sæmð ok sigr, en úvinrinn skavp ok skemð. En með því, Eyvindr! at þú hefir nú fullkomliga reynt, at þín forneskja ok fjölkýngi vinnr þèr ok avðrum ekki utan ílt, þá muntu nú vilja ok þínir sveitúngar láta af lángri villu ok trúa um síðir á sannan guð. En með því at Eyvindr ok hans fèlagar neittu því þverliga, þá lèt konúngr byrgja þá alla í einu húsi, en annann dag eptir voro þeir fluttir í eitt flæðisker at konúngs ráði skamt frá eyjunni blindir ok bundnir; lètu þeir Eyvindr þar allir líf sitt, ok er þat síðan kallat Skrattasker. Ólafr konúngr sat á Ögvaldsnesi fram um páskaviku, ok er af liðu hinir hærstu dagar, þá lèt konúngr brjóta hvârntveggja hauginn, er þar var á nesinu, ok fundust mannsbein í hinum meira hauginum mikil ok fornlig, en nautsbein í hinum minna. Síðan fór konúngr norðr með landi um vârit ok öndverdt sumarit ok þó heldr

tómliga; dvaldist hann víða laungum at stórbúum sínum, ok hafði með sèr mikit lið ok frítt.

*Sigurðr ok Haukr kvâmu á vald Ólafs konúngs.*

199. Sigurðr er maðr nefndr, en annarr Haukr, þeir voro háleyskir menn at ætt, úngir at aldri, miklir ok sterkir, höfðust mjök í kaupferðum. Þetta sama vâr er Ólafr konúngr sigldi austan or Víkinni, sigldu þeir Sigurðr ok Haukr vestr til Englands; en er þeir komo aptr til Noregs at áliðnu sumri, þá sigldu þeir norðr með landi; þeir mættu liði Ólafs konúngs á Norðmæri. En er konúngi var sagt, at þar voro kaupmenn háleyskir komnir af Englandi, ok voro heiðnir, þá lèt hann kalla stýrimenn til sín, ok spurði ef þeir vildi taka trú ok láta skírast, en þeir neitaðu því skjótt. Konúngr taldi fyrir þeim marga vega fagrliga, ok fèkk ekki af þeim þat er hann vildi, hèt hann þeim þá afarkostum, lífláti eðr lima, ok gerði þat ekki; þá lèt konúngr setja þá í járn, ok hafði með sèr norðr til Þrándheims, voro þeir um hríð haldnir í fjötrum; konúngr kom opt til þeirra, hèt hann þeim sæmdum ok sinni vináttu, en stundum hörðum píslum, ok stoðaði ekki, þvíat þeir gengu hvârki fyrir blíðu nè stríðu. En á einni nótt hurfu þeir á braut or varðhaldinu, svâ at engi maðr spurði til þeirra, ok engi vissi með hverjum hætti þeir hefði í braut komizt,

þvíat þar lágu eptir fjötrarnir úbrotnir, ok læst húsinu, er þeir höfðo inni verit; töluðu menn þar margt til, konúngr sjálfr var fáræðinn um þenna lut, ok taldi þó nökkut á varðmennina, er gætt skyldo hafa, virði hann þeim bæði til vangeymslu ok óskynsemdar, er þeir vurðu eigi varir við brautferð þeirra; en þá varð ekki at gjört, þvíat þeirra var leita farit, ok fundust þeir hvergi. Síð um haustit komo þeir fram bræðr Sigurðr ok Haukr norðr á Hálogalandi með Háreki í Þjóttu, tók hann allvel við þeim, ok voro þeir þar um vetrinn með honum í góðu yfirlæti.

[*Frá Þorvaldi tasalda*].

200. Á þessu sama sumri, sem nú var frásagt, kom til Noregs utan af Íslandi Þorvaldr tasaldi systurson Vígaglúms, hann var fríðr maðr sýnum, mikill ok sterkr ok avrr af penníngum. Þorvaldr kom af hafi utan at Þrándheimi, lagði hann inn til Níðaróss. Ólafr konúngr var þar fyrir í bænum, nýkominn sunnan or landi, ok þegar konúngr vissi at þar voro komnir kaupmenn heiðnir af Íslandi, þá boðaði hann Þorvaldi á sinn fund, ok bað hann láta skírast. Þorvaldr játaði at vinna þat til vinganar konúngs, at láta skírast ok taka við kristni. Konúngr segir at hann skyldi því alvöruligri fá hans vináttu, sem hann lèti auðveldligar at hans orðum ok boðskap. Var Þorvaldr þá skírðr ok hans skipverjar. Þorvaldr var með konúngi um vetrinn í góðri sæmð. Sigurðr hèt hirðmaðr

konúngs, en annarr Helgi, báðir voro þeir gildir menn fyrir sèr, ok kærir konúngi, en þó mjök úskapglíkir. Sigurðr var vinsæll við alþýðu, en Helgi údæll ok undirföruII. Þorvaldi tasalda var skipat at sitja ímilli þeirra um vetrinn. Helgi öfundaði Þorvald ok afþokkaði alt fyrir honum, en Sigurðr var vel til hans, ok flýði Helgi þaðan af bekkinum, ok vildi eigi sitja hjá þeim Þorvaldi; tók hann þá at rægja Þorvald sem mest við konúng, alt þar til er konúngr bað hann hætta; þarftu hvârki, segir konúngr, at rægja Þorvald við mik nè aðra menn, þá er með mèr ero, þvíat ek vil sjálfr reyna menn mína. Helgi leitaði þá, ef Sigurðr vildi ýfast við Þorvald, ok rægði hann fyrir honum. Sigurðr svarar: eigi mun ek fyrir þín orð óþokkast við Þorvald, þvíat hann er reyndr at góðum dreng, en þú ert illmenni. Nú með því at Helgi lètti enn eigi af [1]), heldr var hann kostgæfr á rógit, þá kom svâ um síðir, at konúngr gerðist fárr við Þorvald. Einn dag mælti Helgi til Þorvalds: spyr þú konúnginn eptir, hví hann er svâ fálátr. Þorvaldr svarar: ekki geri ek fyrir orð þín eðr eggjan, ok svâ vænti ek, at konúngr trúi eigi rógi þínu, þó at honum mislíki nökkurr lutr til mín. Helgi mælti: drjúgliga lætr landi enn. Nökkuru síðarr mælti Þorvaldr einn dag, er hann kom fyrir konúng;

[1]) at rægja Þorvald, *bæta við B, C.*

herra! dirfð er mèr í at frètta eptir úgleði yðvarri: ef sótt veldr, þá er vandsèn bótin; veldr annarr áhugi eðr nökkur tilfelli af manna völdum, þá má vera at bætist með yðvarri gipt ok hamíngju. Konúngr svarar: eigi er ek sjúkr. Þorvaldr mælti: þá er þegar nærr, er [1]) af er hinn harðazti; ero menn sakbitnir við yðr? Konúngr segir at svâ var, ok má hefna, en þú er skyldr til Þorvaldr at losa [2]) þetta vandkvæði, er þú hefir fyrstr eptir frètt. Þorvaldr mælti: allir yðrir menn ero skyldir at gera þat er þèr bjóðit, en vita verð ek, hvar til þetta heyrir, þó at ek sè vanfærr til at leysa. Konúngr mælti: Bárðr digri heitir maðr, upplenzkr at ætt, auðigr at penníngum, dóttur eina barna á hann, er heitir Þóra; Bárðr er hníginn á efra aldr, hann burr á Upplöndum, þar sem heitir í Úlfarsdölum [3]), hann á mikinn bæ ok vegligan; dóttir hans Þóra er með honum, en ekki verða menn þar við mannfjölda varir. Nú líkar mèr þat lítt, er Bárðr vill eigi við trú taka ok eigi koma á minn fund, ek hefir sent til hans tysvar 12 menn, ok hafa engir aptr komit. Þorvaldr mælti: er Bárðr þessi blótmaðr mikill? Konúngr svarar: ekki vita menn til þess, þvíat ekki er hof á bæ hans, ok þikkir mönnum Bárðr mjök kynligr, ok úvísir ero mönnum hættir hans ok framferði. Þorvaldr mælti:

[1]) ef, *B.* [2]) leysa, *B, C, S.* [3]) Úlfsdölum, *S, F.* Vilfarstolum, *B.*

gjarna [vildi ek fá gleði yðra [1]), herra! Nú mun ek fara at hitta Bárð, ef þèr vilit, hvat sem fleira gerist at. Konúngr sagðist þat vilja. Helgi varð við þetta glaðr, þvíat hann vænti at Þorvaldr mundi eigi aptrkoma heldr enn aðrir þeir, er þessa ferð höfðo farit. Síðan bjóst Þorvaldr, ok bað konúngr hann hafa menn svâ marga sem hann vildi. Þorvaldr svarar: Sigurð sessunaut minn hefir ek reynt at dyggum manni ok góðum, hann vil ek at fari með mèr, en ekki fleiri, þvíat gipt yður ok hamíngja, herra! má oss meira enn menn nökkurir. Konúngr svarar: víst skal ek minn góðvilja tilleggja með ykkr, en ek vil senda ykkr til bónda þess, er Björn heitir, hann býr skamt frá Bárði, hann þikkir mèr vænstr til at kunna yðr nökkut af at segja háttum Bárðar, ok vísa ykkr þángat leið. Síðan fóro þeir ok komo til Bjarnar, ok tók hann við þeim vel, þegar hann vissi at þeir voro sendimenn konúngs; spurðu þeir hann at hýbýlum ok háttum Bárðar. Björn kvað með undrum hans hag framflytjast, þar verðr ekki við menn vart, þá er þángat er komit; en þar fara allar sýslur fram vel ok skipuliga. Um nóttina, er þeir voro sofnaðir, þá dreymdi Þorvald, at honum þótti Ólafr konúngr koma at sèr ok mæla: Þú munt finna at höfði þèr dúk einn, er þú vaknar, ok þar er knýtt í brèf þat, er á ero

[1]) fá, *vantar í C*; vilda ek gleðja yðr, *B*, *S*.

ritut nöfn guðs, þat brèf skaltu láta koma á morgin fyrir brjóst þèr ok vefja dúkinum at utan ok um búk þèr svâ sem hann tekr, þá mun þèr duga at gánga djarfliga at Bárði. Þorvaldr vaknaði, ok fann dúkinn, ok bjó um sem honum var kent. Um morgininn leiddi Björn bóndi þá or garði ok vísaði þeim leið til bæjar Bárðar, var þar at fara yfir skóg nökkurn, en er þeir komo fram or skóginum, sá þeir bæ mikinn ok var skíðgarðr hár um, gengu þeir til bæjarins, grindar hlið var opit á garðinum ok svâ dyrr á húsum, þeir sá ekki manna úti; þeir gengu í anndyrit ok litaðust um, voro þar hús stór ok þili nýskafin, skáli var á aðra hönd, tjaldaðr allr ok búinn vel; Bárðr sat í öndvegi, hann var sköllóttr, í skarlats klæðum, ok hèlt á hjartskinns glófum, en kona mikil ok væn sat við borða, ekki sá þeir þar fleira manna. Bárðr mælti: hvat er komit í anndyrit? Þeir nefndu sik, sögðust vera konúngsmenn. Bárðr mælti: hvert erendi hafit þit híngat 2 einir saman? Þorvaldr svarar: lið okkart er svâ margt fyrir durum at þik mun mega færa nauðigan á konúngs fund, ef þú vill eigi fara lostigr. Bárðr snaraði þá glófana sundr milli handa sèr, ok kvað þetta við:

Hugða ek hitt at ek hefða
harðhendit [1]) þat stundum

[1]) harðendat, *C.*

at ek skálpgrana skotskum [1])
skylda ek einn [2]) of halda.

Þorvaldr mælti: reynum við nú þá ok tökumst til. Rèð Þorvaldr þá á Bárð ok sviptust þeir fast, þá var dagr mjök áliðinn, þeir áttust við um stund, ok varð Þorvaldr mjök aflvani, bað hann þá guð hljóðliga veita sèr nökkurn styrk móti honum, en Bárðr gekk þá at sem fastazt, ok er brjóstin þeirra mættust, þá var því líkt sem maðr gengi at honum ok kipti fótum undan Bárði, svâ at hann fèll at þreskeldinum [3]); voro þeir Þorvaldr þá báðir svâ móðir, at þeir máttu ekki at hafast. Þá mælti Bárðr: dugi þú nú Þóra! Hún svarar: ekki má ek duga þèr, faðir! þvíat við Sigurðr sviptumst, ok er hèr allvel á komit, at við erum jafnstyrk. Bárðr mælti: þá verðr nú til þess at taka, sem ek hefi eigi furr þurft, at biðja mèr liðs ímóti einum; gángi nú fram þeir er undirskálann byggja ok veiti mèr! Ljópu þar þá fram 40 manna, voro þeir Þorvaldr þá handteknir. Bárðr mælti: vel hafa skálans undirbúar veitt mèr, Þóra! ok svâ man enn, ef ek þarf nökkurs við, ok því þikkir mèr ráð, at þeir Sigurðr sè eigi í böndum; en þó vil ek eigi, at þú rennir optarr á mik, tröllit! þó at þú nefndist Þorvaldr, þvíat eigi skortir þik dirfð ok áræði; en þó má vera at þú skulir maðr heita ok munt vera heldr fjölkunnigr, þvíat ekki varð mèr aflskortr við þik fyrrum, en ek

[1]) skotskan, *C*, [2]) enn, *B*. [3]) þrepskildinum, *C*.

hygg at þú hafir ragnat at mèr svâ rammar vættir, at ek varð at falla fyrir, þvíat þat varð aldri furr, at ek fèlla fyrir einum. En hèr verðit þit at vera í nótt, þó at þit sè hræddir, hversu við ykkr mun búit, var þeim þá sett borð ok búit vel, skorti þar þá hvârki vist nè drykk góðan. En er þeir voro mettir, mælti Bárðr: ekki tel ek mat eptir ykkr, en vel djarfliga þætti [1]) mèr þit snæða, þó at þit værit með öllu úhræddir menn ok með vinum komnir. Var þeim síðan fylgt til sængr ok sváfu vel þá nótt. Um morgininn er þeir voro braut búnir, bað Bárðr menn sína fylgja þeim af garði, en er þeir voro út komnir, litaðist Þorvaldr um ok sá enga menn hjá þeim, hann mælti þá: þat vildi Bárðr nú at vèr færim burtu ok ættimst við ekki fleira við, en þat skal nú eigi vera, finna skulu við hann enn áðr. Gengu þeir þá inn. Bárðr mælti: þit erut allundarligir menn, gengut út en fórot eigi í braut, hví kunnit þit ekki at hræðast sem aðrir menn, eðr er ykkr allannt til at deyja? Þorvaldr svaraðr: því hurfum við aptr, at ek vildi eigi drepa niðr góðræði mínu eðr sæmð þinni; erum við víst eigi svâ hræddir, at við þorim eigi at flytja til fullnaðar konúngs erendi. Nú vil ek þess beiða, at þú farir sjálfviljandi með mèr á konúngs fund. Bárðr mælti: hví spurr þú eigi þess furst, hvern átrúnat ek hefi. Þvíat mèr er þar engi forvitni á, segir Þorvaldr. Bárðr mælti:

[1]) þiki, *B.*

þat vil ek þèr þó kunnigt gera, at ek trúi ekki á skurðgoð eðr fjandr, ek hefir farit land af landi ok mætt bæði risum ok blámönnum, ok fyrirkomu þeir mèr ekki, hefi ek því lengi trúat á mátt minn ok megin, en nú er mèr vorðinn valjugr [1]) hit fursta sinn at þeim átrúnaði, ok sèr ek þat, at ekki hefðir þú sigrat mik, ef þú nytir engis at nema sjálfs þíns; eða hvat var fyrir brjósti þèr, þá er bríngspelir okkrir komo saman? þar er mèr grunr á, at sá mun mikit mega, er sá afspríngr er af kominn. Þorvaldr svarar: rètt innir þú, at sá er máttugr, þvíat þat ero nöfn guðs þess, er vèr kristnir menn trúum á. Bárðr mælti: eigi kann ek þat at hugsa, at eigi muni hann öllu mega orka, ef hann kemr sjálfr til, er mèr vann nú at fullu, er nöfn hans voro, ok fyrir því mun ek fara með þèr á konúngs fund, at ek skil, at gott mun á þann guð at trúa, er svâ er máttugr, ef á nökkurn skal trúa. En því lèt ek gera undirskálann, ok setta ek þar mína menn, at, ef fjölmenni væri dregit at mèr, ætlaði ek til þeirra at taka ok njóta liðsmunar, en ef til mín kvæmi 2 eða 3 þá gaf ek mèr ekki um, þvíat ek þóttumst eigi uppnæmr fyrir þeim; hèr ero ok menn Ólafs konúngs 4 ok 20, er hann hefir sent til mín, ero þeir hèr allir vel haldnir, en eigi drepnir, sem konúngr mundi ætla. Síðan bjóst Bárðr ok fór með Þorvaldi við alla sína menn á konúngs fund; en er þeir

[1]) *þannig A, B, C, S.*

komo nærr bænum í Níðarósi, þá mælti Bárðr: far þú nú, Þorvaldr! til konúngs, ok seg honum, at vèr viljum hèr skírðir vera, sem nú ero vèr komnir, því at vèr viljum eigi at fjölmenni hlæi [1]) at, er vèr erum afklæddir svâ gamlir. Þorvaldr fór til konúngs, ok segir honum alt um sína ferð, ok hvar þá var komit. Ólafr konúngr varð við þetta glaðr, ok fór þegar með kennimenn til fundar við Bárð. Bárðr fagnaði vel konúngi ok mælti: máttkum guði stýrir þú [2]), herra konúngr! ok fyrir því at ek hefir þat reynt, þá vil ek nú á hann trúa ok láta skírast. Konúngr svarar: vel talar þú, Bárðr! eptir þinni skilníngu, en þat er satt atkvæði, at sá guð er máttugr, er mèr stýrir ok öllum lutum sýniligum ok úsýniligum, ok kallar til sín þó at með ýmissum hætti alla þá, er hans þjónosto ero makligir. Var þá Bárðr skírðr ok allir hans menn; þá mælti Bárðr: seg þú mèr, konúngr! hvârt ek er nú góðr. Konúngr kvað svâ vera. Bárðr mælti: ek hefi þózt mèr mjök einhlítr hèr til, ok þjónat ekki konúngum eðr öðrum höfðíngjum, en nú vil ek gerast þèr handgenginn, konúngr! ok þèr fylgja meðan ek lifi; þikkir mèr þat vænazt, at þá týna ek eigi þeim góðleik, er nú hefi ek fengit; en ek vil at þú sjáir ráð fyrir Þóru dóttur minni ok öllu hennar fè, ok giptir hana Þorvaldi þeim enum íslenzka, því at vèr eigum honum gott at launa. Þorvaldr svarar: eigi má svâ vera,

[1]) hlaðist, *B*, *C*. [2]) *þannig allir*.

því at ek er áðr kvângaðr á Íslandi. Konúngr mælti: þá skaltu gefa þessa konu Sigurði vin þínum, þar er vel á komit með þeim, er þau ero jafn styrk. Þorvaldr svarar: þat vil ek gjarna gera, en þat vil ek tilskilja við yðr, herra! at þèr segit Helga or yðvarri þjónostu, ok er þó gjörr ofllítill munr þeirra Sigurðar, en ek mun þó fyrir yðra skylld ekki gera á hluta Helga, ef þèr veitit mèr þetta. Konúngr segir at svâ skyldi vera. Síðan fèkk Sigurðr Þóru, ok settist í bú á Upplöndum, þat er átt hafði Bárðr digri. Bárðr tók sótt litlu síðarr enn hann var skírðr, ok andaðist í hvíta vâðum. En Þorvaldr fór til Íslands með mikilli sæmð af Ólafi konúngi ok þótti mikilmenni ok hinn vaskazti.

[*Frá Sveini ok Finni syni hans*].

201. Þat finnst ritat á bókum, at á dögum Hákonar jarls Sigurðarsonar var norðr í Þrándheimi sá maðr, er Sveinn er nefndr. Sveinn var auðigr ok ættstórr, maðr fálátr ok hóglyndr hversdagliga, en stirðr [1]) ok stórhugaðr við meiri menn, ef honum mislíkaði, hann blótaði heiðin guð at sið frænda sinna ok forellra, sem í þann tíma gerði alt fólk í Noregi; hafði Sveinn hof mikit á bæ sínum ok búit virðuliga, voro þar í mörg skurðgoð, en þó tignaði Sveinn Þór einna mest, han var ok í vingan við Hákon jarl sem aðrir blótmenn. Sveinn var kvângaðr ok átti 2 sono, hèt annarr Sveinn en annarr Finnr.

[1]) stríðr, S.

Sveinn var líkr föður sínum um skaplyndi, en Finnr var heldr údæll, einrænn ok andmálugr laungum, hlutsamr ok hávaðamikill, en stundum þavgull ok þrjótlyndr ok at öllu skapferli hinn kynligazti, því sýndist sumum mönnum hann vitlítill, ok ekki var hann mjök trúaðr at sið þeirra, þvíat þá sjaldan, er hann kom í hof föður síns, lofaði hann ekki guðin, heldr hæddi hann þau í hverju orði, kallaði þau rángeyg ok rokindusta [1]), sagði þau eigi mega avðrum hjálpa, er þau höfðu eigi afl til at hreinsa saur af sèr; optliga greip hann til þeirra ok svipti þeim af stöllunum, en faðir hans sagði honum þat mundo fyrir þrifum standa, er hann var svâ illa við þau, svâ mörg ok mikil þrekvirki sem Þórr hafði unnit, farit ígegnum björg ok brotit hamra, en Óðinn ráðit sigri manna. Finnr svarar: þat er harðla lítill máttr, at brjóta steina eðr gnípur ok starfa í slíku, eðr gefa svâ sigr sem Oðinn gaf með vjælum, en engu valdi; en mèr þikkir hinn máttugr, er sett hefir í furstunni björgin, heiminn allan ok sjóinn, eðr hvat kunnit þèr af honum at segja? en þar varð fárædt um af favður hans. Einn vetr at jólum mælti Finnr, er menn voro til drykkju komnir: víða munu heitstrengíngar framfara á þessu kveldi, þar sem eigi man betra at vera enn hèr; nú strengi ek þess heit, at ek skal þjóna þeim konúngi sem æðstr er, ok at öllu umfram aðra.

[1]) rokin brusta, *B.* rjúka dust af, *S, F.*

Þessa heitstrengíng virðu menn misjafnt fur Finni; sögðu sumir, at Hákon jarl var æðstr höfðíngi á norðrlöndum, ok Finnr mundi vilja honum þjóna. Finnr sagði, at hann vissi [hvârt var konúngr eðr jarl [1]). Tóko þá svâ sumir þeir er verr virðu fyrir honum, at hann sýndi fávizku sína bæði í þessum svörum ok svâ í heitstrengínginni. Eptir jólin bjóst Finnr til brautferðar. Faðir hans spurði, hvert hann ætlaði. Finnr svarar: þat veit ek aldri, hvert ek skal fara, en leita verð ek konúngs þess, er ek ætla at þjóna, ok þó svâ at eins at efna heitstrengíng mína í alla staði; spurði hann þá, ef Sveinn bróðir hans vildi fara með honum. Hann kvaðst eigi þat vilja. Þat er ok vel, segir Finnr, þú munt ætla at varðveita fè vârt með favður okkrum, þartil er ek kem aptr. Faðir hans mælti: vilt þú at ek fáe þèr menn til fylgðar ok fè nökkut? Finnr svarar: þat fer fjarri, þvíat eigi mun ek sjá vel fyrir fleirum mönnum, ef ek hefi eigi vit til at sjá fyrir sjálfum mèr, sem margir mæla, ok ek dyl eigi at sè. Eptir þetta fór Finnr í brottu, ok suðr hit efra um Upplönd, kom fram austr í Vík, fèkk sèr þar far með byrðíngsmönnum suðr til Danmerkr. En þegar er hann kom fótum undir sik í Danmerk, þá gekk hann einnsaman frá skipi til skógar, ok bað ekki sína förunauta vel lifa, ok engan mann bað hann sèr leið vísa til bygða,

[1]) hvert hann nefndi Jarl eðr konúng, *B*, *C*.

viltist hann lengi á mörkum úti, ok um síðir kom hann or skógi fram, þar sem hann fann fyrir sèr einn hjarðsvein. En er þeir fundust, settust þeir niðr ok töluðust við; spurði Finnr, ef skamt væri til bygða. Sveinninn kvað svâ vera. Finnr spurði, ef sveinninn vildi kaupa klæðum við hann. Hann kvaðst þat gjarna vilja, ok svâ gerðu þeir. Finnr mælti: hvat er hèr bundit í klæðunum? Hann svarar: þat köllum vèr kross kristnir menn; þikkist þú vera kristinn, segir Finnr, eðr hvernig er þat at vera kristinn? Sveinninn sagði honum þar af slíkt er hann kunni; en Finnr sagði honum ímót frá Þór ok Óðni ok frá þeirra hervirkjum. Sveinninn mælti: brátt ætla ek at þú fáer vafit fur mèr, en þat er vænna, ef þú finnr biskup vârn, er hèðan er skamt á braut, at þú megir eigi heimsku einni við hann koma eðr hègóma, þvíat hann mun þèr merkiligarr segja um trúna enn ek. Finnr mælti: hvat er þat biskupit yðvart? hvârt er þat, maðr eðr annat kvikendi? Sveinninn svarar: eigi þverr enn heimskan fyrir þèr, ok ætla ek at þú sèrr fífl eðr afglapi, ella ertu ekki jafnheimskr sem þú lætr, en biskup köllum vèr stjórnarmann ok foríngja heilagrar kristni. Finnr kvaðst at vísu vilja hann hitta. Þvínæst fann hann biskup, ok kvaddi hann. Biskup spurði, hvat manna hann væri. Hann sagðist vera Norðmaðr. Biskup mælti: á hvern trúir þú? Finnr svarar: á Þór ok Óðin, sem aðrir

Norðmenn. Biskup mælti: þat er ill trúa, ok skal ek láta kenna þèr aðra trú betri. Finnr svarar: þá veit ek þat er ek heyri, hvârt mèr þikkir sú trúan betri; eðr hví skaltu láta kenna mèr þá trú, heldr enn sýna mèr hana sjálfr? Biskup seldi hann í hendr presti einum, ok bað hann kenna honum trúna, en Finnr vafði alt fur presti, svâ at hann gat ekki at gört, ok sagði prestr biskupi, at maðr þessi var svâ torveldr ok heimskr, at ekki mátti við hann eiga. Biskup mælti: svâ lízt [mèr] á mann þenna, at hann mun vera ekki svâ heimskr sem kynligr. Tók biskup þá at tjá ok telja fyrir honum stórmerki almáttigs guðs, ok um síðir mælti Finnr: þetta er alt annann veg enn ek heyrði furr, at engir guðar væri jafnmáttugir sem Þórr ok Óðinn, en nú skilst mèr þat helzt af orðum þínum um Krist þann, er þú boðar, at mjök svâ mátti hverr maðr gera viðr hann sem vildi, meðan hann var hèr í heimi, en eptir dauðann gerðist hann svâ ágætr, at hann herjaði í helvíti, ok batt Þór höfðíngja heiðinna guða, ok síðan stóð ekki vætta við honum, því sýnist mèr at hann sè sá konúngr, er ek hefi heitstrengt at þjóna, hærri ok háleitari, meiri ok máttkari enn allir aðrir konúngar, ok fyrir því skal ek hèðan af á hann trúa ok honum þjóna eptir því sem þèr kennit mèr. Biskup mælti: þetta er alt rètt eptir því sem þú hefir fengit skilníng af guði, ok kemr nú þat fram sem ek sagði, at þú ert miklu

vitrari enn þú lætr. Var Finnr þá skírðr, ok hèlt vel trú sína, ok dvaldist þar um hríð í Danmörk.

*Samtal konúngs ok Sveinanna.*

202. Nú er frá því at segja, er Ólafr konúngr kristnaði fólk í Noregi. En þó at alþýða væri skírð af kennimönnum, þeim er Ólafr konúngr sendi um allan Þrándheim eptir dráp Yrjarskeggja, þá voro þar sem annarstaðar í landinu þeir, er tregir voro til at taka rètta trú. Einn af þeim var Sveinn, er furr var getit, ok Sveinn son hans með sínum heimamönnum. En er Ólafr konúngr frètti, at þeir feðgar vildu eigi trú taka, þá sendi hann þeim orð ok boðaði á sinn fund, ok er þeim komo konúngs boð, mælti hinn ýngri Sveinn til föður síns, at þeir mundi taka sið þann, er hann boðaði; hinn ellri Sveinn sagðist ekki fúss at breyta þeim átrúnaði, er hans frændr ok forellrar höfðo haft ok haldit; en þó rèð hinn ýngri Sveinn, at þeir fóro ok fundu konúng; tók hann við þeim vel, ok boðaði þeim kristni. Sveinn hinn ellri svaraði: ekki mun ek láta sið minn. Konúngr svarar: þá munu hèr verða skjót umskipti, at ek mun láta drepa þik. Þat mátt þú gera, ef þú vill, segir Sveinn, ek em maðr gamall, þikkir mèr eigi varða miklu, hvârt ek dey úti eðr inni, stundo furr eða síðarr. Þá mælti Sveinn hinn ýngri til konúngs: herra! vægit föður mínum ok drepit hann

eigi, þvíat hann er ættstór ok frændmargr, ok munut þèr hafa margt stórmenni á móti yðr, ef hann er af lífi tekinn. Konúngr fann at hinn ýngri Sveinn var alt linari í lyndi, ok mælti til hans: hvat berr mest til, er faðir þinn er svâ tregr til at taka trúna, þikkia honum þúngar fastur eðr meinlæti [1]). Sveinn svarar: fjarri ferr þat, þvíat hann er hraustr drengr ok gildr karlmaðr í alla staði, þó at hann sè aldraðr, en hof Þórs þikkir honum mest at láta, þvíat þat er hús mikit ok frídt, ok gert fagrliga ok búit með miklum kostnaði, ætla ek honum þat nærr gánga, ef þat skal brjóta eðr brenna. Konúngr svaraði: þat er þó líkazt, at þat annathvârt hljóti fram at fara. Sveinn mælti: þikkir yðr ekki ráð, at hofit standi með sínum búnaði, ok vinnit þèr þat til, at við feðgar takim þá trú sem þú boðar, at eigi sè spilt svâ ágætu smíði, en við munum þat efna sem við heitum, at eiga ekki um við Þór, ok bjargist guðin þá á sínar hendr. Konúngr svarar: eigi veit ek hvârt þat hlýðir, en þó með því at ek finn góðvilja með þèr, ok allir menn kalla ykkr drengi góða, þá vil ek því játa, at hofit standi með þessu skilorði, sem þú sagðir fram, heldr enn þit neitit kristni, ok bíðit svâ bráðan bana. Gekk Sveinn þá at finna föður sinn, ok segir honum sem komit var þessu máli. Hann svarar: hví mundi konúngrinn þetta vilja saman hafa? Sveinn svarar: af þessu mátt þú

[1]) *þannig*, *A*, *C*, *S*.

marka, faðir! hversu mikit konúngi þikkir á liggja, at við takim þann sið, er okkr hæfir at hafa, ok í annann stað, hversu vel hann trúir okkr til drengskapar. Sveinn hinn ellri svarar: því mun ek heita, ef konúngr vill, at blóta eigi Þór, ok engi afskipti veita heiðnum guðum, ef hann lætr úmeidt standa hofit. Tóko þeir þá skírn, ok gerðust vinir Ólafs konúngs, þvíat þeir hèldo vel öll sín heit, ok lètu skíra alt sitt heimafólk.

203. En nú er þar til at taka at Finnr Sveinsson frètti til Danmerkr, at siðaskipti var vorðit í Noregi, fór hann til Noregs ok kom norðr til Þrándheims þann sama vetr, er Ólafr konúngr hafði komit austan or Víkinni um sumarit, ok sat í Níðarósi. En er Finnr kom til bæjarins, gekk hann þegar til þess herbergis, er konúngr drakk inni. Finnr var búinn fátækliga, bað hann durvörðu gefa ser inngaungu-leyfi at tala við konúng. Þeir sögðu þat ekki hátt, at úkunnir menn gjörði konúngi únáðir, þá er hann sæti yfir borðum; látum við þik ekki inngánga ok engan annann stafkarl, þann er svâ er herfiligr ok heimsligr [1]) sem þú ert. Ek ætla þat ok mála sannazt, segir Finnr, at ek þurfva ykkr engis orlofs at biðja, vonda præla! tók hann þá sinni hendi hvârn durvörðinn ok slöngði frá durunum, en hann gekk inn, ok þegar hann kom í stofuna, þyrptust menn at honum, ok þóttust eigi vita, hvat úræst var, vildu þeir

[1]) *þannig*, *A*, *C*, *S*.

keyra hann út' aptr, en þat varð ekki auðveldt, stóð hann við nökkuru fastara enn þeir hugðu, fór þá í harðleiki, sumir reyttu ok rifu af honum þá vânda leppa, sem hann hafði, en sumir börðu hann hnefum; hann gerði ok ímót slíkt er hann mátti. Konúngr varð varr við ok spurði hverju sætti. Þeir segja at sjá hinn heimski hrotti [1]) vildi hann finna. Þá er ráð, segir konúngr, at gera eigi illa við hann. Var hann þá lauss látinn. Konúngr spur hverr hann væri. Finnr sagði til slíkt er honum líkaði. Konúngr mælti: hvert er erendi þitt híngat til mín? viltu láta skírast? Finnr svarar: eigi ætla ek, mik vera verr kristinn, enn þik. Konúngr kvaðst eigi vita hvat hann sagði. Þá mælti Finnr: hvat ætlar þú, konúngr! hvat manna ek sè? Konúngr svarar: þat veit ek eigi, en hitt sè ek at þú ert maðr gildligr ok ero menn stærri enn þú, en færri vænni, ok mikit er þitt yfirbragð. Finnr mælti: þá skipti hversu gott væri mitt yfirbragð, ef mikit er. Konúngr svarar: ekki ert þú illmannligr. Finnr mælti: gott er slíkt at heyra af svâ ágætum manni. Konúngr mælti enn: svâ lízt mèr á þik, at þú munt vera drengr góðr, einrænn ok undarligr ok nökkut bráðr í skaplyndi. Finnr svarar: alt er þetta satt, er þú segir, ok get þú nú til, konúngr! hverrar ættar ek er. Konúngr svarar: þat

[1]) höldr, *F.*

þætti mèr líkazt, at þú værir son Sveins vinar míns. Þat er satt, segir Finnr, at ek er Sveins son, en þú munt vita, hvârt hann er þinn vinr. Hann er víst minn vinr, segir konúngr, ok vel kristinn, en þó greindi okkr á einn lut í furstu; hof eitt eignat Þór stendr hjá bæ hans, ok hygg ek hann þó þar til veita sèr engi afskipti. Við þetta varð Finnr óðr ok mælti: heyr hèr á endimi, hvat sèr þú, góðr konúngr, ef menn þínir ok vinir fara með launblót, ok muntu raunar vera einn villumaðr. Konúngr segir hann vera heldr ákafan. Stavkk Finnr út, ok fór til fundar við föður sinn ok bróður. En um nóttina, áðr Finnr kom, dreymdi Svein bróður hans Þórr heldr úfrýnligr ok daprligr; hann mælti: hèr kemr nú at því með okkr, sem mælt er, at fyrnist vinskapr sem fundir, ok þó at þat sè svâ sem er, þá vildi ek biðja þik eins lutar, at þú flyttir mik braut af húsi mínu til skógar, þvíat Finnr bróðir þinn mun heim koma, ok hygg ek ekki gott til hans kvâmu. Sveinn svarar: því hefir ek heitit konúngi, at skipta mèr engu af við þik, ok þat mun ek halda; þikkir mèr þú ok guðleysi, ef þú hefir eigi mátt til at forða þèr við háska, eðr flytja þik sjálfr hvert er þú vill. Hvarf Þórr í braut hryggðarfullr ok harms, en Sveinn vaknaði. Finnr kom þar um daginn eptir, ok tóko þeir feðgar allvel við honum, en er hann hafði þar verit eina nótt, stóð hann upp snemma ok fèkk sèr einn belg; síðan tók hann í hönd sèr

rótakylfu mikla, ok gekk til hofsins; þar var þá alt fornligt um gætti, hurðajárn ryðug ok alt heldr úláguligt; hann gekk inn ok skýfði [1]) goðin af stallonum, en reytti ok ruplaði af þeim alt þat er fèmætt var, ok bar í belginn; Finnr sló Þór 5 högg með kylfunni sem mest mátti hann, áðr hann fèll, síðan lagði hann band um háls honum, ok dró hann eptir sèr til strandar, ok lèt hann koma á bát, fór hann svâ til fundar við Ólaf konúng, at hann hafði Þór laungum á kafi útbyrðis, stundum barði hann hann. En er konúngr sá þetta, sagði hann Finn eigi fara vegliga með Þór. Finnr svarar: þat sýnist í því, at mèr hefir lengi illa líkat við hann, ok skal hann enn hafa verri ok verðugari viðfarar; klauf hann þá Þór í skíður einar, lagði í eld ok brendi at avsku, síðan fèkk hann sèr lavg nökkurn, kastaði þar á öskunni, ok gerði af graut, þann graut gaf hann [blauðum hundum [2]) ok mælti: þat er makligt, at bikkjur eti Þór; svâ sem hann sjálfr sono sína. Finnr gerðist maðr Ólafs konúngs, ok fylgði honum. En þar er konúngr boðaði mönnum rètta trú, þá var Finnr svâ óðr ok ákafr, at hèlt við vâða, þeim er eigi gerðu skjótt hans vilja. Finnr var siðgóðr ok trúrækinn ok fylgði konúngi jafnan til tíða. Einn morgin kom Finnr hvârki til óttusaungs nè messu, spurði konúngr þá hverju gegndi,

[1]) steypti, *S.* [2]) grey-hundum, *S, F.*

er hann kom eigi til tíða, sem hann var vanr; honum var sagt at hann lá í hvílu sinni. Konúngr gekk þá til hans, ok spurði ef hann væri sjúkr. Finnr segir lítit bragð at því. Konúngi sýndist sótt hans mikil, ok lèt búa hann til framfarar, ok fylgði honum elskuliga sjálfr meðan hann lá [1]). Finnr andaðist or sótt þeirri, ok mæltist áðr vel fyrir; þótti Ólafi konúngi mikill skaði at honum.

*Dauði Eyvindar kinnrifu.*

204. Nú er þar til at taka, sem fyrr var fráhorfit, at þeir bræðr hinir háleysku, Sigurðr ok Haukr, höfðo komizt or böndum ok varðhaldi Ólafs konúngs, sátu þeir um vetrinn vel haldnir með Háreki í Þjóttu. Þat var um vârit einn veðrdag góðan, at Hárekr var heima ok fátt manna á bænum, þótti honum daufligt, þeir bræðr fylgðu honum jafnan. Þá spurði Sigurðr, ef bóndi vildi at þeir færi nökkur at skemta sèr. Þat líkaði Háreki vel. Gengu síðan til strandar, ok settu fram sexæríng, tók Sigurðr or nausti segl ok reiða, er fylgði skipinu, sem þeir voro opt vanir at hafa, þó at þeir færi skammt at skemta sèr; Hárekr gekk út á skipit ok lagði stýri í lag, þeir Sigurðr bræðr höfðo alvæpni sitt, sem þeir voro vanir at gánga heima með bónda, báðir voro þeir manna styrkaztir; en áðr þeir gengi út á skipit, þá kastaðu þeir út smjörlaupum nökkurum ok brauðkass [2]) ok báru

[1]) lífði, C. [2]) brauðkassi, C.

ímilli sín mikla mungátsbyttu á skipit. Hárekr bjóst um aptr á skipinu, ok geymdi ekki um, hvat þeir bræðr höfðust at. Síðan rèru þeir frá landi, vindr var á lítill norðan ok veðrit blídt, en er þeir voro skamt komnir frá eyjunni, þá færðu þeir segl upp, en Hárekr stýrði, bar þá brátt frá eyjunni. Því næst gengu þeir bræðr aptr þar til sem Hárekr sat, ok spurðu hvert hann ætlaði at þeir skyldi fara. Hann segir at þeir mundi sigla at skemta sèr til hinnar næstu eyjar. Sigurðr mælti: svâ er nú komit, bóndi! at þú skalt hèr nú kjósa um kosti nökkura; sá er hinn fursti, at þú skalt okkr bræðr láta ráða fyrir för vârri ok stefnu, skal þá gera vel við þik, sem þú ert makligr; hinn er annarr kostr, at láta okkr binda þik; sá er hinn þriði, at við munu drepa þik. Hárekr sá þá, hvar komit var hans máli, hann var eigi betr enn andvígr öðrum þeirra bræðra, ef þeir voro jafnbúnir, kaus hann fyrir [því] þann af, sem honum þótti vildaztr at láta þá ráða fyrir ferðinni, batt hann þat svardögum, ok seldi trú sína til þess. Gekk þá Sigurðr til stjórnar ok stefndi suðr með landi. Gættu þeir bræðr þess at þeir skyldo hvergi menn finna, en byri gaf sem bezt ok blíðazt, lèttu þeir ferð sinni eigi furr enn þeir komo suðr til Þrándheims ok inn til Níðaróss á fund Ólafs konúngs. Konúngr lèt Hárek kalla til tals við sik, ok bauð honum at láta skírast. Hárekr mælti ímóti. Þá talaðu þeir konúngr ok Hárekr

með sèr marga daga, stundum fyrir fjölmenni, stundum í einmælum, ok kom þar ekki ásamt með þeim, ok at lyktum segir konúngr Háreki: nú skaltu fara heim, ok vil ek eigi granda þèr; furst heldr þat til, at frændsemi er mikil ímilli okkar, þat annat, at þú munt kalla, at ek hafi þik með svikum fángit: vit þat til sanns, at ek ætla í sumar at fara norðr þángat at vitja yðvar Háleygjanna, skulut þèr þá prófa, hvârt ek kann refsa þeim, er neita kristninni. Hárekr lèt vel yfir því, at hann kvæmist sem furst þaðan í braut. Ólafr konúngr fèkk Háreki skútu góða, rèro á borð 10 menn eðr 12, lèt konúngr búa skip þat sem bezt at öllum faungum, þarmeð fèkk konúngr Háreki til fylgðar 30 manna vaska drengi ok vel búna; fór Hárekr þegar brotto, er hann var búinn, en Haukr ok Sigurðr voro eptir með konúngi, ok lètu báðir skírast. Hárekr fór leið sína, þartil er hann kom heim í Þjóttu; hann sendi þegar orð Eyvindi kinnrifu vin sínum, ok bað svâ segja, at Hárekr or Þjóttu hafði fundit Ólaf konúng, ok hafði eigi kúgast látit at taka við kristni; hitt annat bað hann segja Eyvindi, at Ólafr konúngr ætlar um sumarit at fara með her á hendr þeim; sagði Hárekr at þeir mundi þar verða varhuga við at gjalda, bað Eyvind koma sem furst á sinn fund. En er þessi erendi voro borin Eyvindi, þá sá hann at ærin nauðsyn mundi til vera, at gera þat ráð fur, at þeir verði eigi upptækir fyrir Ólafi konúngi. Fór Eyvindr

þegar sem skyndiligazt með hleypiskútu, ok fá menn á; en er hann kom til Þjóttu, fagnaði Hárekr honum vel, gengu þeir þegar á eintal 2 samt annann veg frá bænum; en er þeir höfðo litla hríð talat, þá komo þar konúngs menn, þeir er Háreki höfðo þángat fylgt, gripu þeir Eyvind höndum ok leiddu hann til skips með sèr, fóro þeir brott með Eyvind ok lèttu þeir sinni ferð eigi furr enn þeir komo suðr til Þrándheims, ok fundu Ólaf í Níðarósi; var Eyvindi þá fylgt á konúngs fund. Bauð konúngr honum sem öðrum mönnum at taka skírn. Eyvindr kvað þar nei við. Konúngr bað hann blíðum orðum at taka rètta trú, ok sagði honum marga skynsemi, ok svâ biskup, af dýrð ok jartegnum almáttigs guðs, ok skipaðist Eyvindr ekki við þat. Þá bauð konúngr honum gjafar virðuligar ok veizlur stórar, ok hèt honum þar með fullkominni sinni vináttu, ef hann vildi láta af heiðni ok taka skírn; en Eyvindr neitti því öllu þráliga; þá hèt konúngr honum meiðslum eðr dauða. Ekki skipaðist Eyvindr við þat. Síðan lèt konúngr bera inn munlaug fulla af glóðum ok setja á kvið Eyvindi, ok brátt brast kviðrinn sundr. Þá mælti Eyvindr: taki af mèr munlaugina, ek vil mæla nökkur orð áðr ek dey; ok var þat gert. Konúngr mælti: viltu nú, Eyvindr! trúa á Krist? nei, segir hann, ek má enga skírn fá, þó at ek vildi, þvíat faðir minn ok móðir máttu ekki barn eiga, áðr þau fóro til fjölkunnigra Finna,

ok gáfu þeim mikit fè til at gefa þeim getnat með sinni kunnustu; þeir sögðust þat ekki mega gera, en þat má vera, segja þeir [1]), ef þit heitit því með svardaga, at sá maðr skal alt til dauðadags þjóna Þór ok Óðni, [ef vèr megum öðlast þat barn er líf ok aldr hafi til. Þau gerðu þetta eptir því sem þeir lögðu ráð til [2]); síðan gátu þau mik ok gáfu Óðni, fæddumst ek upp, ok þegar ek mátta mèr nökkut, endrnýjaða ek þeirra heit, hefir ek síðan með allri elsku þjónat Óðni ok vorðit ríkr höfðíngi; nú em ek svâ margfaldliga gefinn Óðni, at ek má því með engu móti bregða, ok eigi vil ek. Eptir þat dó Eyvindr, hafði hann verit hinn fjölkunnigazti maðr.

### *Ólafr konúngr ok Sigmundr reyna íþróttir sínar.*

205. Þá er Sigmundr Brestisson hafði kristnat allar Færeyjar eptir boði Ólafs konúngs Tryggvasonar, ætlaði hann um sumarit at flytja austr með sèr Þránd or Götu, ok varð Sigmundr tysvar aptrreka til Færeyja, ok braut bæði skipin, sat hann þá í eyjunum vetr annann, ok lèt bæta skipit, þat er minnr var brotit, bjó hann skipit þegar um vârit, er honum þótti fært landa ímilli, hèlt hann í haf þegar hann var búinn, lèt hann Þránd þá eptir með því skilorði sem áðr er greint; greiddist þá vel ferð Sigmundar, fann

[1]) at ver megim þiggja at þat barn er, þit eigit næst líkamliga lífi, *bætir við S.* [2]) *vantar í C, S.*

hann Ólaf konúng norðr í Níðarósi, ok færði honum fè þat, er hann greiddi fur skatta af Færeyjum, þá er týnzt höfðo hit furra sumar, ok svâ þá skatta, er nú attu at lúkast. Konúngr tók honum vel, ok dvaldist Sigmundr með konúngi lengi um vârit. Sigmundr segir konúngi glöggliga alt sem farit hafði með þeim Þrándi ok öðrum eyjarskeggjum. Konúngr svarar: þat er illa, er Þrándr kom eigi á minn fund, ok spillir þat mjök bygð yðvarri út þar í eyjunum, er hann verðr eigi þaðan braut flæmdr, þvíat þat er ætlan mín, at þar siti hinn versti maðr einnhverr á norðrlöndum, er hann er.

206. Ólafr konúngr var mestr íþrótta maðr í Noregi þeirra manna, er menn hafa frásagt, um alla luti, hverjum manni var hann styrkari ok fimari, ok ero þar margar frásagnir ritaðar um þat: ein sú, er hann gekk á árum útbyrðis, er menn hans rèru á lángskipi, ok lèk at þrimr handsöxum senn, svâ at jafnan var eitt á lopti, ok hendi æ meðalkaflann, hann vâ jafnt báðum höndum, ok skaut tveim spjótum senn, manna fimaztr við handboga ok alzháttar bogaskot, ok syndr hverjum manni betr, brattgengri var hann í björg enn hverr maðr annarr, sem síðarr mun sagt verða. Ólafr konúngr var allra manna glaðaztr ok leikinn mjök, blíðr ok lítillátr, örr ok stórgjöfull, ákafamaðr mikill um marga luti, skartsamr ok sundrgerðamadr mikill, fur öllum mönnum um frækleik í orrostom, allra manna

grimmaztr, þá er hann var reiðr, ok kvaldi mjök úvini sína, suma brendi hann í eldi, suma lèt hann ólma hunda rífa í sundr, suma lemja eðr kasta fyrir há björg; voro af slíkum lutum vinir hans ástúðigir við hann, en úvinir hans hræddust hann, varð því mikil framkvæmð hans um kristniboð ok aðra luti, bæði innanlands ok í avðrum löndum, at sumir gerðu hans vilja með blíðu ok vinattu, en sumir fyrir hræðslu sakir.

207. Þat var einn dag um vârit at Ólafr konúngr mælti til Sigmundar Brestissonar: nú skulum við skemta okkr í dag, ok reyna fimleika okkra. Þar er ek mjök vanfærr til, herra! segir Sigmundr, en þó skal þetta á yðro valdi, sem annat, þat er ek má ráða. Síðan reyndu þeir sund ok skot ok aðra fimleika, ok er þat sögn manna, at Sigmundr hafi næst gengit Ólafi konúngi um margar íþróttir, þeirra manna er þá voro í Noregi, ok skorti hann þó alla luti við konúng, þá er þeir reyndu. Þat er sagt eitt sinn, þá er Ólafr konúngr sat við drykk, ok veitti hirð sinni, ok hafði marga menn í boði síno, þá var Sigmundr með konúngi í miklum kærleikum, ok sátu 2 menn í milli konúng ok Sigmundar: Sigmundr lagði hendr sínar fram á borðit, konúngr leit til ok sá at Sigmundr hafði digran gullhríng á hendi; konúngr mælti: lát sjá hrínginn. Sigmundr tók hrínginn af hendi sèr ok fèkk konúngi. Konúngr mælti: vilt þú gefa mèr hríng þenna? Sigmundr svar-

ar: þat hefi ek ætlat at lóga eigi hríng þessum. Ek skal gefa þèr annann hríng ímót, segir konúngr, ok skal sá hvârki minni nè úfríðari. Eigi mun ek þessum lóga, segir Sigmundr, því hèt ek Hákoni jarli, þá er hann gaf mèr hrínginn með mikilli alvöru [1]), at ek munda eigi lóga, ok þat skal ek efna, þvíat góðr þótti mèr þá nautrinn er [2]) jarl var, ok vel gerði hann til mín marga luti. Konúngr mælti þá: lát þèr hann þikkja svâ góðan sem þú vill, bæði hrínginn ok þann er þèr gaf, en giptufátt verðr þèr nú, þvíat þessi hríngr verðr þinn bani, þetta veit ek jafngjörla, ok þat hversu þú hefir hann fengit, eðr hvaðan hann er atkominn, gengr mèr meirr þat til, at ek vildi firra vini mína vandræðum, enn mik [lysti í [3]) hríng þenna. Var konúngr þá rauðr sem dreyri í andliti, en tal þetta fèll niðr ok aldri síðan varð konúngr jafnblíðr við Sigmund sem áðr; dvaldist hann þó um hríð með konúngi, ok fór eptir þat snemma sumars út til Færeyja, skildu þeir Ólafr konúngr þá með vináttu, ok sá Sigmundr hann aldri síðan, kom Sigmundr út til Færeyja, ok settist í bú sitt í Skúfey. En þat fór síðan, sem Ólafr konúngr sagði, at sá maðr, er hèt Þorgrímr illi, með sonum sínum 2, myrði Sigmund Brestisson til hríngsins Hákonarnauts, þá er Sigmundr var

---

1) *þannig B, C.* avluð, *A.* 2) Hákon, *bæta við B, C.*
3) fysir eigi at eiga, *B,* C.

áðr sundmóðr í Suðrey, þar er Sandvík heitir, svâ sem segir í Færeyínga sögu.

*Grímr, stallari Ólafs konúngs, veginn.*

208. Á einu sumri kom sá maðr til Íslands, er Grímr hèt, hann var íslenzkr at ætt, ok hafði lengi utan verit, hann var hirðmaðr Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok hafði verit stafnbúi hans um hríð, var Grímr mikill maðr ok styrkr. Grímr var á Íslandi um vetrinn, ok reið til þíngs um sumarit eptir. Þá bjó Þorkell trefill Rauðabjarnarson vestr í Borgarfirði [1]) í Svignaskarði; Þorkell var á alþíngi; en þat varð með atburð í lögbergsgöngu at Þorkell trefill fèll ok var troðinn undir fótum, er mannþröng var mikil; Þorkell komst á fætr, ok varð við þetta mjök reiðr, kendi hann Grími, er áðr var nefndr, at hann hefði mest fóttroðit hann. Sá maðr var með Þorkeli á þínginu, er Sigurðr hèt, hann var styrkr ok atgervimaðr mikill; Þorkell bað Sigurð hefna Grími sinnar svívirðíngar, ok síð um kveldit, er Grímr var búin til hvílu ok afklæddr, ljóp Sigurðr inn í búðina at honum úvörum, ok sótti hann með vopnum. Grímr varð við hraustr, en fèkk litla vörn veitta, er hann var vopnlauss fyrir, ok fèll hann þar; fyrir þetta víg gengu frændr Gríms at eptirmáli, ok gerðu Sigurð sekjan skógarmann á því sama þíngi, en Þorkell trefill kom honum utan um sumarit, hann kom til Noregs um haustit, ok

[1]) *þannig, B, C, F.* Breiðafirði, *A, S.*

gaf sèr nafn annat enn hann átti. En er Ólafr konúngr frètti af kaupmönnum þeim, er utan komu, at Grímr, er verit hafði stafnbúi hans, var veginn, ok þat með, at vegandinn mundi þar kominn, þá varð hann mjök reiðr, ok fór þegar með sveit manna til kaupskipsins at leita eptir manninum, ok kendi brátt, hverr valdr mundi verks þessa, þó at hann dyldist; var þá Sigurðr gripinn ok settr í fjötra. Því næst stefndi konúngr þíng fjölmennt, var Sigurðr þá leiddr fram á þíngit, konúngr bað hann afklæða, ok sagði at hann skyldi beita hundum til bana. Þá gekk fyrir konúng einn hirðmaðr hans ok mælti: herra! heldr sýnist oss þessum manni harðr dauði stafaðr [1]), nú er þat tillaga ok bæn þinna manna, at þèr látit heldr svâ vaskligan mann koma bótum fyrir sik, ok takit hann, ef yðr sýnist, í yðra þjónosto í stað hins vegna, þvíat eigi er þessi úhermannligri enn Grímr var. Konúngr svarar: þenna skal hann hafa dauða, sem honum er nú ætlaðr, til þess at aðrir hræðist at drepa hirðmenn mína saklausa. En er hirðmaðrinn sá, at konúngr vildi ekki gera fyrir hans orð hèr um, þá fór hann á fund Sigurðar biskups, ok segir honum til þessa. Biskup sendi hann þegar aptr til konúngs, ok bað hann gefa upp manninn. Konúngr svarar: ekki kann biskup gjörr at sjá mann á velli enn ek ok afklæði manninn skjótt. Var þá svâ gert. Síðan var

[1]) skipaðr, F.

gjörr mannhríngr um Sigurðr, ok slegit hundunum lausum, en hann bundinn berr fyrir; en svâ segist at hann hefði snart augnabragð, at allir hundar hurfu frá honum, ok var enginn svâ grimmr, at þyrði á hann at ráða, er hann hvesti augun ímót þeim. Þá kalladi konúngr til sín enn snarpa hund Víga, ok klappaði um hann, ok vísaði at hinum klæðlausa manni, hann var heldr tregr til, stóð þó upp ok bystist, ljóp síðan fram at Sigurði, greip til hans um sinn ok reif kviðinn, rann þegar aptr til konúngs ok lagðist fyrir fætr honum. En Sigurðr, er hann kendi sársaukans, spratt hann upp hart, þvíat fætr hans voro lausir en hendr bundnar, stavkk hann út yfir mannhrínginn ok fèll þegar dauðr niðr; en er þetta frètti biskup, fór hann til ok ásakaði konúng fast, þar til er hann fèll til fóta biskupi, ok bað hann lítillátliga miskunar með sannri iðran, ok játaði sik með tárum mjök hafa misgert í guðs ögliti með þessu grimma verki. Biskup var búinn til sátta af guðs hálfu, þegar hann sá iðran konúngs, ok setti honum þó opinberliga skript fyrir þenna lut.

*Ólafr konúngr kemr við Hálogaland.*

209. Um vârit eptir aftöku Eyvindar kinnrifu lèt Ólafr konúngr búa skip sín ok lið, þá hafði hann sjálfr travnuna, er hann hafði gera látit, hann hafði lið mikit ok frídt, en er hann var búinn, hèlt hann út eptir firði norðr fyrir Byrðu ok svâ norðr á Hálogaland, en hvar

sem hann kom viðland eðr átti þíng, þá banð hann öllu fólki at taka skírn ok trú rètta, bar þá engi maðr traust til at mæla ímót, ok kristnaðist land alt, þar sem hann fór. Ólafr konúngr tók veizlu í Þjóttu at Háreks, var Hárekr þá skírðr ok alt lið hans, gaf Hárekr konúngi gjafar góðar, ok gerðist hans maðr [tók Hárekr af konúngi veizlur stórar ok lends manns rètt [1]), hèldo þeir síðan kærleik ok vináttu með frændsemi sín ímilli. Hárekr í Þjóttu var son Eyvindar skáldaspillis, faðir Eyvindar var Finnr skjálgi, móðir Eyvindar skáldaspillis var Gunnhildr, dóttir Hálfdánar jarls ok Íngibjargar, dóttur Haralds konúngs hárfagra. Ólafr konúngr var son Tryggva konúngs Ólafssonar, Haraldssonar hárfagra.

[*Frá Rauði hinum ramma*].

210. Rauðr hinn rammi er nefndr einn ríkr bóndi ok auðigr, hann bjó í firði þeim á Hálogalandi, er heitir Sálfti [2]), þar sem heitir Goðey. Rauðr hafði með sèr marga húskarla, ok hèlt hann ríkmannliga menn sína, þvíat hann var höfðíngi mestr í firðinum, ok svâ víðara norðr þar, fylgði honum fjöldi Finna, þegar hann þurfti nökkurs við. Rauðr var blótmaðr mikill ok allfjölkunnigr, hann var vinr mikill þess manns, er furr var nefndr, er hèt Þórir hjörtr, hann rèð fyrir norðr í Vâgum, þeir voro báðir höfðíngjar miklir. En er þeir spurðu, at

[1]) *vantar í B, C.* [2]) Skálpti, *B.* Skjáfti, *F.* Sjálfti, *S.*

Ólafr konúngr fór með her manns sunnan um Hálogaland, þá samnaðu þeir her at sèr, ok buðu skipum út, fengu þeir lið mikit. Rauðr hafði dreka mikinn ok gullbúin höfuð á, var þat skip þrítögt at rúma tali ok þó mikit at því. Þórir hjörtr hafði ok mikit skip. Þeir hèldo liði því suðr með landi í móti Ólafi konúngi, en er þeir hittust, lögðu þeir þegar til bardaga við konúng, varð þar mikil orrosta ok hörð, snèri brátt mannfallinu í lið heiðíngja, ok hruðust skip þeirra, en því næst sló á þá felmt ok flótta. Rauðr rèri dreka sínum út til hafs, því næst lèt hann vinda á segl sitt; hann hafði jafnan byr, hvert er hann vildi sigla, ok var þat af fjölkyngi hans ok göldrum; er þat skjótazt at segja af ferð Rauðs, at hann sigldi þar til er hann kom heim norðr í Goðey. Þórir hjörtr flýði með sitt lið inn til lands, ok ljópu þar af skipum. Ólafr konúngr fylgði þeim við sína menn, ljópu þeir á land, ok eltu hina ok drápu, var Ólafr konúngr fremstr sem optazt þá er slíkt skyldi þreyta; konúngr sá hvar Þórir hjörtr ljóp, hann vár allra manna fóthvataztr; konúngr rann eptir Þóri ok fylgði konúngi hundr hans Vígi. Þá mælti konúngr: Vígi! tak þú hjörtinn; hundrinn ljóp fram eptir Þóri ok þegar upp á hann; Þórir nam staðar við; konúngr skaut þá kesju sinni at Þóri; Þórir lagði sverði til hundsins ok veitti honum mikit sár, en jafn skjótt flaug kesja konúngs undir hönd Þóri, svà at út stóð um aðra

síðuna. Lèt Þórir þar lífsitt, en Vígi var borinn sárr til skipa, fèkk konúngr til hinn bezta lækni at græða hundinn, ok varð hann heill [1]). Ólafr konúngr gaf öllum mönnum grið, þeim er báðu ok rètta trú vildu taka.

*Um aftöku Rauðs hins ramma.*

211. Ólafr konúngr hèlt liði síno norðr með landi ok kristnaði alt fólk þar sem hann fór, en er hann kom norðr at Sálfti, ætlaði hann at fara inn á fjörðinn ok finna Rauð, en hreggviðri ok stakastormr lá innan [2]) fjörðinn, lá konúngr þar til viku fulla ok hèlzt æ hit sama styrkviðri innan eptir firðinum, en hit ytra var blásandi byrr at sigla norðr með landi, sigldi þá konúngr alt norðr í Avmd [3]), ok gekk þar alt fólk undir kristni. Síðan snèri hann ferð sinni aptr suðr. En er hann kom norðan at Sálfti, þá var hregg ok sjádrif út fjörðinn, konúngr lá þar nökkurar nætr, ok var veðr hit sama, þá talaði konúngr við Sigurð biskup ok spurði, ef hann kynni þar nökkut ráð til at leggja? Biskup sagði at hann mun freista, ef guð vill sinn styrk tilgefa, at sigra þenna fjanda krapt. Síðan skrýddist biskup öllum messuskrúða sínum, ok gekk fram í stafn á konúngs skipinu, lèt hann þar

[1]) En sumir menn segja, at hann sendi rakkann til Finns þess er heitit hafði at lækna hann, sem fyrr er ritat *S.* [2]) innan eptir, *B.* inn á *S.* [3]) Avnd, *C, F.*

setja upp róðukross ok tendra fyrir kerti ok bar reykelsi, hann las þar fyrir guðspjall ok margar bænir aðrar, stavkti hann vígðu vatni um alt skipit; síðan bað hann taka af tjöldin ok róa inn á fjörðinn, hann lèt þá kalla til annarra skipa, at allir skulu róa inn eptir þeim; en er róðr var greiddr á Travnunni, þá gekk hún inn á fjörðinn, ok kendo þeir engan vind á sèr, er á því skipi voro, ok svâ stóð sú tópt eptir í varr simanum, at þar var logn, en svâ laus sjórokan brott frá á hvârntveggja veg, at hvergi sá fjöllin; rèri þá hvert skip eptir avðru þar í logninu, fóro þeir svâ allan daginn, ok um nóttina eptir, komu þeir litlu fyrir dagan inn í Goðeyjar. En er þeir komu fyrir bæ Rauðs, þá flaut þar fyrir landi dreki hans sá hinn mikli. Ólafr konúngr gekk þegar upp til bæjar Rauðs með lið sitt, ok veittu atsókn lopti því, er Rauðr svaf í, ok brutu upp, ljópu menn konúngs þar inn, var Rauðr handtekinn ok bundinn, en menn hans drepnir, þeir er þar voro inni, en sumir handteknir; þá var ok gengit at skála þeim, er húskarlar Rauðs sváfu í, voro þeir sumir drepnir en sumir barðir eðr bundnir; því næst var Rauðr leiddr fyrir konúng, konúngr bauð honum at láta skírast, mun ek þá, segir konúngr, ekki taka af þèr eignir þínar, ef þú kannt tilgæta. Rauðr æpti ímóti því, sagði at hann skyldi aldri á Krist trúa, ok guðlastaði mjök á marga vega. Konúngr varð þá reiðr ok sagði, at Rauðr skyldi

hafa hinn versta dauða. Lèt þá konúngr taka hann ok binda opinn á slá eina, ok setja kefli milli tanna honum ok lúka svâ upp munninn, þá lèt konúngr taka lýngorm einn, ok bera at munni honum, en ormrinn vildi eigi inn í munninn, ok hröktist frá í brott, því at Rauðr blès fast ímóti honum. Þá lèt konúngr taka hvannnjóla trumbu [1]), ok setja í munn honum, en sumir menn segja at konúngr lèti setja lúðr sinn í munn Rauð, ok bera þar í orminn; síðan lèt hann bera at utan slájárn [2]) glóanda, hröktist þá ormrinn undan járninu í munn Rauð ok síðan í brjóstit til hjartans, ok skar út um vinstri síðuna, lèt Rauðr svâ líf sitt. Ólafr konúngr tók þar allmikit fè í gulli ok silfri ok öðru lausafè í vopnum ok margskonar dýrgripum, en menn alla þá, er fylgt höfðo Rauð, ok þá voro á lífi, lèt hann skíra, þá er trú vildu taka, en þá, er þat vildo eigi, lèt hann drepa eðr pína. Þar tók Ólafr konúngr drekann, er Rauðr hafði átt, ok stýrði sjálfr, þvíat þat var skip miklu meira ok fríðara enn Tranan; var framan á drekahöfut, en aptr krókr, ok framaf svâsem sporðr, var hvârtveggi svírinn ok svâ stafninn með gulli lagðr, þat skip kallaði konúngr orminn, þvíat þá er segl var á lopti, skyldi þat vera fyrir vængi drekans, var þetta skip þá fríðazt í öllum Noregi. Eyjar þær, er Rauðr bygði, heita Gill-

[1]) trènaða, *S.* [2]) járnslá, *S.*

íng ok Hæríng [1]), en allar saman heita þær Goðeyjar, ok Goðeyja straumr fur norðan ímilli ok meginlands.

*Viðreign konúngs ok nökkvamanns.*

212. Ólafr konúngr kristnaði fjörð þann allan, fór hann síðan leið sína suðr með landi, ok varð í þeirri ferð margt til tíðinda, þat er í frásagnir er fært; tröll ok aðrar illar vættir glettust við konúngsmenn ok stundum við hann sjálfan. Þat var einn dag, er þeir fóro leið sína, at þeir sá mann einn róa frá hafi utan á einum nökkva, ok stefndi at björgum nökkrum, þessi maðr var bæði hárr á þóptu ok herðimikill, ok sveigði fast árar. Konúngr mælti til manna sinna: takit nú vel á róðrinum, þvíat ek vil finna mann þenna hinn mikla, er hèr rærr fyrir oss, ok vita hvat drengja hann sè. En er hinn mikli maðr sèrr, at konúngsmenn gæða róðrinn, þá gerir hann ok svâ, dregr bráðliga árar, ok lætr síga herðar, ok dregr ekki saman með þeim. Þá bað konúngr sína menn auka enn róðrinn, ok bera út árar, sem flest voro rúm til á orminum, taki ok 2 eðr 3 hverja árina, segir hann, ok mun þó alz viðþurfa, at við fáem þenna karl tekit. Þeir gerðu svâ sem konúngr mælti, ok dró orminn þá eptir. En er nökkvamaðr sèr þat, þá þótti konúngi sem hvaðanæfa væri augu á honum, skygnist hann um fast ok hyggr at, hve lángt hann á til bjarganna, neytir

[1]) þannig, B, C, F. Æríng, S. Hræríng, A.

hann þá afls ok kostgæfir meðkappi undanróðrinn, stendr upp við árarnar, ok lætr fallast í kjöl niðr, dregr þó þá saman ok heldr seint. En er konúngi þótti sem nema mætti mál ímilli þeirra, kallaði konúngr á hann ok mælti: bíð þú hinn mikli maðr ok ró eigi undan lengr, þvíat vèr viljum finna þik. Navkvamaðrinn svarar: svâ at eins leikr þú við flesta vâra vini, at mèr er engi fýst á at finna þik, ok mun ek ekki bíða þín, segir hann, þvíat margr er um einn, ef við finnumst; ok þá kvað hann:

Of fjarri stendr errinn
ormr brúnar [1]) davkkr at [2]) navkkva
hárr með hyggju [3]) stóra
hlýri minn ok vinnur;
ef værim hèr hárir
harðráðs synir báðir
snákr skríðr þar er brim blikir [4])
bræðr tveir, nè vit þá flæðim.

Alt at einu mundut þit flýja, þó at þit værit 2, eðr hverr ertu? segir konúngr. Þat varðar þik engu, segir hann, ok kvað:

Leika barðs á borði
byrhreins fyrir þèr einum
gramr mun [5]) á foldo fremri
fárr sextigi ára;
mèr leikr [einn ok annarr [6])

[1]) orms brún, *B.* orm brún, *C.* [2]) á, *B*, *C*. [3]) hrygginn. [4]) bleikir, *B*, *C*, *S*. [5]) er, *B*, *C*. [6]) ein ok vannur, *B*, *C*.

öldo [1]) sveipr í greipum
því verð ek borðs á barða
bæginn fyrir [2]) vægja.

Ok þú skalt nú ok vægja, segir konúngr; eigi er ek ámælisverðr, segir hann, þó at ek vægja at sinni sem verða má einn gamalkarl [3]) fyrir svâ mörgum úngum drengjum ok hraustum, en aldri at heldr skal ek koma á yðvart vald; spratt hann þá upp hart ok tídt, kastaði árunum ok hvelfði nökkvanum undir sèr, skildi þar með þeim, svâ at þeir sá hann aldri síðan.

*Ólafr konúngr hitti Þór.*

213. Þat var einn dag [4]) er Ólafr konúngr sigldi suðr með landi lítinn byr ok fagran, at maðr stóð á hamri einum ok kallaði á þá, bað þá hafa til lítillæti at veita sèr far suðr í land. Ólafr konúngr stýrði orminum at berginu, þar er maðrinn stóð, ok stè hann út á skipit. Þessi maðr var mikill vexti ok únglígr, fríðr sýnum ok rauðskeggjaðr. En þegar hann kom á drekann, sló hann á glens ok glímur við konúngsmenn, hann varð þeim harðleikinn, ef þeir skyldo nökkut afl reyna, gerði hann af sèr gleði mikla, þótti þeim gaman at eiga við hann, veittu hvárir öðrum í glensi hæðilig [5]) orð ok athlátr, sagði hann at honum þótti konúngsmenn veslíngar ok lítilmagnar, ok værit þèr úverðugir, segir hann, at fylgja svâ ágætum konúngi, eðr svâ skipa frídt skip, ok

[1]) avldur *C.* [2]) fyrir þèr *B. C.* [3]) afgamall karl *B. C.* [4]) góðan veðrdag *B. C.* [5]) glennzlig *B. C.*

var harðskipaðr dreki þessi, þá er Rauðr hinn rammi átti hann, er hann nýtti varla til liðsemdar með sèr fyrir krapta sakir slíka, sem ek er, nema heldr til skemtanar ok ráðuneytis, en nú erut þèr þó ölmösur hjá mèr. Konúngsmenn spurðu, ef hann kynni nökkur tíðindi at segja forn eðr ný. Hann kvaðst ætla, at þeir mundi þess fáss spurja, er hann kynni eigi or at leysa. Þeir leiddu hann þá fyrir konúng, ok sögðu þenna mann vera margvísan. Konúngr mælti: seg þú nökkura forna fræði, ef þú kannt. Hann svarar: þar tek ek þá til, herra! at land þetta, er vèr siglum nú fur, var byggt forðum daga af risum nökkurum, en risar þeir fengu með atburð bráðan bana, svâ at þeir dó náliga allir senn, svâ at eigi varð meirr eptir enn konur 2; síðan tóko menn af austrlöndum at byggja land þetta, en þær enar miklu konur veittu því fólki mikinn yfirgáng ok úmaka [1]), ok þröngðu þeirra manna ráði, er landit bygðu, alt þar til er landsmenn tóko þat ráð at heita á þetta hit rauða skegg til hjálpar sèr, en ek greip þegar hamar minn, ok sló ek þær báðar til bana, ok hefir þetta landsfólk haldit því at kalla á mik til fultíngs, ef þeir hafa nökkurs viðþurft, alt hèrtil er þú hefir, konúngr! mjök svâ eydt öllum mínum vinum, sem hefnda væri fyrir verdt; ok í þessu leit hann aptr ímóti konúngi, ok glotti við, í því er hann bikti [2]) sèr út af borðinu, svâ skjótt sem kólfi skyti á sjáinn, ok sá

[1]) *vantar í C.* [2]) skaut *C.*

þeir hann aldri síðan. Þá mælti konúngr til manna sinna: sè þar nú, hve fjandinn var djarfr, er hann gekk opinberliga í augsýn við oss um ljósan dag, ok birtist í slíku, hversu kristnum mönnum hæfir at vera jafnan varir um sik við svikum hins úhreina anda, er jafnan sitr um þat at svíkja mannkynit bæði leyniliga ok opinberliga, ok fyrirkoma með sinni ilsku ok öfund öllu góðu mannsins athæfi, en leiðir síðan þann, er víkr eptir hans fortölum ok teygíngum, ok sik gefr fullkomliga með illum verkum undir hans vald, með sèr hertekinn til eilífra kvala. Því skulu vèr jafnliga merkja oss með sigr marki hins heilaga kross vârum guði, þvíat krossmarkit gjört með traustri trú til guðs er hin öruggazta vernd ok hlíf andar ok líkama fyrir öllum óvinum bæði sýniligum ok ósýniligum, svâ sem oss gaf fullkomliga at skilja, þá er vèr merktum oss þvísa marki í Danmerku löngum tíma furrenn vèr tækim helga skírn. En þó at djöflar hafi djörfúng at freista vâr opinberliga, þá ero þeir alt at einu harðla hræddir við kristna menn, þá er sitt traust hafa á guði ok heilagri skírn, sem nú birtist, at [þessir fjandr, sem oss sýndust [1]) bæði nú ok furra dags, forðaðust sem mest fund vârn, þegar vèr máttum skilja, hverir þeir voro; fyrir því eigum vèr margfaldliga at lofa vârn drottinn Jesum krist ok hans hinn heilaga kross utan enda. Fór Ólafr konúngr þá leið sína, þar til er hann

[1]) þessi fjandi sem oss sýndist *B.*

kom í Naumdæla [1]) fylki ok lá þar með liði síno um hríð, þvíat eigi gaf suðr lengra. En konúngsmenn höfðo heyrt orð á því, at í Naumudal [2]) væri meiri tröllagángr ok úvætta enn annarstaðar í Noregi, ok fór þat mjök vaxanda, svo at menn máttu þar varla halda bygðum sínum fyrir tröllagángi, síðan Hákon jarl var dauðr. En Ólafr konúngr kristnaði landit ok sat laungum á vetrum í Þrándheimi; var þá mörgum konúngsmönnum mikil forvitni á, hvârt slíkt væri skrök eðr sannindi. Þat er sagt, at 2 hirðmenn konúngs gengu af skipum leyniliga á land upp eina nótt, en er þeir höfðo gengit um stund í náttmyrkrinu, sá þeir hvar eldr brann í helli ok skunduðu þángat til, sá þeir hvar mörg tröll sátu við eld ok töluðu sín ímilli; þeir námu staðar fyrir hellis munnanum, ok sýndist þeim sem einn mundi vera höfðíngi þeirra allra úvina; sá tók svâ til orða: hvârt vitit þèr at hèr við land er kominn Ólafr konúngr Tryggvason með lið sitt, ok er þat líkara, ef hann dvelst hèr nökkura hríð, at hann geri oss nökkurn úmaka. Þeir aðrir fjandr svaraðo: þat vitum vèr hölzti gjörla, hversu miklar únáðir ok illleikni hann hefir oss gert mörgu sinni, síðan hann kom í land þetta, er hann lætr oss hvergi hvíld hafa, hefir hann drepit suma vini vâra, en suma annann veg verr undan oss spanit með sínum illskufullum orðkrókum, en elt oss á brott af vorum eigin bygðum, ok

[1]) Raumdæla, *B, C.* [2]) *þannig allir.*

enn úvist, at vèr megim hèr frjálsir vera fyrir honum í þessi útlegð, ok vei verði voro vanmegni, at vèr fáom hvârki hefnt honum vârrar svívirðíngar nè vârra vina, en at skulum vèr þat gera sem vèr megum, at eyða þessar hinar nærstu bygðir. Þá mælti foríngi þeirra: segit þèr mèr, hvat þèr hafit við ázt. Þá tók eitt til orða af þeim úhreinum öndum: bygð mín var í Gaulardal skamt frá Hlöð [1]) átta ek vináttu við Hákon jarl, ok gaf hann mèr góðar gjafar, en þá er hann var úmakliga ræntr ríki ok lífi, kom þessi grimmi maðr í hans stað, ok einn dag, er hirðmenn konúngs höfðo leik svâ nærr minni bygð, at ek þóttumst varla mega þola hark þeirra ok háreysti, þá rèðumst ek í leikinn með þeim leyniliga, ok tók ek einn þeirra höndum, ok lèk ek svâ við þann, at ek braut hönd hans, en á avðrum degi braut ek fót annars, ok gengu svâ meiddir frá leiknum, ok hinn 3ja dag kom konúngr sjálfr, ok gekk í leikinn með þeim, en ek rèðumst þá enn til með þeim, ok ætlaða ek at gera nökkurum manni mein; mèr voro þar flestir menn úkunnir, ok kenda ek enga frá avðrum, greip ek þó til eins heldr harðliga, en sá tók ímóti ok setti svâ fast báðar hendr at síðum mèr, at mèr mátti eigi verra við verða, þó at þær hendr hefði verit gervar or glóanda járni, ok svâ tók hann mik at þröngva með miklu afli, at við sjálft var, at ek mætti eigi úæpandi standast, en þó komumst ek or hönd-

[1]) Hlöðum, *B; C, S.*

um honum með mikilli nauð ok mjök brunninn, varð ek þá at flýja þaðan bygð mína, þó at nauðig ok úviljandi, til þessa staðar. Þá svarar annarr fjandi: þat er frá mèr at segja, at ek tók á mik fagrar konu ásjónu, gekk ek inn síð um kveld, þá er Ólafr konúngr hèlt einaríka veizlu, ok var alt fólk mjök drukkit, ek hèlt á einu horni fögru, þat var fult af þeim drykk, er ek hafði blandat með eitri ok mörgum illum lutum, er ek ætlaði at skenkja með konúngi, ek stóð við trapizuna tíguliga búin; þá rètti konúngr hönd sína til mín, ok bendi mèr at ek skyldi byrla honum, en ek varð því svâ fegin, sem ek hefði þá þegar alt ráð hans í hendi mèr, gekk ek þá fyrir hann, ok bar ek honum þat hit fagra horn, en hann tók við ok steypti yfir mik þeirri illsku ok eitri, er ek ætlaði at hann skyldi drekka; síðan hóf hann upp hornit ok setti í höfuð mèr svâ hart, at þeirra meiðsla bíð ek aldri bætr síðan, er hann veitti mèr þar af. Þá mælti enn þriði úhreinn andi: eigi fór mèr þessu úlíkt, ek brá á mik fagri mynd kurteissar konu, ok kom ek hæverskliga klædd í herbergi Ólafs konúngs síð um kveld, er hann sat berfættr, ok knýtt línbrók at beini, biskup sat á aðra hönd honum, en er ek var innkomin, tók ek at vekja kláða á fæti konúngs niðri við ilina; konúngr sá, hvar kona stóð væn ok valbúin, þar var ek, hann kallaði á mik ok bað mik klá fótinn, ek gerði svâ, þar til er konúngr tók at sofa, en er kon-

úngr kom til hvílunnar, þá tók enn af mínum völdum at vaxa kláðinn í fæti hans; ek settumst á fótskörina, ok kló ek fótinn, þartil er bæði sofnaði biskup ok konúngr, þá rèttumst ek upp yfir konúng, ok ætlaða ek at fyrirfara honum með mínum illskukrapti, ok veita honum bana, en konúngr vaknaði skjótt, ok laust í höfuð mèr svâ mikit högg með hók, at haussinn lamdist mjök, flýði ek þaðan við þau meiðsl, at ek ber æ síðan halt höfuð, ok verðr aldri verklaust. En er konúngsmenn höfðo þessa luti sèð ok heyrt, þá hurfu þeir aptr ok fóro til skipa hljóðliga, svâ at menn vöknuðu ekki við; en um morgininn sögðu þeir konúngi ok öllum hans mönnum allan þenna atburð. Konúngr mælti: alt er þetta satt, er þit segit, ok þat til marks, at þá er fótrinn minn hafði klęginn verit, vakta ek þegar upp biskup, ok bað ek hann sjá, hvârt fótrinn væri heill af tilkvâmu þess fjanda, er svâ sýniliga, ok þó með sjónhverfing mannligs líkama hafði gengit í vor herbergi. En er biskup kom til ok leit á fótinn, þá fannst þar á blárr flekkr, ok blásinn af eitri; lèt biskup þann flekk skera or með holdi ok blóði, síðan var þat sár grædt at heilu, ok mun örr þat sjá á fæti mèr meðan ek lifi. En þó fyrirbýð ek öllum mínum mönnum at gánga af skipum á land upp um nætr fyrir eina saman slíka þarfleysu forvitni utan alla nauðsyn. Eptir þetta fór Ólafr konúngr ok biskup með alt hit bezta lið sitt um allar nálægjar bygðir með krossum ok helgum

dómum, ok dreifðo vígðu vatni um björg ok hamra, dali ok hóla, ok hreinsaðu með helgum bænum ok Guðs fulltíngi, alt þar er þeir fóro, af illum vættum ok úhreinum öndum, ok frelstu svâ alt fólk af úvina ánauð ok yfirgáng, fóro eptir þat út til skipa sinna, ok hèldu síðan suðr með landi, kom Ólafr konúngr liði síno um haustið suðr til Þrándheims, hèlt inn til Níðaróss, ok bjó sèr þar til vetrsetu.

*Hrollaugr, son Rögnvalds Mæra jarls, fer til Íslands.*

214. Þá er Haraldr konúngr hinn hárfagri hafði eignazt alt ríki í Noregi, ok var á veizlu með Rögnvaldi Mæra jarli, þá tók konungr þar laugar, ok lèt greiða hár sitt, ok þá skar Rögnvaldr jarl hár hans, en áðr hafði verit úskorit 10 vetr, ok fyrir því var hann kallaðr Haraldr lúfa, en síðan gaf jarl honum kenníngarnafn, ok kallaði hann Harald hinn hárfagra, ok sögðu allir, er sá, at þat var hit mesta sannnefni, þvíat hann hafði hár bæði mikit ok fagrt. Nökkuru síðarr fór Haraldr konúngr með her vestr um haf, ok vann þar undir sik mikil ríki, sem furr segir; en aðr hann fór vestan, gaf hann Orkneyjar ok Hjaltland Rögnvaldi jarli í sonarbætr [1]); gjörðist Sigurðr, broðir Rögnvalds, þar jarl yfir, en Rögnvaldr jarl fór með Haraldi konúngi austr til Noregs, ok settist þar at ríki síno; en er Rögnvaldr jarl spurði fall Sigurðar jarls, bróður síns,

[1]) hárskurðarlaun, S. F.

þa sendi hann vestr til Orkneyja Hallað son sinn, en hann veltist or jarldómi, ok fór við þat austr til föður síns. Rögnvaldr jarl kallaði þá saman sono sína, ok spurði hverr þeirra vildi þá taka jarldóm í Orkneyjum. Þórir bað hann sjá ráð fyrir sèr, hvârt er hann vildi at hann færi vestr þángat eðr eigi. Jarl svarar: vel ferr þèr, en þú ert maðr skilgetinn ok vænn til höfðíngja, ok skaltu taka hèr arf ok ríki eptir minn dag. Þá gekk Rólfr fram, ok bauð sik til þeirrar ferðar. Jarl svarar: þat er þèr vel hent fyrir sakir afls ok atgervi, en þó hygg ek at meiri ofsi ok hernaðar ágirnd leiki þèr í skapi, en unir svâ búit at setjast um kyrt at slíkum smáríkjum. Þá spurði Hrollaugr föður sinn, ef hann vildi at hann færi vestr til eyjanna. Jarl svarar: ekki muntu jarl verða, þú hefir ekki styrjaldar skaplyndi, ætla ek helzt, at vegir þínir liggi út til Íslands, muntu þar göfugr þikkja á því landi ok verða kynsæll, en engi ero hèr forlög þín. Sendi jarl þá Einar son sinn vestr til Orkneyja. Hrollaugr fór til Haralds konúngs, ok var með honum um hríð, ok fèkk sèr göfugt kvânfáng. Hrollaugr fór síðan til Íslands með konu sína ok sono, hann kom af hafi austan at Horni, ok skaut þar fyrir borð öndvegissúlum sínum, ok bar þær á land í Hornafirði, en hann rak undan vestr fyrir landit, fèkk hann útivist harða, ok varð vatnfátt á skipinu; þeir tóko land vestr á nesjum í Leiruvâgi; hann var þar hinn fursta vetr, þá frá hann til súlna

sinna, ok fór austr þángat; hann var annann vetr undir Íngólfsfelli; síðan fór hann austr í Hornafjörð, ok bjó furst undir Skarðsbrekku í Hornafirði, en síðan á Breiðabólsstað í Fellshverfi. Hrollaugr var höfðíngi mikill, ok hèlt vel vingan við Harald konúng, en fór aldri utan. Haraldr konúngr sendi Hrollaugi gott sverð ok avlhorn [1]) ok gullhríng þann er vâ 5 aura, þat sverð átti síðan Kolr son Síðu-Halls, en Kolskeggr hinn fróði hafði sèð hornit. Hrollaugr þikkir mönnum verit hafa göfgaztr landnámamanna í austfirðínga fjórðúngi fyrir sakir ættar ok afkvæmis: hann var faðir Özurar [2]) keilisels [3]), er átti Gró dóttur Þórðar Illugarsonar, þeirra dóttir var Þórdís móðir Halls á Síðu. Hallr á Síðu átti Jóreiði [4]) Þiðrandadóttur; þeirra son var Þorsteinn, faðir Magnús, föður Einars, föður Magnús biskups; annarr sonr Síðu-Halls var Egill, faðir Þorgerðar, móður Jóns biskups hins helga. Þorvarðr Hallsson var faðir Þórdísar [5]), móður Jórunnar, móður Halls prests, föður Gizorar, föður Magnús biskups. Ýngvildr dóttir Halls á Síðu var móðir Þóreyjar, moður Sæmundar prests hins fróða. Þorsteinn son Halls var faðir Guðríðar, moður Jóreiðar [6]) móður Ara prests hins fróða. Þorgerðr [1]) Hallsdóttir var móðir

[1]) gullbúit, *bætir við B.* [2]) Gissurar, *F.* [3]) keiliselgs, *C.* kælisvelgs, *S. C.* keiluskegs, *B.* [4]) Þoreiði, *B.* [5]) Þorgerðar, *F.* [6]) Þoreiðar, *B.* [7]) Þórdís, *F.* Þóra, *S.*

Ýngvildar, móður Ljóts, föður Járngerðar, móður Valgerðar, móður Böðvars, föður Guðnýjar, móður Sturlusona.

*Útkoma Þórhalls ok fall Þiðranda.*

215. Þórhallr hèt maðr norrænn, hann kom út til Íslands á dögum Hákonar jarls Sigurðarsonar, hann tók land í Sýrlækjarósi, ok bjó á Hörgslandi. Þórhallr var fróðr maðr ok mjök framsýnn, ok var kallaðr Þórhallr spámaðr. Þórhallr spámaðr bjó þá á Hörgslandi, er Síðuhallr bjó at Hofi í Álptafirði, ok var með þeim hin mesta vinátta; gisti Hallr á Havrgslandi hvert sumar, er hann reið til þings; Þórhallr fór ok opt til heimboða austr þángat, ok var þar laungum. Sonr Halls hinn elzti hèt Þiðrandi, hann var manna vænztr ok efniligaztr, unni Hallr honum mest allra sona sinna. Þiðrandi fór landa ímilli, þegar hann hafði aldr til, hann var hinn vinsælazti, hvar sem hann kom, þvíat hann var hinn mesti atgervimaðr, lítillátr ok blíðr við hvert barn. Þat var eitt sumar at Hallr bauð Þórhalli vin sínum austr þángat, þá er hann reið af þíngi; Þórhallr fór austr nökkuru síðarr enn Hallr, ok tók Hallr við honum sem jafnan með hinum mesta blíðskap, dvaldist Þórhallr þar um sumarit, ok sagði Hallr at hann skyldi eigi furri fara heim enn lokit væri haustboði. Þat sumar kom Þiðrandi út í Berufirði, þá var hann 18 vetra, fór hann heim til föður síns, dáðust menn þá enn mjök at honum sem opt áðr, ok

lofaðu atgervi hans, en Þórhallr spámaðr þagði jafnan, þá er menn lofaðu hann mest. Þá spurði Hallr hví þat sætti [1]), þvíat mèr þikkir þat merkiligt, er þú mælir, Þórhallr! segir hann. Þórhallr svaraði: ekki gengr mèr þat til þess, at mèr mislíki nökkurr lutr við hann eða þik, eðr ek sjái síðr enn aðrir menn, [at hann er hinn merkiligazti maðr [2]), heldr berr hitt til at margir verða til at lofa hann, ok hefir hann marga luti til þess, þó at hann virði sik lítils sjálfr, kann þat vera at hans njóti eigi lengi, ok mun þèr þá ærin eptirsjá at um son þinn svâ vel mannaðan, þó at eigi lofi allir menn fyrir þèr hans atgervi. En er á leið sumarit, tók Þórhallr mjök at úgleðjast. Hallr spurði hví þat sætti? Þórhallr svarar: ílt hygg ek til haustboðs þessa, er hèr skal vera, þvíat mèr býðr þat fyrir, at spámaðr mun vera drepinn at þessi veizlu. Þar kann ek at gera grein á, segir bóndi, ek á uxa einn 10 [3]) vetra gamlan, þann er ek kalla spámann, þvíat hann er spakari enn flest naut önnur, en hann skal drepa at haustboðinu, ok þarf þik þetta eigi at úgleðja, þvíat ek ætla at þessi mín veizla sem aðrar skuli þèr ok öðrum vinum mínum verða til sæmdar. Þórhallr svarar: ek fann þetta ok eigi af því til, at ek væra hræddr um mitt líf, ok boðar mèr

[1]) er þú leggr svâ fátt til um hagi sonar míns Þiðra, *B.*
[2]) *bætir inni B.* [3]) 12, *F.*

fyrir meiri tíðindi ok undarligri, þau er ek mun at sinni eigi uppkveða. Hallr mælti: þá er ok ekki fyrir at bregða boði því. Þórhallr svarar: ekki mun þat gera at mæla [1]), þvíat þat mun framgánga sem ætlat er. Veizlan var búin at vetrnóttum, kom þar fátt boðsmanna, þvíat veðr var hvast ok viðgjörðarmikit, en er menn settust til borða um kveldit, þá mælti Þórhallr: biðja vilda ek at menn hefði ráð mín um þat, at engi maðr komi hèr út á þessi nótt, þvíat mikil mein munu hèr á liggja, ef af þessu er brugðit, ok hverigir lutir sem verða í bendíngum, gefi menn eigi gaum at, þvíat illu mun furða [2]) ef nökkurr ansar til. Hallr bað menn halda orð Þórhalls, þvíat þau rjúfast ekki, segir hann, ok er um heilt bezt at búa. Þiðrandi gekk um beina, var hann í því sem öðru mjúkr ok lítillátr; en er menn gengu at sofa, þá skipaði Þiðrandi gestum í sæng sína, en hann sló sèr niðr í sæti yztr við þili; en er flestir menn voro sofnaðir, þá var kvadt dura, ok lèt engi maðr sem vissi, fór svâ þrysvar, þá spratt Þiðrandi upp ok mælti: þetta er skömm mikil, er menn láta hèr allir sem sofi, ok munu boðsmenn komnir; hann tók sverð í hönd sèr, ok gekk út, hann sá engan mann, honum kom þá þat í hug, at nökkurir boðsmenn mundi hafa riðit fur heim til bæjar, ok riðit síðan aptr í

[1]) *þannig A*, *S.* tjóa at gera þat, *B. C.* [2]) *þannig allir.*

móti þeim, er seinna riðu; hann gekk þá undir viðkavstinn ok heyrði at riðit var norðan á völlinn, hann sá at þat voro konur 9 ok allar í svörtum klæðum ok höfðo brugðin sverð í höndum, hann heyrði ok at riðit var sunnan á völlinn, þar voro ok 9 konur allar í ljósum klæðum ok á hvítum hestum; þá vildi Þiðrandi snúa inn ok segja mönnum sýnina, en þá bar at konurnar furr hinar svartklæddu ok sóttu at honum, en hann varðist drengiliga; en lángri stundo síðarr vaknaði Þórhallr, ok spurði hvârt Þiðrandi vekti, ok var honum eigi svarat. Þórhallr kvað þá mundo of seinat [1]). Var þá út gengit, var á túnglskin ok frostviðri, þeir fundo Þiðranda liggja særðan, ok var hann borinn inn, ok er menn höfðu orð við hann, sagði hann þetta alt sem fyrir hann hafði borit; hann andaðist þann sama morgin í lýsíng, ok var lagðr í haug at heiðnum sið. Síðan var haldit frèttum til um manna ferðir, ok vissu menn ekki vânir úvina Þiðranda. Hallr spurði Þórhall, hverju gegna mundi um þenna undarliga atburð. Þórhallr svarar: þat veit ek eigi, en geta má ek til, at þetta hafi engar konur verit aðrar enn fylgjur yðrar frænda, get ek at hèr eptir komi siðaskipti, ok mun þvínæst koma siðr betri hingat til lands, ætla ek þær dísir yðrar, er fylgt hafa þessum átrúnaði, munu hafa vitat

1) ofsofit, S.

fyrir siðaskiptið, ok þat at þèr munut verða þeim afhendir frændr; nú munu þær eigi hafa því unat at hafa engan skatt af yðr áðr, ok munu þær [þetta hafa [1]) í sinn lut, en hinar betri dísir mundo hafa viljat hjálpa honum, ok komust eigi við at svâ búnu; nú munut þèr frændr þeirra njóta, er þann [inn úkunna sið [2]) munut hafa, er þær boða fyrir ok fylgja. Nú boðaði þessi atburðr fyrir, sem Þórhallr sagði, ok margir lutir þvílíkir þann fagnaðartíma, sem eptir kom, at allsvaldandi guð virðist at líta miskunaraugum á þann lýð, er Ísland bygði, ok leysa þat fólk fyrir sína erendreka af laungum fjandans þrældómi, ok leiða síðan til samlags eilífrar erfðar sinna æskiligra sona, sem hann hefir fyrirheitit, alla þá er honum vilja trúliga þjóna með staðfesti góðra verka, svâ ok eigi síðr sýndi úvinr alls mannkyns opinberliga í slíkum lutum ok mörgum öðrum, þeim er í frásagnir ero færðir, hversu nauðigr hann lèt laust sitt ránfengi, ok þann lýð, er hann hafði áðr allan tíma haldit hertekinn í villuböndum sinna bölvaðra skurðgoða, þá er hann hvesti með slíkum áhlaupum sína grimdarfulla reiði á þeim, sem hann hafði vald yfir, sem hann vissi nálgast sína skömm ok makligan skaða síns herfángs. En Halli þótti svâ mikit lát Þiðranda sonar síns, at hann undi eigi lengr at búa at Hofi, færði hann þá

[1]) því hann haft hafa, *B.* hafa tekit Þiðranda, *C.* [2]) *bætir við B.*

bygð sína til Þvâttár. Þar var einn tíma at Þvâttá, þá er Þórhallr spámaðr var þar at heimboði með Halli, Hallr lá í hvílugólfi ok Þórhallr í annarri rekkju, en gluggr var á hvílugólfinu, ok einn morgin, er þeir vöktu báðir, þá brosti Þórhallr. Hallr mælti: hví brosir þú nú? Þórhallr svarar: at því brosir ek at margr hóll opnast, ok hvert kvikendi býr sinn bagga bæði smá ok stór [1]) ok gera fardaga; ok litlu síðarr vurðu þau tíðindi sem nú skal frásegja.

*Þángbrandr kom til Íslands ok bauð kristni.*

216. Þá er Ólafr konúngr Tryggvason hafði tvâ vetr ráðit Noregi, sendi hann Þángbrand prest til Íslands, hann kom skipi síno í Selvâga í Álptafjörð hinn neyrðra. En er landsmenn vissu, at Þángbrandr ok hans menn voro kristnir, þá vildu þeir ekki mæla við þá, ok eigi vísa þeim til hafnar, ok engan manndóm nè hjálp vildo bygðarmenn veita þeim. Í þann tíma bjó Síðu-Hallr at Þvâttá, hann átti ferð norðr í Fljótsdal at sínum skyldum erendum, en er hann fór suðr aptr, þá kom Þángbrandr til móts við hann, gekk fyrir hann ok kvaddi hann sæmiliga, sagði hann Halli tilgáng sinnar þarkvâmu, ok þat með at Ólafr konúngr hafði sent honum orð til, ef hann bæri at Austfjörðum, at hann veitti honum sitt traust, hvers sem hann kynni við at þurfa. Bað Þángbrandr þá at Hallr mundi koma skipi hans til hafnar ok veita honum

[1]) stóra, C.

forsjá annarra nauðsýnligra luta. Hallr tók vel ok góðgjarnliga orðum hans ok orðsendíng Ólafs konúngs, fèkk hann þegar menn til at flytja skip Þángbrands í Álptafjörð hinn syðra í Leiruvâg, ok lèt þar uppsetja sem síðan heitir Þángbrandshöfn eðr [1]) hróf, en farminn allan lèt hann flytja heim á túnvöll sinn, ok gerði þeim þar tjald, þat er þeir bjöggu í um vetrinn, þar saung Þángbrandr í messur ok flutti fram guðligt embætti. Hallr var vel til Þángbrands ok allra hans föronauta, ok veitti þeim alla nauðsynliga luti, var hann þar laungum í búðinni hjá þeim. Þat var um haustið hinn næsta dag fyrir hátíðardag Michaelis, þá lètu þeir Þángbrandr nónheilagt; Hallr bóndi var þar ok spurði, hví þeir lèti þá af vinnu. Þángbrandr svarar: þenna dag, er eptir ferr, höldum vèr heilagt ok hátíðliga til dýrðar hinum heilaga guðs höfutengli Michaeli. Hallr mælti: hverr var Michael fur sèr, eðr hversu er hann í hátt? Þángbrandr svarar: Michael var eigi maðr, heldr andi, skipaðr af almáttkum guði höfðíngi annarra engla, þeirra er hann hefir til setta at stríða ímóti djöflinum ok hans fjandligum erendrekum, ok at hlífa öllu kristnu fólki rètt trúaðu við skaðsamligum skeytum úhreinna anda; Michaeli höfuðengli er ok einkannliga gefit af guði vald yfir kristinna manna sálum framfarandi af þessum heimi, at taka við þeim ok leiða þær í háleita

[1]) naust eðr, *S. vantar í C.*

hvíld Paradísar, þar er óumræðiligr fagnaðr ok gleði, sæmð ok sæla ok allrar gæzku gnótt, þar er eigi dauði eigi sút nè sótt, eigi ángr nè eymð, heldr úendilig heilsa ok eilíft líf. Þar ero þeir menn, sem hreinliga hafa í sínum lifnaði þjónat með rèttlæti sínum skapara, samlagaðir engla þjónostu, þeirra fegurð ok birti sigrar sólarljós, þeirra ilmr er umfram allan sætleik, þeirra skjótleikr, afl ok máttr er meira enn ætlan megi á koma, þeirra útölulig fjöld er greind í 9 fylki til fyrirskipaðrar þjónosto af guði; nökkurir af þeim hafa skipan ok vald til þess at stríða ok niðrlemja allan mátt illgjarnra anda, þeirra er jafnan umsitja ok fýsast at gera mein mannkyninu; sumir vísa á brott af mönnum sóttum ok meinum ok mótstaðligum lutum, en veita í staðinn algerva heilsu ok öll önnur þarfindi ok farsælliga luti dauðligum mönnum; sumir standa æ fur skaparanum, en þó alt at einu er þeim öllum þat samegin iðja ok athöfn at lofa úaflátliga allsvaldanda guð ok óumræðiliga með fagrhljóðandum saungraustum honum at skemta, jafnan undrandi hans fegurð, fýsast þeir eilífliga at sjá hans andlit. En er Þángbrandr hafði þessa luti ok þessum líka talat með snjöllum framburði, þá mælti Hallr: þat sýnist mèr manninum úmáttuligt at skynja ok skilja, hversu dýrðarfullr sá mun vera, er slíkir ok svâ ágætir englar þjóna. Þángbrandr svarar: sannliga hefir heilagr andi blásit þessi skilníng í brjóst þèr heiðnum manni.

En er bóndi var til borðs kominn um kveldit ok heimamenn hans, mælti Hallr til sinna manna: Þángbrandr ok hans fèlagar halda hátíðliga þenna dag, er á morgin kemr, til dýrðar einum guði sínum, nú skulut þèr hafa frelsi ok halda heilagt þann dag með þeim, oss er ok lofat at gánga til ok sjá ok heyra athæfi þess siðar. Um morgininn sem Hallr var klæddr gekk hann til tjaldsins, ok stóð úti hjá með alla heimamenn sína, en er þeir heyrðu klukkuhljóð ok heyrðu fagrar raustir sýngjandi manna, er þeir höfðo hvârki furri heyrt, þá fannst þeim mikit um, ok þó enn meira þá er messa var súngin, er þeir sá klerka klædda ágætum skrúða, ok kerti skínandi með björtum ljósum, ok kendu hinn sætazta ilm reykelsis. En er Hallr kom heim, spurði hann heimamenn sína, hversu þeim virðist athæfi kristinna manna? þeir svaraðo, at þeim virðist harðla hreinligt ok fagrt alt þat, er þeir höfðo sèth ok heyrt af sið þeirra ok þjónostoembætti. Þángbrandr prestr talaði optliga fyrir Halli, ok eggjaði hann at snúast til siðlætis kristiligrar trúar. Ok einn tíma mælti Hallr til Þángbrands: svâ er háttat at hèr með mèr ero kerlíngar 2 mjök gamlar, hrumar ok örvasa, svâ at þær liggja í kör, ok megu ekki sjálfar bera sik, nú mun ek þik láta skíra kerlíngarnar, ok ef þær megu nökkut heldr hræra sik eptir skírnina, eðr þær sè þá nökkut sóttminni enn áðr, en þeim þýngi ekki við, er

þær ero svâ mjök hrærðar ok í vatn færðar, þá sè ek at mikill kraptr fylgir kristnum sið, skal ek þá láta skírast ok alt heimafólk mitt. Síðan eggjaði Hallr kerlíngarnar at taka trú þá, er Þángbrandr býðr, ok þá er þær höfðo játat þrífaldri spurníng kennimannsins af þrenníngar trú, ok svâ at beiðast skírnar, sem siðr er til, þá skírði Þángbrandr prestr þær í nafni föður ok sonar ok heilags anda, ok skrýddi þær hvítavâðum. En er Hallr húsbóndi kom til þeirra annann dag, ok spurði hversu þær mætti? svöruðu þær báðar senn svo segjandi: harðla vel megum við, þvíat sakir elli náttúru ero afllitlir limir okkrir, en þó alt at einu er í brottu allr sjúkleikr ok úhægindi, er okkr hefir lengi þýngt ok þröngt, en þar ímóti er komin algjör hvíld ok heilsa líkamans, þvíat allir okkrir limir ok liðir ero mjúkir ok hægir, hverr til [sinnar] þjónosto, þvílíkt sem við sèm vorðnar úngar í annat sinn, horfinn er ok allr uggr ok ótti ok lífsleiðindi, en við höfum fengit fagnat ok gleði ok sanna vân eilífrar gleði ok úkominnar sælu. Bóndi varð við þetta glaðr, ok hèt at taka trú. Var Hallr skírðr þvâttdaginn fyrir páska í brunnlæk sínum ok alt hans heimafólk; gaf Þángbrandr prestr þá nafn læk þeim ok kallaði Þvâttá, sem síðan er bærrinn viðkendr. Þángbrandr prestr fór um sumar til álþíngis með Halli, en er þeir komu suðr í Skógasveit, þá keyptu heiðíngjar at þeim manni, er þá var frægaztr á Ís-

landi af fjölkýngi, er hèt Galdra-Hèðinn, at hann skyldi svâ gera með sinni kunnáttu, at Þángbrandr prestr sykki kvikr í jörð niðr. Þeir Hallr gistu í Kirkjubæ, þar bjó þá Surtr [1]) Ásbjarnarson, Þorsteinssonar, Ketilssonar hins fíflska [2]), þessir lángfeðgar bjöggu í Kirkjubæ hverr eptir annann, ok voro allir kristnir, þvíat þar mátti aldri heiðinn maðr búa. En þann dag er þeir Hallr riðu af Kirkjubæ, þá sprakk jörðin undir Þángbrandi, ok savkk þar niðr hestr hans, en hann komst af baki, ok gat hjálpat sèr með guðs fulltíngi ok föronauta sinna. En Þángbrandr kom til þíngs, ok snèri mörgum mönnum til rèttrar trúar í Sunnlendíngafjórðúngi ok í norðrsveitum Eyfirðíngafjórðúngs, buðu þeir honum norðr þángat, er trú vildo taka, kom hann norðr í Öxarfjörð um sumarit, ok skírði þar marga menn í læk þeim hjá Skinnastöðum, er síðan heitir Þángbrandslækr [3]); en at Mývatni skírði hann menn [4]) í Þángbrandspolli; en fyrir ríki Eyfirðínga náði hann eigi lengra at fara vestr enn til Skjálfandafljóts. Á því sama sumri vâgu þeir Þángbrandr [ok Guðleifr [5]) Ara, son Márs, sonar [6]) Vetrliða skálds í Fljótshlíð um níð ok guðlastan. Um þat víg var þetta kveðit:

Ryð fjónar getr [7]) reynir
randa suðr [8]) á landi

[1]) Svartr, S. [2]) spaka, F. [3]) Brandslækr, B. C. S. F. [4]) mann, B. C. [5]) ok Guðbrandr, S. Guðbrand, F. [6]) Má son, S. [7]) gat, B. [8]) syðr, C.

beðs í bænar smiðju
baldr sig tólum [1]) halda;
sið reynir lèt sínu
snjallr morðhamar gjalla;
hauðrs í hattar steðja
hjaldrs Vetrliða skáldi.

Annarr maðr orti ok níð um Þángbrand ok Guðleif, er hèt Þorvaldr hinn veili, hann bjó í Heyvík [2]) í Grímsnesi; þessa vísu sendi Þorvaldr hinn veili Úlfi Uggasyni:

Yggs bjálba mun ek Úlfi
einhendis boð senda
mèr er við stála stýri
stygg laust [3]) syni Ugga;
at gný feta geitis
guðs varg [fyrir argan [4])
þann er við [5]) rögn of [6]) regni
reki hann [en ek annann [7]).

Slíkt orti hann ok mart verra. Úlfr kvað þessa vísu ímóti:

Tekkat [8]) ek sunds þot [9]) sendi
sann reynir boð tanna
hvarfs við hleypi skarfi
harð barðs [10]) vea fjarðar [11]);

[1]) baldrs sightólum, *B*, *C*. [2]) Eyvík, *S*, *F*. [3]) stugglaust, *B*, *C*, *S*. [4]) hèr fyrir annann, *B*. [5]) *vantar í C*. [6]) ok *C*. af *S*. [7]) ek man annann *C*. en ek mun annann, *B*. [8]) gekk at, *B*. Teckað, *C*. tek at, *S*. [9]) þat er, *B*, *C*. þótt, *S*. [10]) harbarða, *B*, *C*. [11]) veilfjarðar, *B*. veelfjarðar, *C*.

erat ráfáka ræki
raung ero mál á gángi
sè ek við miklu meini
minligt flugu at gína.

Síðan drápu þeir Þángbrandr ok Guðleifr Þorvald hinn veila við Hestlæk. Eptir þat fór Þángbrandr austr til skips síns ok bjóst til utanferðar, lèt hann í haf, þegar hann var búinn, þvíat hann sá sik lítit vinna í kristniboðinu, þvíat þeir voro fáir, er með lítillæti gengu góðfúsliga undir guðs boðorð ok helga skírn, hjá því sem hinir er með fullum illvilja gengu ímóti, ok leituðu allskostar niðr at lemja kristinndóm. En er Þángbrandr var skamt í haf kominn, þá lögðust á mótviðri með stormum, ok varð hann aptrreka til Íslands, tók hann land í Höfn í Borgarfirði skamt frá Hvítá. Þá bjó í Skálholti Gizur hvíti Teitsson [Ketilbjarnarsonar [1]); en er hann spurði at Þángbrandr var vorðinn aptrreka, þá bauð hann honum til sín, ok var Þángbrandr í Skálaholti um vetrinn; á þeim vetri tók stormr upp skip Þángbrands ok braut nökkut; um þat orti Steinunn móðir Skáldrefs:

Þórr brá þummils [2]) dýri
Þángbrands or stað laungu [3])
hristi borð ok beysti
barðs ok laust við jörðo;
munat skíð um seá síðan

1) Ketilssonar Bjarnarsonar, *S*. 2) þyrnils, *B*.
3) lengra, *B*, *C*.

sundfært Atals grundar
hregg þvíat hart tók [1]) leggja
hânum kent í spánu.

Ok enn kvað hún:

Braut fyrir bjöllu gæti
bönd ráku val strandar
mavg [2]) fellandi mellu
mostalls [3]) vísund allan;
hlífðit Kristr þá er kneyfði
knörr málfeta [4]) varrar,
lítt hygg ek at guð gætti
gylfa [5]) hreins at einu.

Þat skip lèt Þángbrandr bæta ok kallaði járnmeis, þar er viðkendr Járnmeishöfði. Um vârit fór Þángbrandr vestr til Breiðafjarðar á Barðaströnd, ok dvaldist um hríð með Gesti Oddleifssyni, þar skoraði berserkr nökkurr útlendr á hann til hólmgaungu. Þángbrandr sagði sik þess albúinn. Berserkrinn mælti: þú munt eigi þora at gánga til einvígis við mik, ef þú sèrr áðr íþróttir mínar. Þángbrandr spurði, hverjar þær íþróttir væri? hann svarar: ek geng um eld brennanda berum fótum, eðr ek læt fallast á saxodd minn hlífarlauss, ok skaðar mik hvârki. Þángbrandr svarar: guð mun því ráða. Þá var gjörr eldr mikill, ok vígði Þángbrandr eldinn, en berserkrinn gekk á úhræddr, ok brann mjök á fótunum; siðan lèt hann fallast á sverðit,

[1]) fèkk, *B.* [2]) marg, *C.* [3]) mástalls, *S*, *F.*
[4]) málmfeta. [5]) gylfat, *B.*

en Þángbrandr gerði áðr krossmark yfir oddinum, ok fèkk berserkrinn þar af þegar bana; hans dauða fagnaðu eigi at eins kristnir menn, heldr ok jafnvel heiðíngjar, þvíat berserkr þessi hafði veitt mörgum mannimikla kúgan ok yfirgáng; lèt Gestr þá primsignast ok nökkurir menn vestr þar, sem voro vinir Gests. Eptir þat fór Þángbrandr til skips síns, ok fór utan um sumarit á Járnmeis, ok tókst sú ferð vel, kom hann af hafi utan at Þrándheimi ok lagði inn til Níðaróss.

*Kjartan, Gissur ok Hjalti biðja griða Íslendíngum.*

217. Nú verðr furst at segja frá þeim íslenzkum mönnum, er þetta sama sumar komu utan af Íslandi til Níðaróss, litlu áðr enn Ólafr konúngr kom norðan af Hálogalandi. Þar var einn maðr Halldór, son Guðmundar hins ríka af Möðruvöllum; annarr Kolbeinn, son Þórðar Freysgoða, bróðir Brennu-Flosa; þriði Svertíngr, son Runólfs goða; þar rèð ok fyrir skipi Þórarinn Nefjúlfsson [1]); þessir voro allir heiðnir, ok margir aðrir bæði ríkir ok úríkir. Þessir menn, sem nú voro nefndir, hverr með sína skipverja, leitaðu til brautsiglíngar, þegar Ólafr konúngr var kominn norðan af Hálogalandi, þvíat þeim var sagt, at konúngr nauðgaði alla menn til kristni; lögðu heiðíngjar þegar út or ánni, er konúngr var kominn til bæjarins, sigldu þeir út eptir firði, því næst gekk þeim veðr í þrá, ok rak þá inn aptr

1) Nefólfs, *B.* Nefúlfs, *C. F.*

undir Níðarhólm. Þetta var sagt Ólafi konúngi, at Íslendíngar lágu út undir hólmi nökkurum skipum, ok voro allir heiðnir ok vildo flýja fund hans. Konúngr sendi þegar menn út til þeirra, ok bannaði þeim brautferð ok bað þá leggja inn til bæjar; þeir gerðu svâ, en báru ekki af skipum sínum. Í þann tíma komo af Íslandi göfgir menn ok mikilsverðir, þeir er við kritsni höfðo tekit af Þángbrandi presti, Gizur hvíti ok Hjalti Skeggjason or Þjórsárdal; Hjalti átti Vilborgu, dóttur Gizurar hvíta, en sú var savk til utanferðar Hjalta, at um sumarit á alþíngi hafði Hjalti kastat fram kviðlíngi þessum:

Vil ek eigi goð geyja
grey þikkir mèr Freyja,
æ mun annat tveggja
Óðinn grey eða Freyja.

En furstr manna tók undir þenna kviðlíng Runólfr goði Úlfsson, Jörundarsonar, ok kallaði Goðgá, ok sótti hann Hjalta til sektar þar um, þó at eigi væri auðvelt, sýndi hann meirr í því máli kapp sitt ok ríkdóm enn rèttlæti, þvíat hann gat eigi haldit dóminum fyrir vinsæld Hjalta; fur enn hann setti dóminn á Öxarárbrú, ok lèt verja vígi brúarsporðana; en þá fèkkst eigi maðr til at reifa málit furrenn sá maðr settist í dóminn at reifa málit, er hèt Þorbjörn, ok var Þorkelsson or Guðdölum; í þeim dómi varð Hjalti sekr fjörbaugsmaðr um Goðgána, bjó hann sik þat sama sumar til utanferðar á því skipi, er hann hafði

gera látit heima í Þjórsárdal; en er hann var búinn, fór hann ofan eptir Rángá enni vestarri [1]) til sjóvar, en er þeir hèldu ofan eptir ánni, rann maðr mikill ok úkunnr eptir bakkanum, sá hafði skjöld fur sèr ok spjót; Hjalti grunaði at sjá maðr mundi til hans sendr, ok kallaði á hann svâ segjandi: þú hinn mikli maðr, þèr í brjósti liggr hálmsvisk [2]), þar er hjartat skyldi vera. En hann skaut spjótinu til Hjalta svâ hart, at ígegnum gèkk skjöldinn, er hann brá fur sik; tóko þeir þá manninn ok spurði Hjalti, hverr hann var eðr hverr hann hafði sent til þessa? hann svarar: ek heiti Narfi, ek er sendr af Runólfi goða, at leysa svâ sekt mína at drepa þik. Hjalti mælti: ek skal gefa þèr heillaráð at verða sýkn; far þú utan með mèr ok ver minn fylgðarmaðr; hann játti því. Síðan fóro þeir Gizur ok Hjalti utan, fundu þeir Ólaf konúng í Níðarósi, tók konúngr þeim blíðliga, þegar hann vissi at þeir voro kristnir.

*Skörúngskapr Hjalta ok Gissurar.*

218. Litlu síðarr kom Þángbrandr á fund Ólafs konúngs nýkominn af Íslandi, sagði hann konúngi, hversu Íslendíngar höfðo illa við honum tekit; sumir níddu mik, segir hann, en sumir vildu drepa mik, en at lyktum var ek gjör sekr á allsherjar þíngi, ok þat er víst, at þarlenzkr lýðr mun alldregi trú taka utan fáer menn. Við þessa kærslu Þángbrands varð konúngr ákafa

[1]) vestri, *B. C.* [2]) hálmvisk, *C. F.* hjálmvisk, *B.*

reiðr, svâ at hann lèt þegar blása til þíngs, ok boða til öllum íslenzkum mönnum, þeim sem þar voro í bænum eðr á skipum, bað síðan taka alla, er heiðnir voro, ræna, meiða eðr drepa, en höfðíngjar íslenzkir, Kjartan Ólafsson, Gizur, Hjalti ok aðrir, þeir er kristnir voro, gengu fyrir konúng, ok báðu Íslendíngum friðar, ok mæltu: eigi muntu, herra konúngr! gánga á bak orðum þínum, þú segir at engi maðr skuli svâ mikit hafa gert til reiði þinnar, at eigi viltu þat uppgefa, þeim er skírast vilja ok láta af heiðni; nú vilja þeir allir íslenzkir menn, sem hèr ero, taka sanna trú ok láta skírast, en vèr munum finna þat ráð til, at kristnin mun viðgánga á Íslandi: ero hèr margra ríkra manna synir af Íslandi, ok munu feðr þeirra mikit liðsinni veita at þessu máli; en þat hæfir við heiðit fólk ok grimmt, at fara at með vitrligum ráðum ok þó með vægð ok mjúklæti, ok vinnr slíkt opt meira enn grimd ok ákafi, því heldr sem harðari ok hraustari menn ero ímót: en Þángbrandr vingaðist við fá menn á Íslandi, er yðr, herra! eigi úkunnigt, hverju hann fór fram hèr með yðr, hafði hann út þar hit sama skaplyndi, fór með ofstopa ok harðindi ok drap menn, ef honum mislíkaði við, ok þoldo menn honum þar ekki slíkt. En er þeir Hjalti ok Gizur luku sinni ræðu lángri ok snjallri, þá mælti konúngr: hverir eðr hverrar ættar ero hinir málsnjöllo

menn? Gizur svarar: Hjalti er Skeggjason, Þorgeirssonar, Eilífssonar, Ketilssonar ens einhenda [1]); móðir Hjalta var Þorgerðr, dóttir Hlífar, dóttur Torf-Einars jarls, Rögnvaldssonar Mæra jarls: en ek er, sagði Gizur, son Teits Ketilbjarnarsonar, Ketilssonar ríks manns or Naumudal; móðir Ketilbjarnar hèt Æsa, dóttir Hákonar jarls Grjótgarðssonar; móðir Teits, föður míns, sagði Gizur, var Helga, dóttir Þórðar skeggja Hrappssonar, Bjarnarsonar bunu, Veðrgrímssonar; en móðir mín var Álof, dóttir Böðvars, sonar Víkínga-Kára; var Böðvarr bróðir Eiríks af Ofrostöðum móðurföður þíns, konúngr! gerða ek þat fyrir frændsemis sakir við yðr, konúngr! er ek bauð Þángbrandi til mín, þá er aðrir hötuðu hann. En er konúngr vissi svâ mikla frændsemi þeirra Gizorar, varð hann við þat blíðr, ok sagði svâ: þit mágar skulut vera velkomnir með oss í vetr, ok ef þit heitit umsýslu ykkarri ok meðgángi, at vârr vili gángi fram um kristniboðit á Íslandi, þá skulu allir þessir íslenzkir menn fara frjálsir fyrir oss, utan þeir 4, sem þèr kallit göfgazta, þeim mun ek halda hèr í gislíng, þar til er kristinndómr er lögtekinn á Íslandi eðr ella fullkomliga fyrirtekinn; nefni ek þar til þann mann, er hèr hefir dvalizt með oss um hríð, ok vèr höfum reynt at röskum dreng, Kjartan Ólafsson ok Haldór Guðmundarson, Kolbein Þórðarson

[1]) einarða, B.

freysgoða ok Svertíng Runólfsson; nú munu feðr ok frændr þessarra manna mikit vald á hafa, hvârt ek sendi þá þeim til handa með sæmd eðr læt ek drepa þá. Þeir Hjalti svaraðo: gjarna viljum við þessu heita til frelsis Íslendíngum, ok einkannliga biðja, at þèr gerit vel til þessa manna, er þèr nefndut í gislíng. Konúngr mælti: hvat er ykkr lángt at þessum mönnum, hvârt mægðir eða frændsemi, er þit biðit fur svâ alvöruliga? Þá varð til at svara konúngi einn norrænn maðr heldr hvatvíss: ek var í sumar, segir hann, á alþíngi Íslendínga, þá er Runólfr, faðir þessa Svertíngs, sekði Hjalta. Þá svarar Þángbrandr ok bað þann mann skjótt þegja, en þèr, konúngr! segir hann, gerit vel við Hjalta ok Gizur, þvíat þeir ero reyndir at því, at þeir launa opt góðu þeim er illa gera við þá, sem Hjalti sýndi enn, er hann fór af Íslandi, er hann tók þann mann í sína ferð, er sendr var til höfuðs honum ok vildi drepa hann. Eptir þetta voro skírðir allir Íslendíngar, þeir sem þar voro áðr úskírðir; voro þeir Gizur ok Hjalti um vetrinn með Ólafi konúngi í hinni mestu sæmd ok kærleikum; gislarnir voro ok með Ólafi konúngi um vetrinn vel haldnir.

[*Frá Hallfreði*].

219. Nú er þar til at taka er Hallfreyðr vandræðaskáld var austr á Gautlandi 2 vetr, ok hafði gengit at eiga heiðna kono, hann fór á fund

Ólafs Svía konúngs, ok flutti honum drápu, er hann hafði ort um hann, ok þá af honum góðar gjafar; ok hinn síðarra vetrinn, er Hallfreyðr var á Gautlandi, var þat eina nótt at honum sýndist Ólafr konúngr í svefni reiðuligr ok mælti til hans: illa gerir þú, er þú kastar mjök svâ kristni þinni, nú er þèr ráðligra at fara á minn fund með lið þitt ok endrbæta trú þína. Hallfreyðr andvarpaði mjök, er hann vaknaði. Íngibjörg spurði, hvat hann hafi dreymt? Hallfreðr segir hvat fyrir hann hafi borit, eðr hversu mun þèr um þat gefit, hvârt muntu vilja fara með mèr á fund Ólafs konúngs? á ek þèr mikit gott at launa, nú mætta ek svâ helzt ömbuna þèr þinn góða at leiða þik til sannrar trúar ok sáluhjálpar. Hún svarar: slíks var eigi lítil vân, at þik mundi þángat heimta, ok fyrir því at ek skil, at sá [1]) er betri enn hinn, er vèr höfum áðr haldit, þá vil ek fur víst fara með þèr. Þau áttu son vænligan, er hèt Auðgisl, hann var vetrgamall, en hún var þá ok með barni. Um vârit bjöggust þau austan, ok fór Auðgisl með þeim, þau lèttu sinni ferð eigi furr enn þau komo norðr í Þrándheim um haustit á fund Ólafs konúngs. Konúngr tók vel við Hallfreði, ok ásakaði hann þó nökkut um þat, er hann hafði svâ lengi verit með heiðnum mönnum, ok fengit heiðinnar kono; fèkk konúngr prest at setja honum skriptir, ok gekk Hallfreðr glaðliga

[1]) siðrinn, *bæta við B, C.*

undir alt þat, er honum var boðit. Litlu síðarr fæddi Íngibjörg kona hans sveinbarn, þeim sveini gaf Hallfreðr nafn sitt, ok var hann kallaðr Hallfreðr, eptir þat var Íngibjörg skírð ok synir þeirra Hallfreðar báðir. Síðan mælti konúngr til Hallfreðar: enn skáltu bæta framarr við guð, er þú hefir mjök svâ gengit af trú þinni, vil ek nú at þú yrkir uppreistardrápu ok bætir svâ sál þína, en hafir eigi til ílls eins íþrótt þá, er guð hefir gefit þèr. Hallfreðr segir sik þat gjarna vilja, ok alt annat, þat er hann mætti gera eptir vilja Ólafs konúngs. Var hann með konúngi um vetrinn í góðri virðíng, tók hann þá at yrkja uppreistardrápu, ok er þat hit bezta kvæði. Þann vetr andaðist Íngibjörg, kona hans, ok þótti Hallfreði þat hinn mesti skaði.

[*Frá Eiríki rauða ok Leifi inum heppna*].

220. Þorvaldr hèt maðr, son Ásvalds Úlfssonar, Avxnaþórissonar. Þorvaldr ok Eiríkr hinn rauði son hans fóro af Jaðri til Íslands fyrir víga sakir; þá var víða bygt Ísland. Þeir bjöggu furst at Draungum á Hornstravndum, þar andaðist Þorvaldr; Eiríkr fèkk þá Þórhildar, dóttur Jörundar Atlasonar ok Þorbjargar knarrarbríngu, er þá átti Þorbjörn hinn haukdælski; son Eiríks ok Þórhildar hèt Leifr. Rèðst Eiríkr þá norðan ok bjó á Eiríksstöðum hjá Vatzhorni; en eptir víg Eyólfs saurs [1]) ok Hólmgaungu-Hrafns var Eiríkr gjör braut or Haukadal, fór hann þá vestr

[1]) Sámssonar, *B*, *C*.

til Breiðafjarðar, ok bjó í Öxney [1]) á Eiríksstöðum, hann lèði Þorgesti á Breiðabólstað setstokka ok náði eigi, er hann kallaði til; þaðan af gerðust deilur ok bardagar með þeim Eiríki ok Þorgesti, sem segir í sögu Eiríks. Sturr [2]) Þorgrímsson veitti Eiríki at málum ok Eyólfr or Svíney ok Þorbrandr [3]) or Álptafirði ok Þorbjörn Vívilsson; en Þorgestlíngum veittu synir Þórðar Gellissonar [4]) ok Þorgerr or Hítardal. Eiríkr varð sekr á Þórsnessþíngi, bjó Eiríkr þá skip til hafs í Eiríksvâgi, en er hann var búinn, fylgðu þeir Styrr honum út um eyjar; Eiríkr sagði þeim, at hann ætlaði at leita lands, er Gunnbjörn, son Úlfs kráku sá, þá er hann rak vestr um Ísland, er hann fann Gunnbjarnarsker, hann kvaðst aptr mundi leita til vina sinna, ef hann fyndi landit. Eiríkr sigldi undan Snæfellsnesi, hann fann landit ok kom utan at, þar sem hann kallaði Miðjökul [5]), sá heitir nú Bláserkr, hann fór þaðan suðr með landinu, ok leitaði ef þángat væri byggjanda, hann var hinn fursta vetr í Eiríksey nærr miðri hinni eystri bygð; um vârit eptir fór hann til Eiríksfjarðar ok fèkk sèr þar bústað; hann fór þat sumar [6]) í hina vestri bygð [7]), hann var annann vetr í Eiríkshólmum við Hvarfsgnípu, en hit 3ja sumarit fór hann alt norðr til Snæfells ok inn í Hrafnsfjörð [8]), þá

[1]) Yxney, *C.* [2]) Styrr, *C.* [3]) synir Þorbrands, *B, C.* [4]) *vantar í B, C.* [5]) Mikla jökul, *B, C.* [6]) sama haust, *C.* [7]) ok gaf þar margstaðar avrnefni, *B, C.* [8]) Hafursfjörð, *C.*

kvaðst hann kominn fyrir botn Eiríksfjarðar, hvarf hann þá aptr ok var hinn 3ja vetr í Eiríksey fur mynni Eiríksfjarðar. Eptir um sumarit fór hann til Íslands ok kom skipi síno í Breiðafjörð, hann kallaði land þat, er hann hafði fundit, Grænland, [þvíat hann kvað þat mjök mundo fýsa menn þángat, ef landit hèti vel. Eiríkr var á Íslandi um vetrinn, en um sumarit eptir fór hann at byggja Grænland, ok bjó í Brattahlíð í Eiríksfirði. Svâ segja fróðir menn, at á því sumri, er Eiríkr rauði fór at byggja Grænland, fór hálfr þriði tögr skipa or Breiðafirði ok Borgarfirði, en 14 komust út þángat, sum rak aptr, sum týndost; þat var 15 vetrum furr enn kristni væri lögtekin á Íslandi. Á því sama sumri fór utan Friðrekr biskup ok Þorvaldr Koðránsson [1]).

*Leifr Eiríksson kemr til Noregs.*

221. Þá er 14 vetr voro liðnir frá því, er Eiríkr hinn rauði fór at byggja Grænland [2]), þá fór Leifr son Eiríks utan af Grænlandi til Noregs, kom hann til Þrándheims um haustið, þá er Ólafr konúngr Tryggvason var kominn norðan af Hálogalandi. Leifr lagði skipi síno inn til Níðaróss, ok fór þegar á fund Ólafs konúngs,

[1]) þvíat hann sagði landit mundi vel gefast mönnum, ok sagði marga ágæta kosti (ok gagnauðgan) af landinu, veiðiföng nóglig allra handa bæði sela ok hvala ok rostúnga, bjarndýra ok margra annarra kvikenda, ok vildi þann veg fýsa menn þángat (með sèr til landsins, *B. þannig einnin C. að fráskilðu því innstrikaða.* [2]) Grænaland, *C. stundum.*

boðaði konúngr honum trú sem öðrum heiðnum mönnum, er á hans fund komo; gekk konúngi þat auðveldliga við Leif; var hann þá skírðr ok allir skipverjar hans; var Leifr með konúngi um vetrinn vel haldinn.

*Dráp Guðröðar konúngs Eiríkssonar.*

222. Guðröðr konúngr son Eiríks blóðøxar ok Gunnhildar hafði verit í hernaði í vestrlöndum, síðan hann flýði land í Noregi fur Hákoni jarli; en á þessu sumri, sem nú er áðr frásagt, þá er Ólafr konúngr Tryggvason hafði 4 vetr ráðit Noregi, kom Guðröðr til Noregs ok hafði mörg herskip, hann hafði þá siglt út af Englandi, en er hann kom í lanðs vân við Noreg, þá stefndi hann suðr með landi, þar er honum var minni vân fyrir Ólafs konúngs, sigldi Guðröðr austr til Víkrinnar, en þegar hann kom til lands, tók hann at herja ok braut undir sik landsfólkit, en beiddi sèr viðtöku; en er landsmenn sá at herr mikill var kominn á hendr þeim, þá leituðu þeir sèr griða ok sætta, ok buðu konúngi at þíngboð skyldi fara um landit, sögðu at þeir vildo heldr veita honum viðtöku enn þola her hans, ok stefna til fjölmennt þíng at taka hann til konúngs; var þar mælt á laung frest meðan þíngboð færi um alla Víkina, krafði þá konúngr vistagjalds, meðan sú bíðandi skyldi vera, en bændr kjöru heldr hinn kost at búa konúngi veizlur svâ lengi sem þurfti ok þíngboð stæði yfir. Guðröðr konúngr tók þann kost, at

hann fór yfir landit at veizlum með sumt lið sitt, en sumt gætti skipa hans; þeir bræðr Þorgerr ok Hyrníngr, mágar Ólafs konúngs, voro skipaðir af hans hálfu höfðíngjar yfir alla Víkina, þá er Ólafr konúngr var norðr í landi; sendo bændr þeim orð miklu skjótara enn þíngboð fór, ok lèto segja þeim um hernat Guðraðar konúngs, ok svâ alt hversu þá var komit; en þegar þeir bræðr frèttu þessi tíðindi, lèto þeir fara örvarboð fjögurra vegna frá sèr ok stefndo til sín liði um öll hin næstu hèrut, rèðu sèr síðan til skipa ok fóro norðr í Víkina, komu þeir á einni nótt með lið sitt þar sem Guðröðr konúngr var á veizlu, veittu honum þar atgaungu bæði með eldi ok vopnum; fèll þar Guðröðr konúngr ok flest alt lið hans; síðan hèldo þeir til móts við þat lið, sem at skipunum var, var þat sumt drepit, en sumt komst undan ok flýði víðsvegar, voro þá dauðir allir synir Eiríks ok Gunnhildar. En er Ólafr konúngr frètti þessi tíðindi lèt hann vel yfir þessu verki, ok þakkaði mágum sínum sitt tilræði ok hraustleik.

*Reistr Ormrinn lángi.*

225. Þann vetr eptir, er Ólafr konúngr hafði komit af Hálogalandi, lèt hann reisa skip inn undir Hlaðhömrum [1]) þat er meira var miklu enn önnur skip, þau er þá voro í Noregi, ok ero enn þeir bakstokkar þar, svâ at sjá má.

[1]) Hlaðhólmum, *B.*

Þorbergr [Skafhaugsson hèt sá maðr, er stafnasmiðr [1]) var at skipinu, ok höfuðsmiðr at reisa í furstu, en þar voro margir aðrir at, sumir at fella, sumir at telgja, sumir saum at slá, sumir til at flytja viðu eðr aðra luti þá sem þurfti, voro þar allir lutir mjök vandaðir til, var skip þat bæði lángt ok breidt, borðmikit ok stórviðat. En er þeir báru skipit borði, þá átti Þorbergr [2]) nauðsynja erendi at fara heim til búss [3]) síns, ok dvaldist hann þar mjök lengi, en er hann kom aptr var skipit fullborða, fór konúngr þegar um kveldit ok Þorbergr með honum at sjá skipit, hvernveg vorðit var, ok mælti þat hverr maðr, er sá, at aldri hefði sèð lángskip jafnmikit ok jafnfrídt; fór þá konúngr aptr í bæinn. En snimma um morgininn fór konúngr enn til skipsins ok þeir Þorbergr, voro þá smiðir áðr þar komnir, stóðu þeir allir ok höfðust ekki at; konúngr spurði, hví þeir færi svâ? Þeir sögðu at spilt var skipinu, at maðr mundi gengit hafa frá framstafni til lyptíngar, ok setti borðit ofan hvert skýlihögg at avðru. Gekk konúngr þá til ok sá at satt var; mælti hann þegar ok sór um, at sá maðr skyldi deyja, ef hann vissi hverr fur öfundar sakir hefði spilt skipinu, en sá, er mèr kann segja, sagði konúngr, skal mikil gæði af mèr hljóta. Þá svarar Þorbergr: ek mun kunna at segja yðr, herra! hverr þetta verk mun gert

[1]) Skaföxson ok Þorgeir stakar höfðu verit stafnasmiðir, *F.*
[2]) ok Þorgeir, *bætir við F.* [3]) búrs, *B.*

hafa. Konúngr mælti: mèr er ok eigi at avðrum meiri vân, at þat happ muni henda at verða þessa viss, ok kunna mèr at segja. Þat skal ek ok segja þèr, herra! ek hefir gört. Konúngr svarar: þá skaltu ok bæta svâ at jafnvel sè sem áðr var eðr betr, skal þar líf þitt við liggja. Síðan gekk Þorbergr til ok telgði borðin svâ at öll gengu or skýlihöggin. Mælti þá konúngr ok allir þeir er sá, at skipit væri miklu fríðara á þat borðit, er Þorbergr hafði skorit; bað konúngr hann þá svâ gera á bæði borð ok bað hann hafa mikla þökk fur. Var þá Þorbergr höfuðsmiðr fur skipinu, þar til er algört var, var þat dreki, ok gört eptir því sem var dreki sá, er Ólafr konúngr hafði norðan af Hálogalandi, en þó var þetta skip miklu meira, ok at öllum lutum meirr vandat; þenna dreka kallaði hann Orm hinn lánga, en hinn Orm hinn skamma; á lánga Ormi voro 4 rúm ok 50 [1]), höfuðit ok krókrinn var alt gullbúit, svâ voro borðin há sem á hafskipum; þat hefir skip verit bezt gert ok með mestum kostnaði í Noregi.

224. Ólafr konúngr ok Þyri drotníng sátu í Níðarósi um vetrinn eptir, er Ólafr konúngr hafði kristnat Hálogaland. Þyri drottníng hafði um sumarit áðr fædt sveinbarn, er þau Ólafr konúngr áttu, sá sveinn var bæði mikill ok efniligr, ok var kallaðr Haraldr eptir móðurföður sínum,

[1]) 20. B.

unnu þau konúngr ok drottníng þeim sveini mikit, ok hugðu gott til, at hann mundi fæðast upp ok taka arf ok ríki eptir föður sinn, en hann lifði eigi fult ár frá því, er hann var fæddr, þótti þeim báðum þat mikill skaði. Þann vetr var margt íslenzkra manna með konúngi sem áðr er sagt, ok margir göfgir menn aðrir, þá var ok með hirðinni Íngibjörg Tryggvadóttir, systir Ólafs konúngs, hún var fríð kona sýnum, lítillát ok blíð við alþýðu, fasttæk ok drenglynd í skapi ok allvinsæl, hún var vel til allra Íslendínga þeirra er þar voro, en Kjartan Ólafsson var henni kunnaztr, þvíat hann hafði lengst af þeim verit með konúngi, þótti honum ok skemtiligt opt at tala við hana, þvíat hún var bæði vitr ok snjöll í máli. Ólafr konúngr var jafnan glaðr ok kátr við sína menn, ok leiddi mjök at spurníngum um háttu ok höfðíngskap ríkra manna af hinum næstum löndum, ef menn komo til hans af Danmerk eðr Svíþjóðu. Hallfreðr Vandræðaskáld hafði komit um sumarit austan af Gautlandi, hann hafði verit með Rögnvaldi jarli Úlfssyni, er þá var kominn til ríkis i Vestra-Gautlandi. Úlfr, faðir Rögnvalds, var bróðir Sigríðar ennar stórráðu; voro þeir systkinasynir Ólafr konúngr sænski ok Rögnvaldr jarl; sagði Hallfreðr Ólafi konúngi Tryggvasyni af jarli mart, sagði at hann var hraustr höfðíngi ok stjórnsamr, örr af penníngum, drenglyndr

ok vinhollr, sagði Hallfreðr þat ok með, at jarl vildi hallast til vináttu undir Ólaf Noregs konúng, ok hafði þat talat fyrir honum, at hann mundi biðja Íngibjargar Tryggvadóttur. Á þeim vetri komu austan af Gautlandi sendimenn Rögnvalds jarls, fundu þeir Ólaf konúng norðr í Níðarósi, báru þeir fram fyrir konúng erendi jarls öll slík, sem Hallfreðr hafði áðr orði á komit, at hann vildi vera fullkominn vin Ólafs konúngs, ok þar með mælti jarl til mægðar við konúng ok vildi fá Íngibjargar systur hans; fluttu sendimenn konúngi hèr með berar jartegnir, at þeir fóro með sönnum hans erendum [1]; tók konúngr vel því máli, en sagði at Íngibjörg mundi sjálf miklu ráða um gjaforð sitt. Síðan talaði konúngr þetta mál við systur sína, ok spurði hversu henni væri um þetta gefit. Hún svarar svâ: ek hefir verit með yðr um hríð, ok hafit þèr veitt mèr bróðurliga umsjá ok elskuliga sæmð í alla staði, síðan þèr komut í land þetta; nú fyrir því vil ek játa yðvarri forsjá um gjaforð mitt, at ek vænti, at þèr giptit mik eigi heiðnum manni. Konúngr segir at svâ skyldi vera; átti konúngr þá tal við sendimenn, ok var því ráðit, áðr þeir fóro í braut, at Rögnvaldr jarl skyldi koma til móts við Ólaf konúng um haustit [2]) austr í landi, ef hann vildi gera við hann fullkomna vináttu, skyldo þeir þá tala sjálfir með sèr þessi mál, er

[1]) *þannig B.* jartegnum *A.* [2]) sumarit *B, F.*

þeir fyndist. Fóro þá sendimenn jarls austr aptr með þessum erendum, en Ólafr konúngr sat í Níðarósi um vetrinn með mikilli rausn ok fjölmenni.

225. Mikil ok margföld er miskun alsvaldandi guðs í öllum lutum, ok háleitir hans dómar, er hann lætr engan góðgerníng fyrirfarast, heldr kallar hann með elskuligri mildi þá, sem eigi kunnu hann áðr til at nema, skynja ok skilja, dýrka ok elska sinn lausnara, sem vârr herra Jesus kristr lifandi guðs son hefir sýnt í *mörgum atburðum, þó at vèr munim fá tína,* svâ sem í furboðan miskunar tilkvâmu ok fullkomins kristinsdóms á Íslandi, sýnir ok sjálfr guð í þeim frásögnum, er eptirfara, at hann styðr ok styrkir hvert gott [1]) þeim til gagns er gera, en hann únýtir ok eyðir illsku ok grimd vândra manna, svâ at optliga fyrirfara þeir sjálfum sèr í þeim snörum er þeir hugðo [2]) öðrum. Nökkuru eptir utanferð Friðreks biskups ok Þorvalds Koðránssonar gerðist á Íslandi svâ mikit hallæri, at fjöldi manns dó af sulti. Þá bjó í Skagafirði nökkurr mikilsháttar maðr ok mjök grimmr, er nefndr er Svaði, þar sem síðan heitir a Svaðastöðum; þat var einn morgin, at hann kallaði saman marga fátæka menn, hann bauð þeim at gera eina mikla gröf ok djúpa skamt frá almannaveg, en þeir hinir fátæku vurðu fegnir, ef þeir mætti af ömbun erfiðis síns með nökkuru móti slök-

[1]) verk *bætir við B.* [2]) *þannig B.* hugðust *A.*

kva sinn sára húngr, ok um kveldit, er þeir höfðo lokit grafar gjörðinni, leiddi Svaði þá alla í eitt lítit hús, síðan burgði hann húsit, ok mælti til þeirra manna er inni voro: gleðizt þèr ok fagnit, þvíat skjótt skal endir á verða yðvarri eymd, þèr skulut hèr búa í nótt, en á morgin skal yðr drepa ok jarða hèr í þessi miklu gröf, sem þèr hafit sjálfir gert. En er þeir heyrðo þenna grimmiliga dóm, er þeim var dauði ætlaðr fyrir sitt erfiði, tóko þeir at æpa með sárligri sorg um alla nóttina. Þar bar svâ til at Þorvarðr hinn kristni, son Spakböðvars, fór þá sömu nótt upp um hèrat at erendum sínum, en leið hans lá allsnemma um morgininn hjá því sama húsi, er hinir fátæku menn voro inni, ok er hann heyrði þeirra grátliga þyt, spurði hann, hvat þeim væri at ángri; en er hann varð hins sanna viss af þeim, mælti hann til þeirra: vèr skulum eiga kaup saman, ef þèr vilit sem ek, ef þèr vilit trúa á sannan guð, þann er ek trúi á, ok gera þat sem ek segi fur, þá mun ek frelsa yðr hèðan, komit síðan til mín í Ás, ok mun ek fæða yðr alla; þeir sögðust þat gjarna vilja; tók Þorvarðr þá slagbranda frá durum, en þeir fóro þegar fagnandi með miklum skunda til hús hans ofan í Ás. En er Svaði varð þessa varr, varð hann harðla reiðr, brá við skjótt, vâpnaði sik ok sína menn, riðu síðan með öllum skunda eptir flóttamönnum, vildi hann þá taka ok drepa, en í annann stað hugsaði hann at gjalda grimmu sína sví-

virðíng, er hann þóttist beðit hafa þeim, er þá hafði leysta, en hans illska ok vândskapr fèll honum sjálfum í höfut, því jafnskjótt sem hann reið hvatt fram hjá gröfinni, fèll hann af baki ok var þegar dauðr, er hann kom á jörð: ok í þeirri sömu gröf, er hann hafði fyrirbúit saklausum mönnum, var hann sekr heiðíngi sjálfr grafinn af sínum fylgðarmönnum, ok þar með honum hundr hans ok hestr at fornum sið. En Þorvarðr í Ási lèt prest þann, er hann hafði með sèr, skíra hina fátæku menn, er hann hafði leysta undan dauða, ok kenna þeim heilög fræði, fæddi þá alla þar at sín, meðan hallærit hèlzt. Þat segja flestir menn, at Þorvarðr Spakböðvarsson hafi skírðr verit af Friðreki biskupi; en Gunnlaugr múnkr getr þess, at sumir menn ætli hann skírðan hafa verit í Englandi, ok þaðan hafa flutt við til kirkju þeirrar, er hann lèt gera á bæ sínum. Móðir Þorvarðs Spakböðvarssonar hèt Arnfríðr, dóttir Slettubjarnar [1]), Hróarssonar; móðir Slettubjarnar [1]) hèt Gróa Herfinns [2]) dóttir, Þorgilssonar, Gormssonar hersis ágæts or Svíþjóð; móðir Þorgils Gormssonar var Þóra, dóttir Eiríks konúngs at Uppsölum; móðir Herfinns Eiríkssonar var Elína [3]), dóttir Búrizlafs konúngs or Görðum austan; móðir Elínar var Íngigerðr systir Dagstyggs Risa konúngs.

[1]) Sleitubjarnar, *F.* [2]) Hrafns, *F.* [3]) Elena, *B.* Helena, *F.*

226. Á þeim sama tíma sem nú var áðr frásagt, var þat dæmt á samkvâmu af hèraðsmönnum, at fur sakir sultar ok svâ mikils hallæris var leyft at gefa upp gamalmenni ok veita enga björg, svâ þeim er lama voro eðr at nökkuro vanheilir, ok eigi skyldi herbergja þá; en þá gnúði á hin snarpazta hríð með gnístandi frostum; þá var mestr höfðíngi út um sveitina Arnórr kerlíngarnef, er bjó á Miklabæ í Óslandshlíð; en er Arnórr kom heim af samkvâmu þessi, þá gekk fyrir hann móðir hans þuríðr, dóttir Refs frá Barði, ok ásakaði hann hardla mjök, er hann skyldi samþykkr hafa vorðit svâ grimmum dómi, tjáði hún fyrir honum með mikilli skynsemd ok mörgum sannligum orðum, hversu úheyrilig ok afskaplig úmennska þat var, at maðr skyldi selja í svâ grimman dauða föður sinn ok móður eðr aðra náfrændr. Nú vit þat víst, segir hún,. þó at þú gerir eigi sjálfr slíka luti, þá ertu alt at einu með engu móti hlutlaus eðr sýkn af þessu glæpafullu manndrápi, þar sem þú ert höfðíngi ok formaðr annarra, ef þú leyfir þínum undirmönnum at úthýsa í hríðum feðginum eðr frændum nánum, ok jafnvel þó at þú leifir eigi, ef þú stendr eigi með öllu afli ímót slíkum údáðum. Arnór skildi góðfýst móður sinnar ok tók vel hennar ásakan, gjörðist hann þá mjök áhyggjufullr, hvat hann skyldi athafast, tók hann þá þat ráð, at hann sendi sína heima-

menn á næstu bæi at samna saman öllu gamalmenni ok því er út var rekit ok flytja til sín, ok lèt þá næra með allri líkn; annann dag stefndi hann saman fjölða bónda; ok er Arnórr kom til fundarins, mælti hann svâ til þeirra: þat er yðr kunnigt, at vèr áttum fur skömmu almenniliga samkvâmu, en ek hefir síðan hugsat af sameiginligri vârri nanðsyn, ok brotit saman við þá úmannligu ráðagerð, er vèr vurðum allir samþykkir, ok gáfum leyfi til at veita lífljón gamalmenni, ok þeim öllum, er eigi mega vinna sèr til bjargar með því móti at varna þeim lífligrar atvinnu, ok hirtr sannri skynsemd iðrumst ek mjök svâ illskufullrar ok údæmiligrar gjörðar; nú þar um hugsandi hefir ek fundit þat ráð, sem vèr skulum allir hafa ok halda, þat er at sýna manndóm ok miskun við mennina, svâ at hverr hjálpi sínum frændum svâ sem framazt hefir faung á, einkannliga föður ok móður, ok þar út í frá þeir er betr mega, [firri sulti ok lífsháska [1]) aðra sína náfrændr, skulum vèr þar til leggja allan vârn kost ok kvikendi at veita mönnunum lífs björg, ok drepa til hjálpar vorum frændum fararskjóta vâra, heldr enn láta þá farast af sulti, svâ at engi bóndi skal eptir hafa á bæ sínum meirr enn 2 ross, svâ eigi síðr sá mikli úvandi, er hèr hefir framfarit, at menn fæða fjölda hunda, svá at margir menn mætti lifa við þann mat, er þeim er gefinn; nú

[1]) fyrir sulti ok lífsháska, ok *B.*

skal drepa hundana, svâ at fáir eðr engir skulu eptirlifa, ok hafa þá fæðu til lífs næríngar mönnum, sem áðr er vant at gefa hundunum. Nú er þat skjótazt af at segja, at með engu móti leyfum vèr at nökkurr yðvarr gefi upp sinn föður eðr móður, sá er með einshverju móti má þeim hjálpir veita, en sá er eigi hefir efni til at veita lífsnæríng sínum feðginum eða náfrændum, fylgi hann þeim til mín í Miklabæ, ok skal ek þá fæða, en hinu er má ok vill eigi viðhjálpa sínum nánaztum frændum, þeim skal ek grimmu gjalda með hinum mestum afarkostum. Nú þá mínir kæraztu vinir ok samfèlagar heldr enn undirmenn, fremjum í alla staði manndóm ok miskun við vâra náfrændr, ok gefum ekki færi til úvinum vorum því oss at brígsla at vèr hafim með ofmikilli fávizku gert úmakliga við vâra náúnga. Nú ef sá er sannr guð, er sólina hefir skapat, til þessa at birta ok verma veröldina, ok ef honum líkar vel mildi ok rèttlæti, sem ver höfum heyrt sagt, þá sýni hann oss miskun sína, svâ at vèr megim prófa með sannindum, at hann er skapari manna, ok at hann megi stjórna ok stýra allri veröldo, ok þaðan af skulum vèr á hann trúa ok engan guð dýrka utan hann einn, sannan ok sælan í sínu veldi. En er allir þeir, er þar voro saman komnir, játaðu sèr þetta alt vel viljat, er hann hafði tjáð ok talat, þá slitu þeir með því þínginu; þá var

hinn snarpazti kuldi ok frost, sem lángan tíma hafði áðr verit, ok hinir grimmaztu norðanvindar, en svelli ok hinu harðazta hjarni var steypt yfir alla jörð, svâ at hvergi stóð upp; en á næstu nótt eptir þenna fund, skiptist svâ skjótt um með guðligri forsjá ýmisleikr loptsins, at um morgininn eptir var á brautu allr grimmleikr frostsins, en kominn í staðinn hlær sunnanvindr ok hinn bezti þeyr; gjörði þaðan af hægja veðráttu ok blíðar sólbráðir, skaut upp jörðo dag frá degi, svâ at á skömmu bragði fèkk allr fènaðr nógt gras af jörðo til viðrlifnaðar; glavddust þá allir með miklum fagnaði, er þeir höfðo hlýdt því miskunnar ráði, er Arnór hafði tillagt með þeim, ok tóko þegar í mót svâ nógligan velgerníng guðligrar gjafar, ok fur því gengu allir þíngmenn Arnórs kerlíngarnefs [1]) fljótt ok feginsamliga með sínum höfðíngja undir helga siðsemi sannrar trúar, er þeim var litlu síðarr boðut, þvíat á fárra vetra fresti var kristni lögtekin um alt Ísland. Arnór kerlíngarnef var son Bjarnar Þórðarsonar frá Höfða; móðir Bjarnar hèt Þorgerðr dóttir Þóris hímu [2]) ok Friðgerðar, dóttur Kjarvals Íra konúngs; Höfða Þórðr var son Bjarnar byrðusmjörs, Hróalds sonar hrúks, Áslákssonar, Bjarnarsonar járnsíðu, Ragnarssonar loðbrókar.

---

[1]) karlar ok konor, F. [2]) Imu, F.

*Ólafr konúngr vitraðist Þórhalli á Knappstöðum.*

227. Maðr er nefndr Þórhallr ok kallaðr knappr, hann bjó á Knappstöðum í Fljótum. Þórhallr var göfugrar ættar, höfðo hans forellrar þar búit fur honum. Þórhallr var maðr siðlátr ok þó heiðinn, sem þá var flest fólk í þeim sveitum, hann var mjök tekinn ok þýngðr af líkþrá. Þórhallr blótaði skurðgoð at sið frænda sinna; var eitt hof ríkt eigi lángt frá bæ Þórhalls, er Fljótverjar hèldo allir samt ok höfðo þar blótveizlur á hverju áre. Á einni nótt, er Þórhallr svaf í rekkju sinni, dreymdi hann, at hann þóttist vera úti staddr, hann sá ríða mann bjartan at bæ sínum á hvítum hesti, skrýddan konúngligum búnaði, ok hafði gullrekit spjót í hendi, en er Þórhallr sá þenna mann nálgast, þá sló á hann ótta, ok vildi hann snúa inn í húsin, en riddarinn varð skjótari ok ljóp af baki, ok gekk fur dyrnar svâ segjandi: eigi skaltu óttast, því at þèr mun ekki mein verða at minni hèrkvâmu, heldr muntu öðlast af minni návist heilsu ok gleði, ef þú vill hlýðnast mínum ráðum; harmar þú þína vanheilsu? en eigi þarf ek þess at spurja, því at ek veit at þú harmar; far nú ok fylg mèr, ok skal ek sýna þèr öruggt heilsuráð. Kvâmumaðrinn leiddi hann einshvers staðar út at túngarðinum, [er gerdt var um bæinn [1]), ok mælti til hans: í þessum stað skaltu

[1]) *vantar í B.*

láta smiða hús einum ok sönnum guði til sæmdar eptir því móti, sem ek mun sýna þèr, en þessi guð mun þèr kunnigr gerr á þessu sama áre á alþíngi, þvíat furst ríðr þú til þíngs í sumar. Nú ef þú dýrðkar með hreinu hjarta þann guð, er þèr mun þar boðaðr vera, þá muntu verða heill ok með heilleik líkamans muntu gleðjast í friði ok farsæld þessar veraldar, en í ókominni veröld njóta eilífrar sæmdar ok sælu. Síðan mælti hann grundvöll húsgjörðarinnar fyrir Þórhalli með aurfalnum á spjóti síno, ok sagði svâ til hans: með þessi skipan skaltu húsit gera, ok hafa til við þann er áðr er í hofi því, er hèr er skamt frá bæ þínum, ok sveitarmenn hèr ero vanir at sækja til, ok halda þar blótveizlur á hverju áre; þat hof skaltu láta ofan taka þegar snemma í dag, er þú ríss upp, en þá falsa guða, er þèr hafit tignat hèr til, skaltu aldri dýrðka hèðan af. Nú ef þú trúir orðum mínum, ok þú geymir utan allan efa at gera þá luti, sem ek hefir boðit, þá mun þèr skjótt batna, ok muntu styrkjast dag frá degi. Því næst hvarf draummaðrinn frá honum at sýn, en hann vaknaði [1]) ok trúði sýninni, bauð hann sínum verkmönnum öllum, þegar er dagaði, fara til skyndiliga ok brjóta ofan hofit, en færa heim viðinn til sín; en þó at þeir mögluðí í mót, ok talaði með sèr, at slíkt væri órar, þá þorðu þeir alt at einu eigi móti at mæla hans

[1]) fagnaði, *B.*

boðskap, ok gerðu fylliliga þat er hann hafði fur sagt; tók Þórhallr til þaðan frá at smíða húsit á allan þann hátt ok mikilleika, sem honum hafði sýnt verit í svefninum. Í þann tíma bjó þaðan skamt á brott á næsta bæ kona sú, er hèt Þórhildr, hún var mikil fur sèr ok mjök fjölkunnig; á þeirri sömu nótt, er furrsagða vitran bar fyrir Þórhall, vakti Þórhildr upp sína menn þegar í eldíng, ok segir svâ: þèr skulut fara sem skjótazt at reka saman ok heim or högum alt kvikfè vârt bæði naut ok sauði ok ross, byrgja síðan í húsum eðr rèttum, þvíat þat mun ekki líf hafa, er hèr er úti í högum vorum í dag; þvíat Þórhallr nábúi minn á Knappstöðum er ærr vorðinn ok vitlauss, svâ at hann sendir til menn sína at brjóta ofan þat virðuliga hofit, er þar stendr, ok þar fyrir verða hin ágætu goð, er þar hafa áðr dýrðkut verit, at flýja nauðig ok í grimmum hug, ok ætla sèr hælis at leita ok bústaðar alt norðr á Siglunes: nú vil ek eigi at minn fènaðr verði á vegum þeirra, þvíat þau ero svâ reið ok i beiskum hug, at þau munu engu eira því sem fyrir þeim verðr. Nú var svâ gert, sem hún mælti fur, at öll hennar kvikendi voro heim rekin ok varðveitt, utan einn kapalhestr hafði eptirstaðit í haganum ok fannst hann síðan dauðr; en Þórhalli á Knappstöðum gekk alt eptir því sem honum hafði vitrat verit: honum batnaði síns sjúkleika dag eptir dag, ok vóx hans máttr; reið hann til

þíngs um sumarit, ok fann þar þá menn, er fram fluttu kristiligan boðskap, sem brátt mun sagt verða; tók Þórhallr þar trú rètta, ok varð þá hit fursta fullkomliga alheill at líkam, þegar er hann var skírðr; eptir þat fór hann heim fagnandi til bús síns, ok dýrkaði alla daga lífs síns með hreinni þjónosto allsvaldanda guð í þeirri kirkju, er hann hafði honum helgat, ok fursl var gjör í Fljótum í nafni föður ok sonar ok heilags anda, þeim er vegr ok dýrð eilífliga einum guði í þrenníngu, amen.

*Gizur ok Hjalti boðuðu kristni á Íslandi.*

128. Gizurr hvíti ok Hjalti Skeggjason mágr hans voro með Ólafi Tryggvasyni norðr í Kaupángi hinn fimta vetr [1]), er hann var konúngr at Noregi, sem furr er ritat. En snimma um vârit, sagði konúngr, at hann vill senda þá út til Íslands at boða þar enn rètta trú. Þeir tóko vel undir ok bjöggu skip sitt, þegar fært var landa í milli. Svertíngr Runólfsson bjó þá ok sitt skip ok ætlaði til Íslands um sumarit, flaut þat fur bryggjunum albúit; gekk Svertíngr þá á fund Ólafs konúngs ok flutti mál sitt, bað sèr orlofs: liggr mèr mikit við, herra! segir hann, at vèr berim nú eigi farm af skipi vâro, er búit er áðr. Konúngr svarar ok heldr reiðuliga: Þat var á þínu sjálfræði at búa skip þitt orlofslaust, er þat ok vel, at son blótmannsins sè þar er honum þikkir verra, skal þar um standa öll sú

[1]) *þannig B*, *F.* fursta, *A.*

skipan, sem ek gerði á hausti, skal ek hèr meira ráða enn þèr, þó at þèr virðit lítils orð mín út á Íslandi. Skildu þeir at því, ok fór Svertíngr hvergi at sinni. Þeir Gizur ok Hjalti lètu í haf, þegar þeir voro búnir, ok með þeim prestr sá, er konúngr hafði fengit þeim, er Þormóðr hèt, ok nökkurir aðrir vígðir menn, er presti skyldu fultíng veita í guðligri þjónosto; þeim gaf vel byri ok ekki mjök skjótt, komu þeir þann dag fur Durhólmaós er Brennuflosi reið um Arnarstakksheiði til alþíngis, frètti Flosi þá tíðindi or Noregi af þeim mönnum, er róit höfðo til þeirra Gizurar, ok svâ þat at Kolbeinn [1]) bróðir hans var haldinn í gislíng af Ólafi konúngi, [ok 3 menn aðrir [2]); sagði Flosi til þíngs útkvâmu Hjalta ok önnur tíðindi, þau er hann hafði spurt. Þeir Gizur tóko þann sama dag Vestmannaeyjar, er Flosi spurði útkvâmu þeirra, lendu þeir Hjalti við Hörgaeyri [3]), ok skutu þar á land kirkjuviði þeim, er Ólafr konúngr hafði látit öxa ok fengit þeim, ok sagt svâ fur, at þá kirkju skyldi reisa nærr því, er þeir tæki furst land. Þá var lutat hvârummegin vâgsins kirkjan skyldi standa; síðan reistu þeir Gizur ok Hjalti kirkjuna fyrir norðan vâginn, þvíat svâ bar hlut til. Þar voro áðr hof heiðíngja ok blótskapr mikill, brutu þeir þat alt niðr. En er þeir Gizur höfðu dvalizt 2 daga [4]) í eyun-

[1]) Kolbjörn, *F.* [2]) ok þeir menn sem áðr voro nefndir, *F.* [3]) Haugaeyri, *B*, *F.* [4]) 5 daga, *F.*

um, ok reistan laup kirkjunnar, þá foro þeir þaðan ok tóko Eyjasand þann sama dag, sem menn riðu á alþíngi. Þá er þeir Gizur komu á meginland, fengu þeir eigi reiðskjóta ok engan farargreiða af landsmönnum fur austan Norðrá, þvíat þar bjöggu alt fyrir þíngmenn Runólfs goða, gengu þeir austan alla leið, þar til er þeir komo í Háf [1]), þar bjöggu þeir Skeggi Ásgauts [2]) son ok Þorvaldr sonr hans, er átti Koltorfu [3]), systur Hjalta Skeggjasonar; fèkk Skeggi þeim öllum hesta ok aðra luti, þá er þeir þurftu, þvíat Þorvaldr son hans, mágr Hjalta, var riðinn til þíngs; riðu þaðan til Laugardals, ok báðu þeir Gizur, at Hjalti mundi þar eptir vera ok ríða eigi á þíngit í hendr úvinum sínum, þeim er hann höfðo sekjan gert hit surra sumarit, surr enn Gizur hefði áðr leitat um sættir ok tekit honum grið; lèt Hjalti þat leiðast eptir bæn Gizurar ok annarra vina sinna, at hann var eptir við 12ta mann; en Gizur ok þeir er með honum voro, fóro þar til er þeir komo til Vellankötlu við Ölfusvatn, þá sendi Gizur orð til alþíngis, at vinir hans ok frændr ok allir, þeir er honum vildi lið veita, skyldi koma til móts við hann, þvíat hann hafði þá spurt, at úvinir þeirra Hjalta ætlaðu at verja þeim vígi þíngvöllinn; komu þar þá saman allir vinir ok fultíngsmenn Gizurar, sem hann hafði orð tilsent, ok var þat fjöldi manns; ok áðr þeir riðo

[1]) Háfa, *B.* [2]) Asgarðs, *B.* [3]) Koltortu, *F.*

þaðan, kom þar ríðandi Hjalti með alla þá menn, er eptir höfðo dvalizt með honum í Laugardal. Riðu þeir Gizur ok Hjalti með fylktu liði síno á þíngit, en heiðíngiar ljópu þegar saman með alvæpni, var þá viðrlægt [1]) at þeir mundi berjast, en með guðs miskun skaut heiðíngjum skelk í bríngu, ok þorðu þeir eigi á at ráða; tók þá Ásgrímr Elliðagrímsson, systurson Gizurar, við honum ok allri hans sveit í búð sína. En annann dag eptir saung Þormóðr prestr messu á Gjábakka [2]) hjá Vestfirðínga búð; eptir messuna geingu þeir til lögbergs skrýddir 7 lærðir menn, ok báru fir sèr tvâ krossa mikla, þá hina sömu, sem nú ero í Skarði enu ytra, merkir annarr hæð Ólafs konúngs Tryggvasonar, en annarr hæð Hjalta Skeggjasonar; þá var fjölmennt at lögbergi; síðan lögðu lærðir menn reykelsi á glóð ok lagði ilminn eigi síðr ígegn vindi enn forvindis; því næst var hljóð gott; hófu þeir Hjalti sitt erendi með mikilli snild ok orðfæri, sögðu þeir í furstu hvat at hafði borizt í ferðum þeirra, síðan fluttu þeir hit djarfligzta erendi Ólafs konúngs um kristniboðit, um síðir snèru þeir sinni ræðu til mjúkrar áeggjanar við alþýðu, báðu alt fólk með blíðskap ok fögrum bænarorðum at snúa á svinn síno ráði ok játa sik undir vald ok þjonosto hins hæsta konúngs allra konúnga, ok at tekinni skírn ok heilagri trú haldinni, mætti þeir öðlast af

[1]) viðsjálft, *B.* [2]) árbakka, *F.*

sjálfum guði eilífa ömbun úendiligra fagnaða í himinríkis dýrð. En er þeir höfðo flutt sitt erendi með miklu trausti ok málsnild, þá gerðist þyss mikill ok háreysti, af því at annarr maðr at öðrum nefndi sèr vátta ok sögðust or lögum hvârir við aðra kristnir menn ok heiðnir. Á þeirri stundu kom einn sveinn hlaupandi á þíngit, ok flutti sitt erendi með mikilli ákefð, sagði jarðeld uppkominn ok renna óðliga ofan at bæ Þórodds goða ok ógnaði bráðum bruna allri hans eign. En er heiðíngjar [1]) heyrðu þessi tíðindi, þá svarar einn þeirra: þat er eigi undarligt þó at goðin reiðist slíkum tölum sem nú heyrðum vèr framfluttar fur skömmu. Þá svaraði Snorri goði Þorgrímsson: hverju voro guðin reið, þá er hèr brann jörðin, sem nú stöndum vèr [2])? Eptir þat gengu menn frá lögbergi ok heim til búða, áttu kristnir menn þá samtal ok báðu Síðu-Hall, at hann segði upp lög þeirra, þau er kristnihaldinu skyldi fylgja; en Hallr leystist því undan, at hann keypti at Þorgeri ljósvetníngagoða, er í þann tíma hafði lögsögn yfir öllu landi, at hann skyldi segja fram lög þau, er kristnum dómi væri haldandi, en Þorgerr var þá enn heiðinn, ok segist svâ, at Hallr gaf honum til hálft 100 silfrs með þeim skildaga, at hann skyldi hafa þau 5 orð í framburði laganna, sem þeir Hallr, Gizur ok Hjalti

[1]) höfðíngjar, *B.* [2]) voru þat eigi minni býsn, ok ætlum vèr goðin hvorígu valdit hafa, *bætir inní B.*

sögðu honum fyrir, hversu sem hann skipaði avðrum lögum. Þat var hit fursta orð: at allir menn skyldu kristnir vera á Íslandi ok skírn taka, þeir er áðr voro úskírðir; þat var annat: at úheilög skyldo vera hof öll ok skurðgoð; þat var hit 3ja orð: at fjörbaugsgarð skyldi varða blót öll, ef vâttnæmd vyrði. En er Þorgerr kom til búðar sinnar, lagðist hann niðr ok breiddi feld sinn yfir höfut sèr, ok lá svâ 2 dægr at hann mælti ekki orð. Á þeirri stundu áttu heiðíngjar fjölmenna stefnu ok rèðu ráðum sínum, hversu þeir skyldo fá ímóti staðit, ok geta eydt þessu enu nýja kristniboði, kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldu fast heita á goðin, ok velja til 2 menn or hverjum fjórðúngi landsins at fórnfæra goðonum, til þess at þau lèti eigi kristni gánga yfir landit. En er þeir Gizur ok Hjalti vurðu varir þessa, þá stefndo þeir saman öllum kristnum mönnum, stóð Hjalti upp, ok tók svâ til máls: þat er os flutt af stefnu vârra mótstöðumanna, at heiðíngjar hafa heitit at gefa guðum sínum til blóts 2 menn or hverjum fjórðúngi lands þessa, at þeir megi með fultíngi sinna falsaðra guða eyða ok niðrbrjóta kristiligt siðferði, en heldr satt at segja, kostgæfa þeir með slíku fjandans ráði ok áeggjan at furkoma hjálp ok heilsu sinna sálna. Þarímót sýnist oss eigi úviðrkvæmiligt at vèr kristnir menn velim til jafnmarga menn af vârri hálfu at gefa ok helga vârum lifanda Guði sönnum ok sælum, eigi til

þess, at vèr veitim þeim líkamligan dauða, heldr at þeir sjálfir, er til þessar sigrgjafar ero ætlaðir, deyði með sèr líkamliga lavstu ok rángar girndir holdsins, flýjandi fýstir heimsins, lifi þeir mildliga með rèttvísi ok hófsemi í þessi veröld, jafnan sik offrandi í helga fórn vorum herra Jesú krist með sínum góðum verkum; at þeir öðlist um síðir með honum eilíft líf í himinríki, því öllu þar sælli, sem þeir ero hèr góðfúsari. Heiðíngjar velja til ena verstu menn at gefa guðum sínum, ok fórnfæra þá með herfiligum dauða ok þeim makligum fur illgerðir sínar, hrinda þeim fur björg eðr í gjár; en vèr skulum þar ímót velja þá menn, er vèr fám líkazta til góðs [1]) á vâru landi, at þeirra mannkostir geri þá lifandi fórn helga, hreina ok guði þægja; svâ at fur þeirra verðleika láti allsvaldandi guð með sinni miskun enga illsku öfundarfullra sinna úvina öflgast ígegn sínum rètttrúaðum mönnum, heldr at eyddri ok afmáðri allri dýrðkan djöfulligra skurðgoða, víðfrægist kynníng vârs drottins nafns, svâ at allr lýðr þessa lands gángi gjarna sjálfviljandi undir hjálpsamlig lög kristiligrar trúar. Nú ef yðr líkar, munu við Gizur glaðliga fyrstir já okkr undir þetta sigrgjafar heit fur Sunnlendínga. En er allir kristnir menn sögðu sèr þat vel líka, þá var eptirleitat hverir undir vildi gánga þetta heit or öðrum landsfjórðúngum; gekk þá til fur Austfirðínga Hallr af Síðu ok Þorleifr or Krossavík, er kallaðr var

[1]) guðs þjónustu.

Þorleifr hinn kristni. Þeim sama Þorleifi stefndi Digr-Ketill at ráði ok áeggjan Brodd-Helga um kristnihald, sem segir í Vâpnfirðínga sögu: en þann sama dag, er Ketill stefndi honum, gerði á hríð svâ mikla, þá er hann var á leið kominn með sína sveit, at þeim viltust vegar, ok svâ kom um síðir, at Ketill sá sèr ok sínum mönnum enga aðra lífsvân enn snúa til bæjar Þorleifs; en Þorleifr tók við honum með öllum góðvilja ok blíðskap, ok veitti þeim, meðan þeir voro þar hríðfastir, hinn bezta beina, er hann hafði til, sem hann mundi sínum syni eðr bróður; þaðan af lèt Ketill niðrfalla allar sakir við Þorleif, og var æ síðan hans fullkominn vin. En fur Norðlendínga jáðu sik undir þetta heit Hlenni or Saurbæ í Eyjafirði, son Orms töskubaks ok Þorvarðr Spakböðvarsson or Skagafirði; en or Vestfirðínga fjórðúngi varð engi til nema Gestr Oddleifsson. Við þat vurðu þeir Hjalti ok Gizur úglaðir, er þar fèkkst eigi annarr til. En er eptir var leitat, ef nökkurr vildi til gánga, þá svarar Ormr Koðránsson, bróðir Þorvalds víðförla, er furr er getit: fur víst mundi maðr til verða at fylla þetta hit lofliga yðvart heit, ef Þorvaldr, bróðir minn, væri hèr á þínginu, nú þvíat hann er oss fjarlægr at heimsvist, hvârt sem hann er nú lífs eðr liðinn, þá vil ek fýsiliga, þó at úverðugr, ef þèr vilit mik til nýta, gánga í stað hans hèr um, er mín [1]) þó djarfligt slíkt upp at kveða, þvíat

[1]) *þannig*, *A. B. C.*

ek em primsigndr at eins en eigi skírðr. En höfðíngjar ok allir kristnir menn, þeir er þar voro, tóko þetta hans boð með þökkum. Var Ormr þá þegar skírðr, hann var þá heimamaðr á Gilsbakka í Borgarfirði hjá Hermundi mági sínum, er þá átti Gunnhildi systur hans.

*Kristni lögtekin á Íslandi.*

229. Þorgeirr ljósvetníngagoði hafði legit allan daginn ok nóttina, sem nú var sagt, en annann morgin settist hann upp ok bað alla þíngmenn gánga til lögbergs svâ kristna sem heiðna; en er allr lýðr var þar saman kominn, varð furst þyss mikill ok háreysti. En þegar menn settust ok hljóð fèkkst, þá tók Þorgerr svâ til máls: heyrit þèr spekíngar orð mín, ok öll alþýða hyggi at vandliga því er ek tala; mèr sýnist horfa til vâðasamligra vandræða ok tímalaussar tapanar öllu [1]) voro bygðarlagi, ef lýðr lands þessa skal eigi hafa ein lög ok siðferði, [því at þá rýfst [2]) friðrinn, ef lögin tvískiptast; þaðan af munu görast greinir með mönnum ok sundrþykki, þar nærst fullr fjandskapr, úfriðr ok bardagar, svâ at á skamri stundu mun þar fur eyðast land vârt, ef eigi kemr til heilsamligt ráð vitrligrar forsjá. Því skulum vèr með allri ástundan varast ok viðrsjá, at eigi berist oss svâ ill úhamíngja til handa, at vèr sjálfir samlandar ok frændr stríðimst á með ofrkappi, kostgæfum heldr með allri skynsemd

[1]) fólki ok öllu *bætir við C.* [2]) *þannig B. C.*, því at utan ef ryfst skjótt, *A.*

ok góðvilja at setja ok semja, hafa ok halda sátt, samþykki ok fastan frið vor ímillum hèr á föðurleifð vârri ok fóstrlandi; þat hygg ek yðr heyrt hafa, at konúngar af Noregi ok Danmerku hèldo lángan tíma sín ímilli stríð ok stóra bardaga, alt þar til er lands höfðíngjum hvârstveggja ríkisins leiddist sá agi ok úfriðr, gjörðu þeir þá sætt ok sömdu frið ímilli landa at úvilja konúnganna; en þat ráð varð at þeirri farsæld, at þeir konúngar, er lengi höfðo verit sundrþykkir sín ímilli, gerðust fur góðvilja sinna ráðgjafa ok undirmanna kærir vinir, ok sendu hvârir öðrum gjafar ok gersimar, ok hèlzt sá friðr meðan þeir konúngar lifðu. Nú þó at vorir höfðíngjar sè eigi jafnríkir sem konúngar í öðrum löndum, ok vèr úvitrari enn þeirra ráðgjafar; þá berr oss þó vel at taka dæmi af þeirra spakligum ráðum. Því skulum vèr svâ miðla mál með þeim mönnum, er hèr gángast mest ímóti, at hvârirtveggju hafi nökkut síns máls, en hvârigir ráði einir, mættim vèr svâ eptir satt sáttmal gleðjast af góðum ráðum allir samt, vera einn lýðr undir einum lögum, ok hafa allir eitt nafn eptir einum átrúnaði ok siðsemd, studdir friði ok farsælu vârrar föðurleifðar, samlagaðir í einu samþykkissáttmáli, þvíat trúa megit þèr mèr þar um, at jafnskjótt sem vèr tvískiptum lögmálinu, þá eyðist friðrinn vor ímillum. Því er þat upphaf ok endir minna ráða ok áeggjanar, at með einu

ok úleysiligu sættarsamþykki haldim vèr allir ein lög, úti byrgjandi allan úfarnaðar aga ok sundrþykkis efni. En er Þorgerr gerði endá á sinni ræðu, þá gaf guðligr örleikr svâ mikla miskunar framkvæmd hans málsnildar, at allir þíngmenn, svâ heiðnir sem kristnir, játaðu þegar með einu samþykki, svâ at engi mælti ímóti, at hafa ok halda þau lög í alla staði, sem hann vildi framsegja. Þá mælti Þorgerr: þat hefi ek upphaf laga vârra til samþykkis við kristna menn, at hverr maðr á Íslandi meiri ok minni skal vera kristinn ok skírn taka [1]), en hof öll ok skurðgoð skulu vera úheilög ok niðrbrotin, hverjum manni skal varða fjörbaugsgarð, er blótar skurðgoð svâ at vâttum komi við. En því at þeir menn, er mest hafa ímóti gengit kristniboðinu, koma varla skilníng á, at þat megi samanfara at fæða upp börn öll, þau er alin ero, svâ fátækra manna sem auðigra, en afneita ok banna til mannfæðu þá luti, sem alþýðunni er mestr styrkr í; því skulu þeir hafa sitt mál um þat, at hin fornu lög skulu standa um barna útburð ok hrossakjöts át, ok eigi skal saknæmt, þó at menn blóti á laun, svâ at eigi verði vitnisfast. Svá skulum vèr ok halda öll önnur hin fornu lög, þau er eigi standa berliga ímóti kristnum dómi. Lauk Þorgérr svâ síno máli, at allir lofaðu þau lög, sem hann hafði uppsagt, at engi maðr skal tefja eðr tálma fur öðrum at

1) þeir er áðr eru óskírðir, *B*, *C*.

þjóna Kristi svâ góðfúsliga sem sjálfr girntist, [ero þeir ok með freku afli fullrar stríðu með öllu afsettir fornum vana síns siðferðis, þó at með valdi vyrði í furstu tilskyldaðir at taka skírn ok kristiligt nafn, meirr enn þegar með fullri guðs ást ok eiginligum goðvilja [1]). En þó gerðist svâ með vârs drottins mildi ok miskun, at á fárra vetra fresti var þessi heiðni eydd ok afnumin með allra höfðíngja ráði ok alþýðu samþykki, sem nú var áðr tínt um launblót, hrossa át ok barna útburð. Slitu þeir með því þínginu, at kristni var í lög tekin um alt Ísland, voro þá allir menn primsignaðir, þeir er þar voro á þínginu ok margir skírðir, þeir er áðr voro heiðnir, en því eigi þar allir, at Norðlendíngar ok Austfirðíngar vildu eigi fara í kalt vatn, ok voro þeir margir skírðir við laug at Reykjum í Laugardal. Hjalti Skeggjason veitti guðsifjar Runólfi goða Úlfssyni, er hann hafði sekðan hit furra sumarit, en er hann var primsigndr, þá mælti Hjalti: gömlum kennum vèr nú goðanum at geifla á saltinu. En er þíngmenn komu heim í hèrað, þá var alþýða skírð á því sumri sem furst komst við, ok mælti þá

[1]) er þeir ok með freku afli til skyldaðir, at afleggja fornan vana síns siðferðis, þó at með valdi í fyrstu yrði þeir at taka skírn ok kristiligt nafn meir enn með fullri ást eðr eginligs góðvilja, *B.* eigi þeir ok m. fr. a. r. sk. af at leggja f. v. s. s. þó at m. v. í f. y. þ. a. t. sk. ok, kr. n. m. en fullri ást ok eiginligum góðvilja, *C.*

engi maðr móti kristnum dómi; hefir sú kristni síðan eflzt ok aukizt [1]) en aldregi eyðst.

### Ólafr konúngr bauð út leiðángri af öllum Noreg.

230. Þann vetr, er þeir Gizur ok Hjalti voro í Níðarósi með Ólafi konúngi, var ár mikit í Noregi ok friðr góðr innan lands, en er á leið vetrinn ok um vârit kærði Þyri drottníng optliga fyrir konúngi ok grèt sárliga þat, er eignir hennar voro miklar í Vindlandi, en hún hafði engan fjárlut þar í landi, eptir því sem drottníngu sómdi, stundum bað hún konúng fögrum orðum, at hann skyldi fá henni eign sína, sagði at Búrizlafr konúngr var svâ mikill vin Ólafs konúngs, at þegar þeir fyndist, mundi hann fá Ólafi konúngi alt þat, er hann beiddist. En er þessarrar ræðu vurðu varir vinir Ólafs konúngs, þá lavttu allir konúng at fara til Vindlands, þó at drottníng eggjaði. Þann vetr var veðrátta góð, ok greyri snemma um vârit. Svâ er sagt at þat var á Pálmdrottinsdag at Ólafr konúngr gekk úti um stræti, þá gekk maðr ímóti honum með hvannir margar ok undarliga stórar í þann tíma vârs, konúngr tók einn hvannnjólann í hönd sèr ok gekk heim til herbergis; Þyri drotníng sat inni í stofunni ok grèt er hann kom inn, konúngr mælti til hennar: sè hèr hvannnjóla mikinn, er ek gef þèr; hún laust við hend-

[1]) á Íslandi, *bæta við B, C.*

inni ok; mælti: stærrum gaf Haraldr Gormsson, faðir minn, en minnr æðraðist hann at fara af landi at sækja tign sína enn þú gerir nú, ok reyndist þat, þá er hann fór híngat í Noreg ok eyddi land þetta at mestum lut, en eignaðist alt at sköttum ok skyldum; en nú mátt þú þat sjá, er ek hefi opt kært fyrir þèr, hversu fátækliga ek kom í land þetta, eðr hversu hneisuliga ek missir með rángindum mikilla eigna í Vindlandi, ok þorir þú eigi at fara ígegnum Danaveldi at sækja eignir mínar, en sæmd þína, fur Sveini konúngi bróður mínum. Ólafr konúngr ljóp upp við, er hún mælti þetta, ok svaraði hátt: aldri skal ek hræddr fur Sveini konúngi bróður þínum, ok ef okkrir fundir verða, þá skal hann fur láta. Ólafr konúngr stefndi þíng í bænum litlu síðarr, hann gerði þá bert fur allri alþýðu, at hann mun leiðángr hafa úti um sumarit fur landi, ok hann vill nefnd hafa or hverju fylki bæði at liði ok skipum, sagði hann þá, hversu mörg skip hann vill hafa þar or Firðinum. Síðan gerði konúngr orðsendíngar bæði norðr ok suðr með landi, bæði hit efra [1]) ok hit ytra, ok lætr liði út bjóða; lèt konúngr þá setja fram Orminn lánga ok öll önnur skip sín bæði smá ok stór.

*Leifr kristnar Grænland.*

231. Á því sama vâri sendi Ólafr konúngr Gizur ok Hjalta til Íslands, sem áðr er ritat. Þá sendi konúngr ok Leif Eiríksson til

[1]) innra, *B*, *C*.

Grænlands at boða þar kristni, fèkk konúngr honum prest ok nökkura aðra vígða menn, at skíra þar fólk ok kenna þeim trú rètta. Fór Leifr þat sumar til Grænlands, hann tók í hafi skipshöfn þeirra manna, er þá voro úfærir ok lágu á skipsflaki albrotnu, ok í þeirri sömu ferð fann hann Vindland hit góða, ok kom at áliðnu því sumri til Grænlands, ok fór til vistar í Brattahlíð til Eiríks föður síns, kölluðu menn hann síðan Leif hinn heppna, en Eiríkr faðir hans sagði at þat var samskulda, er Leifr hafði borgit ok gefit líf skipshöfn manna, ok þat er hann hafði flutt skæmanninn til Grænlands, svâ kallaði hann prestinn; en þó af ráðum ok eggjan Leifs var Eiríkr skírðr ok alt fólk á Grænlandi.

*Hallfreðr siglir til Íslands.*

232. Litlu síðarr um vârit enn Ólafr konúngr hafði sent Leif Eiríksson til Grænlands, gekk Hallfreðr vandræðaskáld fur konúng einn dag ok bað sèr orlofs át fara út til Íslands um sumarit. Konúngr svarar: þat skal vera sem þú vill, hefi ek þik reyndan at góðum dreng, en at því skaplyndi, sem þú hefir, þá þikkir mèr eigi lítil vân at enn komi þær stundir, at þú vildir heldr vera með mèr enn á Íslandi, eðr í öðrum stöðum; en því at úvíst er um fundi okkra hèðan af, ef við skiljum nú, þá skaltu þiggja af mèr pells skikkju, hjálm ok hríng er stendr 6 aura, þessa gripi skaltu eiga at minjum, at þú hefir mèr þjónat, ok lóga þeim eigi, þvíat þeir skulu fara

til kirkju með líki þínu, en fara í kistu með þèr, ef þú andast í hafi. Síðan bjó Hallfreðr skip sitt til Íslands, hann sendi Auðgisl son sinn austr í Svíaveldi, ok fæddist hann þar upp með Þórari móðurföður sínum, en Hallfreði syni sínum fèkk hann fóstr gott þar í Þrándheimi. En er Hallfreðr var búinn, gekk hann fyrir konúng ok kvaddi hann, var þat þá auðsætt á Hallfreði, at honum þótti mikit fur at skiljast at sinni við Ólaf konúng. Síðan lèt Hallfreðr í haf, ok kom skipi síno í Skagafjörð í Kolbeinsárós eptir alþíngi, báru þeir þar farm af skipinu ok settu upp; síðan fèkk Hallfreðr mann til at varðveita varnat sinn ok selja um vetrinn, en hann reið frá skipi við 12ta mann vestr til sveita, ok ætlaði suðr um heiði, sem hann gerði; þeir riðu allir í litklæðum; en er þeir fóro vestr frá Skagafirði, þá snèru þeir til selja Gríss frá Skarði, þat var ímilli Skagafjarðar ok Lángadals upp af Laxárdal, þar var Kolfinna Ávaldadóttir, húsfreyja Gríss, fur í selinu ok nökkurar konur með henni, þar voro ok nærr fleiri sel Lángdæla ok konur í; smalamaðr Gríss sá ferð þeirra ok sagði Kolfinnu, at 12 menn riðu at selinu allir í litklæðum. Hún svarar: þeir munu eigi kunna [1]) veginn. Eigi veit ek þat, segir hann, en ekki ríða þeir úkunnliga. Kolfinna gekk út, er þeir komu, hún heilsaði Hallfreði ok spurði tíðinda. Hallfreðr svarar: tíðindi ero fá, en í tómi munu

[1]) þannig, B, C, F, kanna, A.

sögð, þvíat vèr viljum hèr vera í nótt. Hún kvaðst mundo gefa þeim mat; stigu þeir af hestum sínum, ok höfðu þar blíðan beina, lá Hallfreðr hjá Kolfinnu um nóttina, ok hverr föronauta hans fèkk sèr kono, þvíat selin voro saman mörg; en er Hallfreðr stóð upp um morgininn, kvað hann nökkurar vísur, þær er eigi er þörf á at rita, bæði með mansaung til Kolfinnu ok úsæmdar orðum við Grís. Þá mælti Kolfinna: þat er undarligt er þú, vaskr maðr, vilt svâ illa kveða, hefir þú helztí mikla úsæmd gert Grísi, þó at þú smáir hann ekki með úfögrum verka, þvíat hann mun ekki kveða um þik, hann er maðr góðgjarn ok úáleitinn, ef honum ero eigi stórar skapraunir görvar; hefir þú svâ at eins þína sök tilbúit við hann bæði nú ok furr, at þèr væri heldr heyriligt at bæta yfir við hann, enn at flimta hann, þvíat hann mun reynast hraustr karlmaðr, ef hann á eptir sínum lut at sjá, [ok sè honum úsæmd [1]) boðin. Hallfreðr kvað:

Lítt hirði ek lautar
lundr hefir hætt til sprunda
viggs [2]) þótt verða ek höggvinn
varr í höndum svarra,
ef ek næða sif slæðu
sofa karms [með al arma [3])

---

[1]) þannig C. ok sè honum sæmd, B. ef honum er sæmd, A.
[2]) vigs, B, C. [3]) á armi, C.

máttkat [1]) ek lauss [2]) við ljósa
lind of ræktar bindast [3]).

Smalamaðr hafði hleypt á brottu frá selinu um nóttina, ok sagði Grísi hvat um var, ok er hann vissi þetta, kallaði hann til sín menn; ok reið heiman um morgininn við 15da mann. Þeir Hallfreðr bjöggust frá seljunum um morgininn, ok þá er Hallfreðr ljóp á bak, brosti hann. Kolfinna mælti: hví brosir þú nú? Hallfreðr kvað:

Veitkat [4]) ek hitt, hvat verða [5])
ver glóðar skal móða
(rennumst ást til ilma [6])
unnar dags) á munni [7]);
ef fjölgegnir [8]) fregna
fagnendr jötuns sagna
(fló ek af gyltar grísi
geit belg) hvat mik teitir [9]).

Hallfreðr vildi gefa Kolfinnu skikkjuna konúngsnaut, en hún vildi eigi hafa, ok áðr þeir riðu brott, kvað Hallfreðr:

Heim koma hirði naumur
hams er góðr á fljóðum
sæfar báls or seljum
slètt fjallaðar allar;
nú sel ek af [10]), (þótt ýfist
avlbekkjar [11]) sýn nökkut

---

[1]) mátkað, C. [2]) lás, B, C. [3]) binda, C.
[4]) veitkað, B. vetkat, C. [5]) verði, B, C.
[6]) ilmar, C. [7]) munnu, B. [8]) Fjölegnir, B.
[9]) teiti, C. [10]) af *sleppir* C. [11]) ylbekkjar, B.

(hverr taki seggr við svarra
sínum) áburgð mína.

Nú kom Gríss til seljanna með sína menn, ok voro þeir Hallfreðr þá í brotto. Kolfinnu var skapþúngt; þat sá Gríss ok kvað:

Nú þikkir mèr nökkur
námskorð vera orðin
lít ek hve sumr mun sæta
sveimr meðan ek var heiman;
hèr hafa gestir gerva
gengr út kona þrútin
þerrir [1]) sjáligr svarri
slaug fjandsliga [2]) augu.

Maðr hèt Einarr Þórisson, Þrándarsonar, er í för var með Grísi, hann var systrúngr Gríss. En er Gríss kom til seljanna, en Halfreðr var brottu, þá segir Gríss mönnum sínum at hann vildi ríða eptir þeim Hallfreði. Kolfinna bað hann eigi eptir ríða, þvíat þat er úsýnna, segir hún, at þinn kostr batni við, at þit Hallfreðr finnizt. Gríss rèð ok riðu þeir fram hjá Auðólfsstöðum, ok er þeir komu at Blöndu, þa voro þeir Hallfreðr komnir a miðja ána, þá skaut Gríss spjóti til Hallfreðar, en hann tók spjótit á lopti, er at honum fló ok sendi aptr til Gríss, en Einarr Þórisson brá við öxi sinni ok hæfði hann eigi á spjótit, fló þat fur brjóst Einari ok hafði hann þegar bana. Þá mælti Gríss: rennr þú nú, Hallfredr! Hann svarar: ek skal eigi lengra undan ríða enn af ánni, ef þú vill eptir sækja. Gríss

1) þar er, *B.* þar, *C.* 2) fjandligaztr, *B.* fjandliguzt, *C.*

reið ei á ána, áttust þeir þá orð við um ána þvera; lögðu menn hvârratveggja þá til, at þeir mundi sættast, svâ at Hallfreðr bætti Grísi þenna úsoma allan saman. Hallfreðr spurði, hvers Gríss beiddist. Gríss mælti: mèr er sagt at þú eigir gullhrínga 2 góða, er annann gaf þèr Ólafr konúngr, en annann Sigvaldi jarl, nú mundi ek því una, ef ek hefði hríngana báða. Hallfreðr svarar: furr mun annat at berast. Skilðu þeir við svâ búit úsáttir. Hallfreðr reið suðr á Óttarsstaði til Galta bróður síns, því at faðir hans var þá andaðr; var Hallfreðr þar um vetrinn.

### *Frá köppum Ólafs konúngs, er á voru Orminum lánga.*

233. Ólafr konúngr lèt búa skip sín um vârit er á leið or Niðarósi, skyldi hann sjálfr stýra Orminum lánga, er hann hafði þá gera látit um vetrinn áðr, því at hann var þá mest lángskip ok fríðazt í Noregi; ok þá er menn voro ráðnir til skipanar, þá var þar svâ mjök vandat ok valit lið á, at engi maðr skyldi vera á Orminum ellri enn sextögr ok engi ýngri enn tvítögr, en valit mjök at afli ok hreysti; þar voro furst til skoraðir hirðmenn Ólafs konúngs, því at hirðin var valin af innlendum mönnum ok útlendum alt þat er styrkazt var ok fræknazt. Úlfr rauði hèt maðr, er bar merki Ólafs konúngs, ok var í stafni á Orminum, ok annarr Kolbeinn stallari, Þorsteinn uxafótr, Vikarr [1]) af Tíundalandi, bróðir

[1]) Vikunnr, B.

Arnljóts gellina. Þessir voro á rausn í söxum: Vakr [enski af Rauma, Bersi [1]) hinn sterki, Án skyti [2]) af Jamtalandi, Þrándr rammi af Þelamörk ok Úþyrmir [3]) bróðir hans; þeir Háleygir: Þrándr skjálgi, Ögmundr sandi, Hlöðver lángi or Saltvík ok Hárekr hvassi; en innan or Þrándheimi: Ketill hinn háfi, Þorfinnr eisli, Hávarðr ok þeir bræðr or Orkadal. Þessir voro í furrúmi: Björn af Stuðlu ok Börkr or Fjörðum, Þorgrímr or Hvíni [4]) Þjóðólfsson, Ásgrímr ok Ormr, Þórðr or Marðalög, Þorsteinn hvíti af Ofrostöðum [5]), Arnór mærski, Hallsteinn, Eyvindr snákr, Bergþór bestill, Hallkell af Fjölum, Ólafr drengr, Arnfinnr sygnski, Sigurðr bíldr, Einarr hörðski, [Ketill rygski [6]), [Grjótgarðr raumski [7]). Í krappa rúmi voro þessir: Einarr Þambarskelfir, hann þótti þeim eigi [8]) lutgengr; því at hann var 18 vetra, Hallsteinn Hlífarsson, Þórólfr, Ívarr smetta, Ormr skógarnef. Margir aðrir menn mjök ágætir voro á Orminum, þó at vèr kunnim eigi at nefna, 8 menn voro í hálsrúmi [9]) á Orminum, ok var valit [einum manni ok einum [10]), 30 manna voro í furrúmi; Þat var mál manna at þat mannval, er á Orminum var, bar eigi minnr af öðrum mönnum um fríðleik, afl

[1]) af liði, Raumabersi, *B.* af liði Rauma, Bersi, *C.* elfski Raumason af Rauma, Bersi, *F.* [2]) skuti, *B.* [3]) Uþyrra, *B.* [4]) Húmi, *C.* [5]) Gróstöðum, *B. C.* [6]) Finnr Ketill rygski, *C.* Finnr Ketill ringski, *B.* [7]) *vantar í, B. C.* [8]) varla, *C.* [9]) *þannig*, *B. C.* hálfrými, *A.* [10]) lið allt, *B. C.*

ok frækuleik, enn Ormrinn lángi af öðrum skipum. Þorkell nefja bróðir konúngs stýrði Orminum skamma. Þorkell dyðrill [1]) ok Jósteinn, móðurbræðr [2]) konúngs, höfðu Travnuna, ok var hvârtveggja þat skipit allvel skipat. Níu stórskip bjó Ólafr konúngr or Þrándheimi ok umfram tvítögsessur ok smæri skip. En er konúngr hafði mjök búit lið sitt or Niðarósi, þá skipaði hann mönnum í sýslur ok ármenníngar um öll Þrændalög, dvaldi hann mart ok leið á sumarit fram, svâ at skip gengu af Íslandi til Noregs ok af öðrum löndum. Spurðust þá þau tíðindi, at kristni var lögtekin á Íslandi, ok skírt alt fólk; varð Ólafr konúngr við þat allglaðr, lèt hann þegar skjóta á húsþíngi, stóð konúngr upp ok sagði svâ: þau fagnaðar tíðindi höfum vèr frètt af Íslandi, at þar er alt fólk kristit, þar fyrir gefum vèr guði þakkir, ok gefum þeim mönnum öllum orlof, er hèr hafa setit í gislíng af þeirra manna hálfu, at fara frjálsir hvârt er þeim líkar. Kjartan Ólafsson svarar furstr manna máli konúngs: hafit mikla þökk fyrir þat orlof, herra! segir hann, munu vèr nú þann kost taka at fara til Íslands út í sumar. Konúngr svarar: eigi munum vèr nú þessi orð aptr taka, en þó talaðum vèr þetta engum mun minnr til annarra manna enn þín, Kjartan! þvíat vèr virðum svâ, at þú hafir setit hèr með oss meirr í vingan ok kærleikum enn í gislíng, vilda ek eigi at þú fýstist

1) dyrðill, C. 2) móður bróðir, C.

út til Íslands, þó at þú eigir þar göfga frændr, því at þú munt fá hèr, ef þú vill með oss vera, mikla sæmd ok þann ráðahag, er vèr munum kalla eigi slíks kost á Íslandi. Þá svarar Kjartan: guð ömbuni yðr, herra! allan þann sóma, sem þèr hafit til mín gert, síðan ek kom á yðvart vald, ok enn væntir ek þess, at þèr munit mèr eigi síðr gefa leyfi at vitja til Íslands frænda ok vina enn öðrum mönnum, þeim er þèr hafit hèr haldit um hríð. Konúngr svarar: svâ skal vera, Kjartan! en torgætr þikkir mèr slíkr ótíginn maðr sem þú ert. Kálfr Ásgeirsson hafði þann vetr verit í Noregi, en komit áðr um sumarit vestan af Englandi með skip þeirra Kjartans ok kaupeyri; en nú þegar, er Kjartan hafði fengit orlof af Ólafi konúngi til Íslands ferðar, þá hèldu þeir Kálfr á búnaði sínum; ok er skipit var albúit, þá gekk Kjartan á fund Íngibjargar konúngs systur, hún fagnaði honum vel, ok gaf honum rúm at sitja hjá sèr, ok er þau tóko tal; sagði Kjartan at þá hafði hann búit ferð sína til Íslands. Íngibjörg svarar: meirr ætla ek, Kjartan! at þú hafir gert þetta með einræði þínu ok fýst, enn menn hafi þik þessa mjök eggjat. Ekki varð þeim þá margt at orðum. Íngibjörg tók þá or einu eski, er stóð hjá henni, guðvefjarpoka, þar var í motr snjóhvítr ok mjök gullvofinn, [þat var hinn ágætazti gripr [1]), hún gaf Kjartani motrinn ok mælti: þenna motr [2])

[1]) *vantar í B, C.* [2]) gríp, *B. C.*

muntu gefa Guðrúnu Ósvífrsdóttur at bekkjargjöf, helzti góðr er henni at vefja honum um höfut sèr, vil ek at Íslendínga konur sjáe þat, at sú er eigi þræla ættar, er þú hefir tal við átt hèr í Noregi; hvergi mun ek leiða þik, segir hún, ok far nú heill. Kjartan stóð þá upp ok mynntist við Íngibjörgu, ok höfðo menn þat fur satt, at þeim þætti fur at skilja. Gekk Kjartan þá á konúngs fund, ok segir at hann var þá búinn ferðar sinnar. Ólafr konúngr leiddi hann til skips ok fjöldi manna or bænum, en er þeir komo þar, er skipit flaut, þá mælti konúngr: hèr er sverð, Kjartan! er ek vil gefa þèr at skilnaði, lát þú þetta vâpn þèr fylgjusamt vera, þvíat ek væntir at þú verðir eigi vâpndauðr, ef þú berr þetta sverð; þat var hit bitrazta vopn ok búit mjök. Kjartan þakkaði konúngi gjöfina fögrum orðum ok alla þá sæmð ok virðíng, er hann hafði honum veitt, meðan hann var í Noregi. Konúngr mælti: far þú nú vel, Kjartan! ok halt vel trú þína ok elska guð. Skildust þeir konúngr ok Kjartan með hinum mestum kærleikum; gekk Kjartan þá bryggjuna út á skipit; konúngr leit eptir hönum ok mælti: mikit er at Kjartani kveðit ok sumum kynsmönnum hans, ok er þat opt mikill harmr, er eigi má gera við forlögum mannsins. Snèri Ólafr konúngr þá aptr í bæinn, en þeir Kjartan ok Kálfr sigldu á haf, þegar byr gaf, höfðu þeir útivist skamma ok tóko [höfn í Hvítá í Borgarfirði [1]), frètti Kjartan þá,

[1]) land á Hvítárvöllum, *F.*

at Bolli Þorleiksson, frændi hans ok fóstbróðir, hafði fengit Guðrúnar Ósvífrsdóttur, ok brá hann sèr ekki við þat. Kjartan var um vetrinn eptir vestr í Hjarðarholti með föður sínum; hann fastaði þurt um Lángaföstu furstr manna á Íslandi, ok varð þat allágætt; marga hafði hann aðra góða háttu ok trúbrögð umfram flesta menn í þann tíma á Íslandi. Eptir um vârit kvângaðist Kjartan ok gekk at eiga Hrefnu Ásgersdóttur, gaf hann henni motrinn at línfè, en um haustit hálfum mánaði fur vetr at veizlu í Hjarðarholti tók Þórólfr Ósvífrsson frá Kjartani sverðit konúngsnaut, ok skaut hann niðr í fen eitt, er eptir þeim var riðit, fánnst þá sverðit en umgjörðin aldri; en litlu síðarr at haustboði at Laugum hvarf motrinn frá Hrefnu, svâ at aldri fannst, þaðan af gerðist úvinátta með Kjartani ok Laugamönnum, ok síðan fullr fjandskapr, fór svâ fram sá vetr; en um vârit 5ta daginn í páskaviku sátu þeir Ósvífrssynir ok Bolli fyrir Kjartani við 9da mann at áeggjan Guðrúnar við Hafrsgil í Svínadal, er Kjartan reið við 3ja mann vestan or Saurbæ, þeir börðust ok sóttu 6 at Kjartan, þá er fallinn var förunautr hans annarr, en öðrum hèldu 2 menn, Kjartan hafði þat sverð, er ekki dugði, ok brá hann því jafnan undir fót sèr, en þó drap hann einn þeirra en særði aðra [1]; Bolli stóð hjá ok gerði at ekki, en er Ósvífrssynir sá, at þeir

[1]) svâ, C.

mundo eigi bera af Kjartani, þá eggjaði Óspakr Bolla alla vega ok mælti: eigi muntu vilja vita, Bolli! þá skömm á þik, at hafa farit heiman ok heitit oss liðsinni, ok gera oss nú ekki gagn, er vèr þurfum þín, var Kjartan oss þá þúngr, er vèr gerðum minna til, ok ef hann skal nú undan rekast, þá man þèr, Bolli! sem oss, skamt til afarkosta. Þá brá Bolli sverði síno Fótbít ok snèri at Kjartani; þá mælti Kjartan til Bolla: víst ætlar þú nú níðíngsverk at gera, en miklu þikkir mèr betra at þiggja dauða af þèr, frændi! enn veita þèr bana, ok því man ek þèr eigi vâpnum verjast; kastaði hann þá vâpnunum [1]), var hann þá enn lítt sárr en mjök móðr. Bolli svarar engu máli Kjartans, en veitti honum banasár. Bolli iðraðist þegar þessa verks, ok settist undir herðar honum, ok andaðist Kjartan í knjám Bolla. Nú fóro öll skipti Laugamanna ok Hjarðhyltínga bæði áðr ok síðan, sem segir í Laxdælasögu, þó at hèr sè lítit brèlt [2]) af. Lík Kjartans stóð uppi viku; þá hafði Þorsteinn Egilsson, móðurbróðir Kjartans látit gera kirkju á bæ sínum at Borg, var Kjartan þángat færðr, ok segist svâ, at þá væri kirkjan ný vígð ok í hvítavâðum, er Kjartan var þar grafinn. Fur víg Kjartans vurðu Ósvífrssynir allir sekir ok gefit fè til utanferðar, ok kom engi þeirra út síðan, ok kom þá fram þat, er fyrirsagði Stefnir Þorgilsson, frændi þeirra,

[1]) sverðinu er hann hèlt á, *B.* [2]) brèfat, *B.* brèf, *C.*

þá er þeir sektu hann á alþíngi fur kristniboð, sem furr er sagt, ok eigi síðr fyldist þat, er Ólafr konúngr mælti at skilnaði þeirra Kjartans, at Bolla var mikit atkvæði [1]) ok úhamíngja í verki þessu.

*Frá atgerfi Ólafs konúngs Tryggvasonar.*

254. Nú er frá því at segja, at svâ sem Ólafr konúngr Tryggvason var meiri ok styrkari ok betr at íþróttum búinn enn hverr maðr annarr á norðrlöndum í þann tíma, svâ var ok stórmenska hans í öllum lutum ok örleikr við sína menn, umfram flesta konúnga. Svâ segir Hallarsteinn [2]):

Hafglóð hilmir sáði
[hjaldr ríkr [3]) ok gaf skjaldir [4])
stètt hríngs stöfnum veitti
stikka vâpn ok skikkjur;
stórráðr steinda knörru
stillir fèkk, en ekki
hildíngs hæfði mildi,
hann er ríkstr konúng manna [5]).

Ólafr konúngr sat lengstum um kyrt á vetrum með miklu fjölmenni, ok veitti hirð sinni ok vinum, skorti þá hvârki með konúngi drykkjur stórar nè gleði; þess getr Hallarsteinn:

Húns nótt hverja knáttu
hirðmenn konúngs [6]) spenna

---

[1]) vandkvæði, *F.* [2]) Markús lögmaðr, *F. allstaðar.* [3]) hjald-ríkr, *C*, *F.* [4]) skjaldar, *B*, *C.* [5]) konúngs manna, *C.* [6]) jöfurs, C.

gyld horn græðis meldrar
glaðr vísi [1]) drakk þaðra;
víðfrægr velja tæði
vín hirðmönnum sínum
allvaldr einkar mildum [2])
Ólafr und veg sólar.

Á sumrum lá Ólafr konúngr jafnan úti á herskipum, ok fór fyrir land fram með liði síno; svâ segir Hallarsteinn:

Morðlinns mörgu sinni
móðþrútinn bjó úti
(húfr svall, hrannir fèllu)
hvessimeiðr á skeiðum;
gylt [3]) hlýr gnöptu skoltar [4])
gunnfíkinn [5]) lèt blikja [6])
her ruðr höfnum fjarri
höll ok fremstr at öllu.

*Frá Eindriða ilbreiði.*

235. Svâ er sagt, þá er Ólafr konúngr hafði mjök svâ búit skip sín or Niðarósi, at einn dag veitti hann liði sínu ok leiðángrs mönnum, var þá drukkit fast, konúngr var hinn glaðazti ok alt fólk. Þá var mart mælt sem verða kann við drykkinn, talaðu menn um þat, hvârt þá mundi alkristit fólk í Noregi, ok skírðir menn allir; þá svarar Úlfr hinn rauði, merkismaðr Ólafs

[1]) vísir, *B*, *C*. [2]) mildr, *F*. [3]) gult, *B*, *C*.
[4]) skólptar, *C*. skálptar, *B*. [5]) gunnfílinn, *B*.
[6]) blikra, *B*.

konúngs: því síðr ætla ek, segir hann, fólk alt skírt hèr í landi, at mèr þikkir vera mega, at hèr eigi lángt frá oss sè nökkurir menn úskírðir. Konúngi var sagt skjótt, hvat Úlfr hafði talat, lèt hann þegar kalla Úlf á sinn fund ok mælti til hans: segir þú, Úlfr! at heiðnir menn muni hèr byggja nærr oss? Úlfr svarar: frekt ero þá tekin orð mín, herra! en þó skal gánga við því, at ek hefir þannig heldr ávísat. Konúngr mælti: hvârt getr þú þessa eðr veizt þú með sannindum? Þat eitt, segir Úlfr, skal ek uppbera fyrir yðr, herra! at ek hafa nökkut til míns máls. Konúngr mælti: þá skaltu greina með sannindum, hvar þetta heyrir til. Svâ skal vera, segir Úlfr: sá maðr er inn í Þrándheimi, er Eindriði heitir, hann er kalladr ilbreiðr; Eindriði er á úngum aldri, úkvângaðr, ok hefir tekit fyrir skömmu við föðurleifð sinni, hann er ríkr at penníngum, mikill maðr vexti ok fríðr sýnum, úgerla vita menn afl hans ok íþróttir; hann er örr af penníngum ok manna vinsælaztr; en svâ er mèr sagt, herra! at Eindriði mun vera maðr úskírðr. Konúngr svarar: þat er skaði, svâ vel sem þú segir frá manni þessum, ef hann skal eigi kunna skapara sinn; nú hefir þú, Úlfr! svâ at eins þetta uppkveðit, at þú skalt fara með menn svâ marga sem þú vill á fund Eindriða, ok leita at koma honum til mín. Úlfr svarar: fara mun ek ef þèr vilit, ok ekki

við fjölmenni, þvíat Eindriði er þessháttar maðr, at ek man ekki kúga hann til nökkurra luta, þeirra er hann vill eigi, skulum vèr vera saman 4 menn ok 20; fèkk Úlfr sèr þá róðrarskútu eina, fór hann með sína menn þar til er hann kom nærr bygð Eindriða, gekk Úlfr upp til bæjar við 12ta mann, en aðrir 12 skyldo gæta skips. Eindriði var úti fyrir ok fagnaði vel Úlfi, ok bauð honum þar at vera svâ lengi sem hann vildi með alla sína menn, þvíat honum var Úlfr maðr málkunnigr. Úlfr tók því vel ok gengu þeir inn; þar var bærr skrautligr ok stórr; en er þeir komu í stofu ok tóko samsæti, þá mælti Eindriði: svâ er háttat at ek veit at þèr hafit tekit sið annann enn ek hefi ok mínir menn, en ek vil veita yðr haldkvæman beina ok úfalsaðan; því skaltu kjósa, hvârt vèr drekkum allir saman eðr í sínu herbergi hvârir. Úlfr svarar: þat þikkir mèr hvârum tveggjum skemtiligra, at vèr drekkim allir samt, á ek við þik erendi þau, er ek vil í tómi frambera, en vèr eigum konúng svâ ágætan, at hann hreinsar þat skjótt af með sínum góðvilja, þó at nökkut im hafi á oss dregit af samneyti annarsligs siðferðis. Eindriði mælti: þat er mèr ok gæfazt; en hversu margmennr ert þú? Úlfr segir at aðrir 12 hans menn voro niðri at skipi. Þá skal ek, segir Eindriði, fá menn til at geyma yðvars góds, en þínir menn skulu fara til húss, ok skulut þèr hèr vera allir

velkomnir. Var þá svâ gert. Síðan var öl innborit, hafði Eindriði mart manna fur, ok var þar veizla hin bezta. Úlfr sat á aðra hönd Eindriða ok menn hans utar frá; en er menn voro kátir, spurði Eindriði at erendum Úlfs, eðr hvârt hann ætlaði nökkut at fara lengra. Úlfr svarar: Ólafr konúngr sendi mik híngat þess erendis, at hann býðr þèr til veizlu með sæmd ok vináttu, sem mörgum öðrum, út til Niðaróss, lagði hann þar til mörg orð, at þú skyldir þessa ferð eigi undir höfuð leggjast, þvíat hann hefir góða spuru af þèr. Eindriði svarar: hafi konúngr þökk fur boð sitt ok sæmilig orð til mín, en ek mun á morgin veita andsvör erendi þínu, þá er vèr erum allir údrukknir ok með fullri skynsemd. Var þar um kveldit avlteiti mikil, ok sváfu menn vel um nóttina, en um morgininn, er menn komo í sæti sín, mælti Eindriði til Úlfs: þat er at segja um þitt erendi, at þú skalt þiggja hèr veizlu svâ lengi sem þú vill, en mín ferð mun dveljast til konúngs, þvíat ek á þángat ekki erendi at sinni, en ek mun þegar fara á hans fund, er mèr þikkir nauðsýn til bera; mun ek ok heima bíða, ok hvergi undan leita, ef konúngr vill mik finna; mátt þú ok svâ segja konúngi, at ek vil vera vin hans, ef hann gerir vel til mín. Skildu þeir svâ sína ræðu, at alt tal fór með þeim vinsamliga; fór Úlfr þegar út eptir firði, er hann var búinn, en Eindriði sat eptir.

Sagði Úlfr konúngi alt hit sannazta um sinn erendis flutníng ok andsvör Eindriða. Konúngr spurði Úlf, hvat hann kannaði af um siðferði Eindriða, hvârt hann væri mikill blótmaðr? Úlfr svarar: þess varð ek eigi varr, at hann blótaði skurðgoð, ok enginn maðr kunni mèr þat segja, þvíat hann hafði ekki blóthús á bæ sínum; þá er þegar nærr, segir konúngr, skal ek hann þá heim sækja [1]) ok koma á úvart, ef hann vill mik eigi finna. En þegar Úlfr heyrði þetta af konúngi, skaut hann leyniliga hesti undir [skósvein sinn [2]), ok bað hann ríða sem hvatligazt ok segja Eindriða, at konúngr mundi koma þar skjótt. Ólafr konúngr bjóst sem hvatligazt, sigldi hann um nótt inn eptir firði ok hafði 300 manna, hann kom til bæjar Eindriða snemma dags, ok gekk þegar upp með öllu liði sínu; en er konúngr var kominn skamt frá ströndu, þá kom Eindriði á mót honum með mikla sveit manna, [fagnaði Eindriði konúngi með miklum blíðskap, ok bauð honum heim til bæjar með alla sína menn [3]), sagði sèr þökk á, at þeir [4]) þægi þar veizlu, er hann sagðist hafa búit þeim. Konúngr tók glaðliga boð Eindriða; en er þeir komo at stofunni, mælti Eindriði: svâ er háttat, herra! at ek mun ekki dyljast við þat, at siðir vârir munu vera ekki samfærir at frásögn manna,

[1]) við fjölmenni, *bætir við B.* [2]) mann, *B.* [3]) *vantar í B.* [4]) konúngr, *B.*

ok með því, ef þèr vilit eigi hafa oss i samsæti með yðr, þá munut þèr byggja stofu þessa, sem yðr er fur búin, en vèr munum leita oss annars herbergis. Konúngr svarar: þú skalt hafa sjálfr stofu þína ok þínir menn, en þú skalt halda oss kost meðan vèr viljum hèr dveljast, munum vèr slá landtjöldum vorum úti hjá stofunni. Var nú svâ gert, sem konúngr mælti; skorti þar engan lut á, at konúngi var veitt hit sköruligzta, fór þar eptir öll þjónosta; ok hinn fursta dag veizlunnar lèt Ólafr konúngr kalla til sín Eindriða; hann kvaddi konúng, er hann kom inn; konúngr tók vel kveðju hans, ok mælti svâ: þó at ek vilja eigi samneyta alþýðu heiðinna manna, þá vil ek at þú sitir hèr, ok vil ek eiga tal við þik. Eindriði segir, at þat skyldi vera á hans valdi. Svâ er sagt at Eindriði væri búinn, er hann gekk inn í landtjaldit fyrir konúng, at hann var í rauðum skarlats kurtli, hann hafði silkihúfu gullsaumaða á höfði, hann hafði [spennt gullhlaði at höfði sèr [1]), digran gullhríng hafði hann á hægri hendi, en á vinstra handlegg hans sat einn smásveinn hardla fagr 4 vetra eðr 5, sá sveinn var mjök áþekkr Eindriða í yfirbragði; þá var fenginn einn stóll undir Eindriða, ok settist hann framan at konúngsborðinu, en setti sveininn á knè sèr; þá mælti konúngr: þú ert mikill maðr ok vænn, ok ef þar fara íþróttir þínar eptir, þá munu ekki margir vera þínir jafníngjar í Noregi; því hæfir

[1]) gullhlað um enni, *B.*

þèr at vita skapara þinn, ok kunna at lofa guð fyrir sínar gjafir; ert þú kvângaðr maðr? Eindriði svarar: eigi er þat. Átt þú þó, sagði konúngr, svein þenna enn fríða, er sitr á knè þèr? ekki á ek barn, herra! segir Eindriði, sveinn þessi er systurson minn, en þó skal honum fur þat gánga, ef ek má ráða, sem ek eiga hann, þvíat ek mundi honum eigi meira unna, þótt hann væri minn sonr. Konúngr mælti; er nökkut hof á bæ þínum? Eindriði svarar: ekki er hèr hof. Konúngr mælti: hvern átrúnat hefir þú, ef þú ert heiðinn ok þó engi blótmaðr? Eindriði mælti: yðr mun ek þikkja tala heldr úvitrliga, ek vildi heldr at þèr talaðit annat, þat er yðr líkaði, en spurðit mik ekki at um átrúnaðinn, þvíat ek þikkjumst engan hafa, þvíat þat hefir ek fastekit [1]) með mèr, at ek skal aldregi trúa á stokka eðr steina, þó at þat sè gjörvar líkneskjur eptir fjandum eðr mönnum, þeim er ek veit eigi hverju orkat hafa; en þó at mèr sè sagt, at þeir menn hafi mikit mátt, þá þikkir mèr þat ekki mjök sannligt, alls er ek reyni, at líkneskin þau, er guð ero köllut, ero í alla staði úfríðari ok enn máttaminni enn ek sjálfr. Konúngr mælti: hví trúir þú þá eigi á sannan guð, þann er alt má, ok lætr skírast í hans nafni? Eindriði svarar: þat berr þar til, at þèr hafit ekki furr komit, ok öngvir af yðvarri hálfu, at gera [mèr] kunnigt nökkut af athöfnum þess guðs, er þèr kallit almátkan; en þat annat,

[1]) *þannig A. B.*

er þó bítr [1]) skjótara fur, at með því er ek vildi eigi trúa því, er faðir minn ok aðrir frændr sögðu mèr frá guðum sínum, þá hefir ek einráðit at taka aldri þann sið, er í alla staði er gagnstaðligr þeirra átrúnaði [2]), nema ek komi fullri skilníng á, at yðarr guð sè svâ almáttugr sem þèr kallit hann. Konúngr spurði þá menn sína, þá er hann hafði sent um allan Þrándheim at kristna fólk eptir dráp Yrjar-Skeggja, ef þat væri satt, er Eindriði sagði, at þeir hefði ekki boðat honum guðs nafn. Þeir sögðu þat satt, því at hann var þá farinn í hernat, segja þeir, með sína sveitúnga, en síðan leið oss or hug at gera yðr þetta kunnigt. Konúngr mælti þá til Eindriða: hefir þú ekki spurt þat, Eindriði! at ek hefir refsat þeim sumum mönnum, sem eigi hafa viljat láta at orðum mínum um kristniboðit? heyrt hefir ek þat, segir Eindriði, en úhræddr er ek um þat, at þèr veitit mèr refsíng, ok yðr satt at segja, skal ek engum höfðíngja veita nauðga þjónosto, vil ek heldr dauða þola enn nökkurs manns kúgan, ok vita skulut þèr þat, þó at þèr hafit öðrum nökkut ógnat, at svâ er hèr bygðum skipat í nánd, at ek þarf engis manns nauðúngarmaðr at vera, en gera skal ek til yðar vel, sem ek hefir kunnáttu til [3]), ef þèr bjóðit mèr enga afarkosti, en halda fram

[1]) tekr, *B.* [2]) ok ókunnir menn boða mèr ok vandalausir, *bætir við B.* [3]) ok með engum vèlum, *bætir við, B.*

hinu sama siðferði sem ek hefir áðr haft. Konúngr mælti: svâ virðast mèr þín orð, at þú munt vera maðr djarfmæltr ok hafa vitrleik til at sjá sannindi um síðir, en ekki skal hèrum tala fleira at sinni enn þèr þikkir hæfiligt; en nú er þat at ræða, at mèr er sagt þat, er mik varir at satt sè, at þú munt vera íþróttamaðr mikill; hverjar ero þær þínar íþróttir, er þú þikkist framarr kunna enn úbreytiliga [1])? Eindriði svarar: herra! hèr liggja skjótt svör til, at íþróttir kann ek engar; ek er maðr úngr ok kominn lítt af barnsaldri, mista ek fur skömmu föður míns, ok hefir ek síðan helzt lagit hug á hýbýla hátt ok framflutníng liði mínu, en meðan faðir minn lifði, ok ek var úngmenni, þá unni hann mèr svâ mikit, at hann nenti ekki at gera móti mínum vilja, en mèr fór, sem mörgum börnum, frá því er ek kenda föður ok frændr [2]), at ek lagða á ekki hug þat er mèr var mentan í at nema, heldr á einasaman æsku gleði ok gáleysi, þar til er ek mista míns föður. Konúngr mælti: segja mátt þú mèr satt af fyrir því at ek skal eigi fyrirmuna þèr þinna íþrótta, heldr kann vera, ef þú lætr þær í ljós við mik, at sá láti þèr þína mentan at gagni koma, er þèr gaf í fyrstu. Fast sækir þú þetta mál, segir Eindriði; nú kann ek eigi at telja mèr þat til íþróttar, þótt ek sæi á þar er sveinar lèku sèr á sundi. Konúngr mælti: vel er at þú varist alt sjálfhól ok hræsni, en segir þó satt; þeir ero

[1]) *þannig A. B.* [2]) móður, *B.*

flestir leikar at maðr verðr at sjá áðr sjálfr kunni, eðr hvat viltu fleira til tína? Sèr ek, segir Eindriði, at ek kem mèr eigi undan yðru kalsi, utan ek svari nökkuru því, sem þèr talit til; tók ek á boga, þá er aðrir smásveinar skutu til hæfis, en ekki kunni ek at skjóta. Vera má svâ, segir konúngr, at þu skytir eigi beint í furstu, ok nefn þú til hina þriðju íþrótt þína. Eindriði mælti: frekt takit þèr, herra! mín orð, ok vant verðr mèr at sigla milli skers ok báru, mèr heyrir eigi at þegja við yðr, en þèr vaktit mín orð eptir því sem yðr sýnist ok nökkut öðruvís enn ek þikkjumst tala; nú tel ek mèr ekki til íþróttar, þó at ek hèldi á handsöxum, ok þó heldr úfimliga, þá er ek var barn. Vera má þat, segir konúngr, at þú lèkir þann leik eigi fimliga, furrenn þú vandist, skaltu nú fara frjáls daglángt ok hefir þú oss vel skemt. Gekk Eindriði þá út or landtjaldinu til sinna manna. En næsta dag eptir, þá er konúngr hafði drukkit um hríð, lèt hann kalla Eindriða til sín ok mælti til hans: vill þú nú láta skirast ok taka trú rètta þrautarlaust? Eindriði svarar: ekki er ek svâ úmerkr at mèr sè nú alt annat í hug enn ígær. Hugsat hefi ek nú, segir konúngr, máldaga með okkur, ek mun fá mann til af liði mínu at reyna íþróttir við þik, ok ef sá færr þik yfirkomit í þeim íþróttum, er þú nefndir upp ígær, þá skaltu trúa á sannan drottinn Jesum krist, en ef þú berr hærra lut, þá skalt vera frjáls fur mínu ákalsi, ok halda þá

trú sem þú vill. Þat er bæði, segir Eindriði, at ek hefi engar talt mèr íþróttir, enda kann ek engar, en dýrt er drottins orð, ok munut þèr hljóta at ráða okkar ímillum hvarvitna, ef þèr farit með engri kúgan at, enda brjóta ek eigi berliga orð mín á bak, eðr hverr er sá maðr er þèr látit til móts við mik? Konúngr svarar: mèr þikkir eigi annat líkara enn ek muna sjálfr til gánga, er þat bæði at ek þikkjumst svâ gjörst vita hverr þú ert, enda er þèr þá svívirðíngarlaust, hvarr okkarr sem framarr reynist, þvíat þú munt kallaðr hinn mesti íþróttamaðr, ef þú berr af mèr, en hinn er þó miklu æðri þinn sigr, at ek bera hærra lut af okkrum viðskiptum, ef [þú tekr þat við [1]) sem ek sagði áðr. Eindriði mælti: þó at ek kynni manna bezt allar íþrottir, sem nú kann ek í engum eðr fám, þá væri mèr eigi gánganda til við yðr. Sá kostr þikkir mèr ok enn beztr, segir konúngr, at viðreynim eigi, ok kallist þú yfirkominn. Kostr mun þess, segir Eindriði, þó at ek sjái áðr sundfarar yðrar. Síðan gengu þeir til strandar ok alt fólk, afklæddist konúngr ok svâ Eindriði, lögðust þeir frá landi, ok lèkust við lengi, færðu ýmsir aðra niðr, ok um síðir voro lengi í kafi at nærr þótti örvænt at þeir mundi uppkoma, þó varð þat um síðir at Ólafr konúngr kom upp ok lagðist at landi, gekk hann upp ok tók hvíld en klæddist eigi; engi maðr vissi hvat af Eindriða var vorðit, ok

[1]) þetta liggr við, *B. F.*

enginn þorði at spurja konúng eptir; en er laung stund var liðin, sá menn hvar Eindriði fór, hann hafði þá fengit sèr reiðskjóta, sat hann á baki einum miklum gransel, hann hèlt tveimmegin í kampa honum ok stýrði honum svâ, en er hann átti skamt til lands, þá lèt hann lausan selinn. Konúngr spratt þá upp, ok lagðist út ímót honum, ok færði hann þegar í kaf ok hèlt honum lengi niðri, en er þeir komu upp, lagðist konúngr at landi, en Eindriði var þá máttfarinn, svâ at hann varð eigi sjálfbjargi, en er konúngr sá þat, lagðist hann til ok hjálpaði honum. En er Eindriði tók at hressast ok þeir voro klæddir, mælti konúngr: mikil íþrótt er þèr í sundförum, Eindriði! en þó er þat guði at þakka, er þú vardt okkar nú ódrjúgari, sem menn máttu sjá, at ek varð at flytja þik at landi. Þat muntu nú hljóta at virða, sem þú vill, segir Eindriði; en hví deyddir þú eigi selinn, [segir konúngr,] ok drótt hann á land? því, sagði Eindriði, at ek vildi eigi, at þèr mættit þat segja, at ek hefða fundit hann dauðan. Líðr nú af hin næsta nott, ok annann dag eptir segir konúngr at þeir munu reyna skot. Eindriði svarar: alt þikkir mèr þèr, herra! hafa tekit frekliga vattvísi mína um íþróttirnar, þarf ek nú ok eigi til at gánga af því, at enn síðr er ek áskynja vorðinn þessarrar enn hinnar fyrri. Vel þætti mèr, segir konúngr, þó at svâ væri, ok er þá enn sá til, at þú reynir eigi ok kallist

yfirkominn. Eindriði svarar: lengi mun enn þess kostr, ok þikkir mèr engum manni ofskemtan, ef gaman þikkir, at sjá hversu lángt er ímilli íþróttar yðvarrar ok ófimligrar minnar viðleitni. Gengu þeir þá til skógar, er skamt var frá bænum, lagði konúngr af sèr skikkju, setti hann þá [spán í bakka [1]), ok ætlaði lángt skotmál, síðan var honum fenginn bogi ok ör, skaut hann ok kom örin í utanverðan spáninn, ok stóð þar; skaut þá Eindriði innarr í spáninn ok þó eigi í miðjan; konúngr skaut í annat sinn, var þá til gengit ok stóð örin í miðjum spæninum, kölluðu allir þat frægðarskot; Eindriði lofaði ok hæfni konúngs ok kvaðst ætla, at honum gerði ekki eptir at skjóta; konúngr bað hann frá gánga, ef hann vildi, ok segjast yfirkominn um þessa íþrótt; Eindriði segir at þess mundi kostr, þó at hann freistaði áðr. Eindriði skaut þá, ok kom sú avr í strengflavgina á þeirri avr konúngs, er hann skaut síðarr, ok stóðu svâ báðar. Þá mælti konúngr: mikill frægðarmaðr ert þú, Eindriði! um íþróttir, en þó er þessi enn eigi reynd til fullnaðar; nú skal taka svein þann hinn fagra, er þú sagðist mest unna hinn daginn, ok setja hann at skotspæni, eptir því sem ek segi fur. Var þá svâ gert, lèt konúngr þá taka eina hneftöflu [2]) ok koma [3]) í höfut sveininum: nú skulu við hèr skjóta töfluna [4]) or höfði sveininum,

[1]) spánbakka, *B.* [2]) hneitaufl, *B.* [3]) setja, *B.* [4]) töflina, *B.*

segir konúngr, svâ at sveininn saki ekki. Þat munut þèr mega gera, ef þèr vilit, sagði Eindriði, en vilja munda ek hefna, ef sveininum er veittr skaði; konúngr lèt þá binda líndúki [laungum um höfut [1]) sveininum ok lèt 2 menn halda endum dúksins, svâ at sveinninn mætti hvergi víkja höfðinu, þá er hann heyrði hvin örvarinnar; gekk konúngr þá til þess staðar, er hann skyldi standa, konúngr signaði sik ok gerði krossmark fur oddi avrvarinnar, áðr hann skaut, en Eindriði roðnaði mjök, avrin flaug undir töfluna [2]) ok setti aptr af höfði sveininum, ok svâ nærr hafði hausinum at heldr en eigi dreyrði or hvirflinum. Konúngr bað þá Eindriða til gánga ok skjóta eptir, ef hann vildi, en í annann stað gengu at Eindriða móðir hans ok systir ok báðu hann með miklum gráti eigi til gánga [3]). Eindriði mælti til konúngs: ekki er ek hræddr um, þó at ek hætta til at skjóta, at ek geri sveininum mein, en þó skal nú eigi skjóta at sinni; þá þikkir mèr, segir konúngr, sem þú sèr yfirkominn. Eindriði svarar: þat skulut þèr nú virða, sem yðr líkar, en má þat fyrir því at þèr takit þetta svâ [4]), þvíat mèr þikkir þèr áðr heldr hafa hallat til hverja virðíng þèr hafit á um okkur skipti. Hallat hefir ek víst, segir konúngr, ok þó í hag þèr. Gengu menn síðan

[1]) fyrir augu sveinsins ok aptr um hnak kann, *B.* [2]) töflina. *C.* fló undir hneftöflina, *B.* [3]) ráða, *B*, *C.* [4]) frekt, *bætir við C.*

heim til bæjar, ok var konúngr hinn kátazti ok svâ Eindriði. En 3ja dag mælti konúngr til Eindriða: nú er veðr blídt ok kyrt, ok skulum við nú reyna handsaxa leikinn; gekk þá út alt fólk; voro þá fengin sín 2 saxx hvorum þeirra, ok lèku þeir svâ um stund, var þá fengit hit 3ja sax hvârum þeirra, ok lèku þá svâ at jafnan var eitt á lopti fur hvorum, en þeir hendu æ meðalkaflann, ok þóttist engi maðr grein á kunna, hvârr mjúkligarr lèk; leið svâ laung stund, þá mælti konúngr: enn er þessi leikr eigi reyndr til fullnaðar; gengu þeir þá til strandar, ok út á eitt lángskip mikit, ok bað (konúngr) sína menn róa [á skipinu með endilaungum borðum, gekk konúngr þá útbyrðis á árunum [1]) fram með endilaungu skipi, ok lèk þá svâ at þrimr handsöxum jafn fimliga sem á landi, ok svâ hit sama Eindriði; alla leika lèk konúngr fur, en Eindriði eptir. Þvínæst gekk konúngr í annat sinn með sama hætti ok furr [eptir árunum sem róit var [2]), ok svâ fram fur borðit, at hann feldi eigi þá heldr handsöxin enn aðr, ok eigi varð hann skóvâtr, gekk hann þá aptr eptir árunum á annat borð ok svâ upp í skip; mátti þat engi maðr skilja, hversu hann lèk þetta. Eindriði stóð fur konúngi, er hann kom upp á skipit, ok sá upp á hann þegjandi; konúngr mælti til hans: hví stendr þú nú ok leikr eigi eptir? þá mælti

[1]) *vantar í C.* [2]) framrètt, *B.*

Eindriði: þetta máttut þèr, herra! með engu móti leika af einni saman yðvarri íþrótt, heldr með krapti þess guðs, er þèr trúit á, ok af því skil ek, at hann mun alt mega, ok þí skal ek á hann trúa hèðan af, at hann er einn guð en engi annarr. Ólafr konúngr varð við þessi orð hans glaðr ok lofaði guð margfaldliga, er hann gaf honum slíka skilníng. Sagði konúngr þá Eindriða mörg stórmerki allsvaldanda guðs; var Eindriði því nærst skírðr ok allir hans menn; gjörðist hann síðan hirðmaðr Ólafs konúngs, ok fór með honum út til Níðaróss, ok er þat savgn sumra manna, at hann hafi verit með Ólafi konúngi á Orminum ok fallit þar.

236. Ólafr konúngr lèk þat optliga síðan saman, þá er menn hans rèru með landi fram, at hann gekk á árunum útbyrðis, ok lèk at handsöxum; þess getr Hallarsteinn [1]):

Tvær senn tiggja vinnur
tel ek þær [ek veit [2]) færi [3])
gunnelds geymir unna [4])
gramr íþróttir framdi:
hnígbaldr hvítra [5]) skjaldą
handsöxum lèk vandla
fleinrjóðr flestra dáða
frárr ok gekk á árum.

---

[1]) Markús lögmaðr *allstaðarr F. sem fyrr.* [2]) er rètt, C. er veit, *B.* [3]) færri, *C, B.* [4]) geimi runna, *B.* geymi runnar, *C.* [5]) hvíta, *B.*

*Frá veðjan konúngsmanna ok þeirra brattgeingni.*

237. Ólafr konúngr sigldi norðan or Þrándheimi með lið sitt, þá er hann var búinn, fór hann suðr með landi ok heldr tómliga, dvaldist hann í mörgum stöðum, bætti hann siðu manna, þar er honum þótti þurfa, ok skipaði mönnum sínum í sýslur ok ármenníngar, alt þar er hann fór; gjörðust þá margir lutir merkiligir í ferðum hans, þeir er menn hafa í frásagnir fært eðr kveðit um. Ólafr konúngr lá skipum sínum í höfn einni, þaðan skamt frá höfninni var hamrafjall eitt harðla hátt ok hin brattaztu björg: svâ bar til einn dag, at 2 hirðmenn konúngs talaðu um íþróttir sínar, þóttist hvârr avðrum meiri, ok kunna fleiri fimleika enn annarr, þar kom at þeir höfðo kappmæli um, hvârr þeirra mundi brattgengri í björg, deildu þeir þat mál um síðir með svâ miklum þótta, at þeir veðjaðu um, lagði annarr við gullhríng en annarr höfut sitt; þess getr Hallarsteinn:

Vask jafns vætki rofnat
viti menn at ek frá tvenna
haus manns hríngi ljósum [1])
hirðmeðr konúngs veðja;
her mart, hjörva snyrtir
hvârr lèzt grams [2]) í hamri,

[1]) lausum, *B.* [2]) gramr, *B.*

styr remdr [1]) stillir framdi
stærra, öðrum færri.

Eptir þessa veðjan ok mörg kappmæli gengu þeir báðir upp í bergit, gekk annarr svâ langt, at honum hèlt við háska ok hrapan, leitaði sá þá aptr með hræðslu, ok gat borgit sèr meiðslalaust ok þó sem nauðuligazt; annarr gekk furri [2]) ok komst sá alt uppí midt fjallit, en þá þorði hann hvârki at fara fram nè aptr, ok hvergi at hræra sik, þvíat hann hafði bæði litla handa festi ok fóta, var hann þá kominn svâ háskasamliga, at hann sá fur vísligt sitt ofanfall ok bana, ef hann viki sèr með nökkuru móti þaðan, sem þá var hann, tók hann þá at kalla af mikilli hræðslu, at Ólafr konúngr eðr menn hans skyldu hjálpa honum; svâ segir Hallarsteinn:

Annarr öðlíngs manna
ókvíðinn rèð síðan
(stígr varð stála sveigi
strángr) í berg at gánga;
hátt fjall hvârki mátti
(hans var líf þrotit) klífa
eldruðr [3]) avlna foldar
upp eða niðr frá miðju.

En er Ólafr konúngr heyrði óp hans, ok vissi hvat um var, bað hann bjarga manninum, sagði þeim þat vera drengsbót mikla, ef nökkurr hans manna væri svâ frækinn at þat fengi gört; ok er

[1]) styreimdr, B, C. [2]) fyrr, B. [3]) elldauðr, B.

konúngr sá at engi varð til, þá lagði hann af sèr skikkju sína, fór hann til ok rann bergit upp at manninum, nærr sem slèttr völlr væri, tók hann þá manninn undir höud sèr, ok gekk með hann nökkuru lengra upp í fjallbergit; svâ segir Hallarsteinn:

Hildíng hart frá ek gánga,
hann rèð prúdt eptir manni,
ráðvandr hilmir rendi
ríp, í bratta gnípu;
þrek leyfðr [1]) þengill hafði,
(þat var endr) und hendi
[sigrþoll, bar svâ [2]) stillir
sinn dreng, ok gekk lengra.

Snèri konúngr þá ok gekk ofan aptr bergit, svâ at hann hafði manninn undir hendi sèr, ok setti hann heilan niðr á jöfnu; mæltu þat allir þeir er við voro, at þetta væri mikit þrekvirki, ok er víðfrægt síðan.

*Fra Ólafi konúngi ok Þorkeli dyrðli.*

258. Þat bar at optliga, þá er Ólafr konúngr lá í höfnum á skipum sínum, ok varðmenn vöktu á landi yfir skipunum, at konúngr kom þá af landi ofan at þeim úvörum um nætr, er þeir ætlaðu at hann svæfi á skipi úti, en þeir vurðu ekki varir við, ok engi vissi með hverju móti hann fór á land, þó at þeir vekti eðr hèldi vörð á, þat fylgði ok þó at dögg væri mikil, sem víða kann á jörðu, at hvârki vöknuðu skúar

[1]) reyfðr, *B.* [2]) sigrþollr svâ bar, *B, C.*

hans nè klæði neðan, þó at hann væri síðklæddr, aldri sá þeir ok döggvar drep á grasi þó at loðit væri, þar er hann hafði áðr ný gengit; nú var liðsmönnum mikil forvitni á, með hverju móti slíkt mundi verða, en engi maðr bar traust til at frètta konúng eptir slíkum lutum; þat var eina nótt at Þorkell dyðrill [1]) móðurbróðir konúngs sat um, ef hann mætti viss verða, hversu konúngr færi þess á land af Orminum, at varðmenn vurðu ekki varir við, þó at þeir vekti; Þorkell stóð upp ok klæddist, þá er aðrir menn voro sofnaðir á Orminum, gekk hann or lyptíngunni, ok varð þess varr, at Ólafr konúngr lá þar í sæng sinni, settist Þorkell þá út á stokkinn við bryggju sporðinn, er lá upp á land af skipinu, horfði hann inní skipit, ok snèri [2]) bakinu at landi, ok hèlt svâ vöku fur sèr, at konúngr mætti með engu móti gánga svâ or lyptíngunni, at Þorkell vyrði eigi varr við; Þorkell var skartsmaðr mikill ok hèlt sik ríkmannliga at klæðum ok öllum kosti, en nú er svâ sagt, at hann hefði yfir sèr ágæta guðvefjar skikkju samdregna hinum beztum grám skinnum, en um morgininn er nökkut var mornat, fann Þorkell eigi furr enn gripit var í herðar honum, ok steypt honum vâveifliga á kaf út af stokkinum, er hann sat á; var þar þá kominn Ólafr konúngr ofan af landi, konúngr mælti við, er hann steypti honum útbyrðis: haf þú þat nú fur forvitni þína, ok jafnskjótt kast-

[1]) dyrðill, *B*, *C*. *allstaðar*. [2]) *þannig B*. horfði, *A*.

aði konúngr kaðli ímót honum, ok dró hann upp á Orminn. Þess getr Hallarsteinn;

Dáðstyrk dýrðar merki
dólg minnigs [1]) fet ek inna
ský bjóðs skelfi [2]) hríðar
sköglar borðs hin fjórðu;
hart skyndir nam hrinda
hvatlyndum [3]) Þorkatli
stórlyndr stirðra branda
storms [4]) fur borð á Ormi.

Þá mælti konúngr, er hann sá, at Þorkell leit á skikkjuna; hvat er nú, frændi! hvârt hefir vöknat [dyðrillinn þinn [5])? Þorkeli þótti hann spotta sik, ok svaraði engu, en kastaði af sèr skikkjunni heldr hermiliga. Konúngr mælti: ver enn kátr ok glaðr, frændi! þvíat ek gerði þetta fur glens ok gaman, en ekki til háðúngar við þik; eðr hví kastar þú svâ úrækiliga jafn ágætum grip? Þorkell svarar: þat var víst dugandi skikkja, en þó er nú spilt ok únýt ok ángrar mik slíkt ekki, heldr hitt satt at segja, ef yðr mislíka mínar tiltekjur. Engi lutr mislíkar mèr við þik, Þorkell frændi! segir konúngr, má ok vera at skikkjuna skaði ekki. Var Þorkell þá hinn kátazti. Konúngr tók þá upp skikkjuna, skipaði hann henni fur sèr ok hafði hendr at litla hríð, fèkk hana síðan Þorkeli [6]), var þá

[1]) dólg minnings, *B.* [2]) skjálfa, *C.* [3]) hvatskyndum, *B.* [4]) storm, *C.* [5]) dyrþillinn, *B, C, F.* [6]) Þorkatli, *B.*

bæði þurr möttullinn ok skinnin, ok skikkjan at öllu slík eðr betri enn áðr hún vöknaði. Svâ segir Hallarsteinn:

Spell vann, sparðit [1]) stillir,
spjót runns skaða bótir
meingarðr margra jarða
mikill dýrðligri [2]) skikkju;
guðvefr gjörðist jöfri
grán [3]) ok skinn und hânum
sjónfagr svipstund eina
síðan jafn eða friðri.

Þorkell dyðrill var hinn mesti ástvin Ólafs konúngs með frændsemi, veitti konúngr honum flesta luti, þá er hann kunni at beiða, sagði hann ok Þorkeli suma luti í trúnaði, er hann vildi ei at aðrir vissi; Þorkell kom opt at máli við konúng, ok spurði hví hann fór svâ leyniliga á land um nætr, talaði Þorkell djarfliga, þá er þeir voro 2 saman, sagði hann úvarligt ok eigi höfðíngligt, at hann færi einn saman fylgðarlaust lángt frá skipum. Konúngr svarar fá um, sagði þó at ekki mundi saka.

*Frá vitran Þorkels dyrðils.*

239. Þorkell var jafnan á Orminum lánga með konúngi, þó at hann væri kallaðr skipstjórnarmaðr á Trönunni með Jósteini bróður sínum. Þorkell lá um nætr við lyptíngina í furrúminu; þat var eina nótt at tekit var hógliga á fótum

[1]) sparði ei, *B.* [2]) dýrligri, *B.* [3]) gráni eða grám, *B.*

Þorkeli, hann fylgði upp hendinni ok fann at þar var Ólafr konúngr, klæddist Þorkell skjótt ok hljóðliga, konúngr tók í hönd honum ok gengu þeir utan bryggjuna, en er þeir voro á land komnir, mælti konúngr: ef þèr er svâ mikil fýst á, sem þú lætr, at vita, til hvers ek fer einn saman á land um nætr, þá skaltu nú gánga með mèr, ef þú vill áðr heita því at segja engum manni þá luti, er þú sèrr eðr heyrir á þessi nótt, meðan ek er konúngr yfir Noregi, ok þú veizt líf mitt, vit þat til sanns, at þar skal viðliggja líf þitt. Þorkell hèt þessu þegar með fullum trúnaði. Gengu þeir síðan til skógar ok þar til, er fur þeim var rjóðr, í rjóðrinu var eitt fagrt hús, þeir gengu at húsinu, ok einum megin undir vegginn nærr durum hússins; þá mælti konúngr, at Þorkell skyldi þar bíða hans, en konúngr lauk upp hurðunni ok gekk inn í húsit ok lokaði innan hurðina; Þorkell gekk at ok fann eina boru á hurðunni, sá hann þá inn í húsit, at Ólafr konúngr stóð á knjám til bænar, ok hèlt upp höndunum yfir höfut sèr, því næst kom ljós svâ mikit yfir húsit ok konúnginn, at Þorkell þóttist varla megaí gegn sjá, þar fylgði ilmr svâ ágætr, at hann hafði aldri slíkan furr kent, þá sá hann komna í húsit til konúngs bjarta menn sem sól, klædda snjáhvítum klæðum, þeir lögðu hendr yfir höfut Ólafi konúngi ok skrýddu hann háleitum konúngs skrúða, eptir þat súngu þeir allir samt ágætan lofsaung guði með svâ fögrum hljóðum, at Þorkell

heyrði slíkan hvârki áðr nè síðan. Þorkell varð við þessa sýn bæði feginn ok hræddr svâ at hann mátti varla uppstanda, fèll hann þá allr til jarðar, ok þakkaði guði, er hann náði at sjá svâ mikla dýrð. Þessa getr Hallarsteinn:

Avrr rjóðr [1]) allra dáða
jarteinir gat bjartar
dverg regns dýrðar magnat
dimmt í sinn hit fimta;
sigr gjarn sólu fegri
sèn var prýddr með skrýddum
döglingr drottins englum
dygðarfúss í húsi.

Nökkurri stundu síðarr kom konúngr út or húsinu, gengu þeir síðan til skipa. Þorkell efndi vel þat, er hann hafði heitit konúngi, at hann sagði þenna atburð eigi furr enn mörgum árum síðarr, [enn Ólafr konúngr lèt ríki í Noregi [2]) ok vann þar at margar sönnur, at hann hafði þetta sèð ok heyrt, sem nú var frá sagt, þótti skynsömum mönnum hans sögn trúanlig, þvíat hann var kallaðr merkr maðr ok sannorðr.

*Af vitran Sigurðar biskups.*

240. Þat er enn sagt einn dag, þá er Ólafr konúngr var á veizlu nökkurri, at hann hafði hlýdt messu, ok var síðan genginn til herbergis ok allir hans menn voro í sæti komnir, þá hvarf Ólafr konúngr or hásætinu skjótliga, svâ at þeir

[1]) avrr rjóð, *B.* [2]) *bætir inni B.*

sá hann eigi, en þat þóttust allir vita, at hann var eigi genginn or herberginu; spurði þá hverr annann, hvar hann mundi vera, en engi kunni or at leysa; en er Sigurðr biskup heyrði umtal manna, mælti hann: þat má ek vel segja, hvar hann er, hann stendr rètt á miðju gólfi ok talar við þann, er þèr megit eigi sjá, ok því sjáit þèr eigi konúnginn; litlu síðarr sá þeir, er inni voro, at konúngr sat í sæti síno, þóttust þeir þá vita, at hann mundi hafa talat við guðs engil; þótti öllum mikils um vert þenna atburð, en engi þorði um at tala eðr hann sjálfan eptir at spurja, með hverjum hætti þetta varð. Nú vildi guð sýna mönnum í slíku verðleik Ólafs konúngs, þó at hann vildi sjálfr leynast, svâ ok góðleik Sigurðar biskups, er hann mátti þat sjá ok segja öðrum, er áðr mátti engi vita, sá er inni var, nema konúngrinn. Svâ er ok hermt eptir nökkurra skynsamra manna orðum, þá er síðarr miklu var talat um Ólaf konúng Tryggvason, at þeim sýndist í sumum lutum mega ifa um, hvârt Ólafr konúngr hefði verit at eins jarðligr maðr eðr himneskr erendreki, sendr af guði til hjálpar mönnum.

*Bruðlaup Rögnvalds jarls drukkit til Íngibjargar.*

241. Ólafr konúngr fór liði síno suðr um Stað, þar í ferð með honum var þyri drottníng ok Íngibjörg Tryggvadóttir, systir Ólafs kon-

úngs, sóttu þá til fundar við hann vinir hans margir ríkismenn, þeir er búnir voro til ferðar með konúngi, var þar hinn fursti maðr Erlíngr Skjálgsson, mágr hans, ok hafði hann skeiðsína hina miklu, hún var þrítög at rúma tali, var þat skip allvel skipat; þá komu ok til hans mágar hans austan or Víkinni Hyrníngr ok Þorgerr, ok stýrði hvârtveggi miklu skipi; margir aðrir ríkismenn fylgðu konúngi; fór hann öllum herinum suðr með landi, en er konúngr kom suðr á Rogaland, dvaldist hann þar, þvíat Erlíngr hafði búit honum virðuliga veizlu á Sóla; þá kom austan af Gautlandi Rögnvaldr jarl Úlfsson a fund Ólafs konúngs at vitja einkamála þeirra, er orð ok sendiboð höfðu um farit um vetrinn, at hann vildi fá Íngibjargar, systur konúngs; tók Ólafr konúngr vel við jarli, var þá talat þetta mál, segir konúngr, at hann vill halda öll sín orð þar um, ok gipta honum Íngibjörgu, ef jarl vildi taka ok halda trú rètta ok kristna alt sitt undirfólk, þat er hann var yfirskipaðr. Jarl játti því; var Rögnvaldr jarl þá skírðr ok alt hans föroneyti; var þá aukin veizla, er Erlíngr hafði búa látit, ok gekk jarl at þeirri veizlu at eiga Íngibjörgu Tryggvadóttur; hafði Ólafr konúngr þá gipt allar systr sínar. Síðan bjóst jarl til heimferðar ok Íngibjörg. Fèkk Ólafr konúngr jarlinum kennimenn at kristna fólk á Gautlandi, ok kenna þeim rètta siðu; skildu þeir konúngr með hinum mesta kærleik.

*Sigling Ólafs konúngs til Vindlands ok spásögn Mostarskeggja.*

242. Eptir giptíng Íngibjargar, systur sinnar, bjóst Ólafr konúngr sem hvatligazt or landi með lið sitt, hafði hann frídt lið ok mikit, hann hafði 60 lángskipa, er hann sigldi suðr fyrir Sunnhörðaland, lagði hann at við Mostr öllum herinum; þar í eyjunni var einn gamall maðr ok þá blindr, er kallaðr var mjök framsýnn ok forspárr um marga luti, en er þeir höfðo lagt skip sín í lægi ok um búizt, þá nefndi konúngr nökkura menn at gánga úpp á eyna með sèr, þeir gengu til húss ens gamla manns, ok er þeir komu inn, spurði sá, er fur var, hverir þeir væri, eðr hvert þeir skyldi fara? Einn þeirra svarar: vèr erum kaupmenn ofan af landi ok förum með varnat vârn. Hvat kunnit þèr oss at segja, sagði karl, til ferða Ólafs konúngs eðr liðs hans? þeir sögðu at Ólafr konúngr lá öllum flota sínum undir eyjunni. Þá andvarpaði hinn gamli maðr hátt ok mælti mæðiliga: ho! ho! mikinn skaða munu vèr bíða í brautferð konúngs vârs, ok er Noregs mönnum þat mikil úhamíngja, at týna í einni ferð þeim 4 lutum, er ágætaztir ero hèr á landi, hverr í sinni tegund, svâ at engir hafa þesskyns komit furr í Noreg. Þá mælti sá er fur tilkvâmumönnum talaði: hverir ero þeir 4 lutir, er þú kallar svâ ágæta, at hvârki finnist nú nè furr aðrir slíkir? hinn blindi maðr segir: þar nefni ek furst til þann lut, er öllum er auð-

sèð, ok allir skynsamir menn tala eitt um, at engi konúngr hafi slíkr verit sem Ólafr Tryggvason, ok er því mikill skaði at missa slíks höfðíngja, at engi konúngr hefir með slíkri sæmð ok hjálp stýrt öllu fólki sem Ólafr konúngr: annann lut tel ek drotníngina Þyri, henni heyri ek alla bera eitt vitni, at eigi muni slík kona komit hafa í Noreg, sakir vits ok góðleiks: þriði lutr er skip Ólafs konúngs Ormrinn lángi, þar tala allir eitt til, at eigi muni slíkt skip gert hafa verit í Noregi: fjórði lutr er hundr konúngs Vígi, er í sinni nátturu er spakari ok betri enn hverr hundr annarr í þessu landi; nú er þat ugganda at hèr fari svâ, sem opt kann verða, at menn missa skjótt ok njóta skamma stund þeirra luta, er miklu ero ágætari enn aðrir í sinni tegund. Þá mælti konúngr til sinna manna, at þeir skyldi gánga til skipa. En er þeir voro út komnir, námu þeir staðar úti fur durunum, þá mælti hinn blindi maðr: þat er þó satt at segja, at þúngt er at bíða ellina ok sjónleysit með, þvíat einn veg ferr flestum gömlum mönnum, at eigi at eins sljóvast sýnin, heldr eyðist alt hugvitit með líkams blindinni; nú mundi ek eigi jafn mart hafa mælt, ef ek hefði vitat þat, sem nú veit ek, at ek hefir talat við sjálfan Ólaf konúng, en nú má ek þat eigi aptr taka, þat sem áðr er mælt, en þat er líkazt, at þeir leggi lítinn trúnat á geip mitt, þó at hitt væri betr. Gekk Ólafr konúngr þá til skipa

með menn sína, sigldi hann þegar er byr gaf öllum flotanum suðr til Danmerkr ok svâ ígegnum Eyrasund, kom Ólafr konúngr í þeirri ferð suðr til Vindlands ok gerði stefnulag við Búrizlaf konúng, fundust þeir konúngarnir ok töluðu um eignir þær, er Ólafr konúngr heimti, fóro allar ræður vingjarnliga milli konúnganna, ok varð góðr greiðskapr um þær heimtíngar, er Ólafr konúngr þóttist þar eiga; dvaldist hann þar lengi um sumarit, ok fann marga vini sína; þar kom ok til hans Ástríðr, dóttir Búrizlafs konúngs, kona Sigvalda jarls, var hún hinn mesti vin Ólafs konúngs, bæði af fornum tengðum, er konúngr hafði átt systur hennar, ok af vinsældum hans þá furr, er konúngr var þar í landi.

*Eiríkr jarl tengist með Sveini Dana konúngi.*

243. Eiríkr jarl Hákonarson flýði land í Noregi eptir fall Hákonar jarls föður síns, sem furr er getið, fór Eiríkr jarl furst austr til Svíþjóðar á fund Ólafs sænska [1]) Svíakonúngs, ok fèkk hann þar góðar viðtökur, veitti Ólafr Svíakonúngr þar jarli friðland ok veizlur stórar, svâ at hann mátti þar vel halda sik ok lið sitt; þess getr Þórðr Kolbeinsson í Belgskaga [2]) drápu: Meinremmir brá [3]) manna. Var Eiríkr jarl í Svíþjóð um vetrinn; þann vetr sótti til hans lið mikit, þat er landflótta varð fur Ólafi konúngi Tryggvasyni, tók Eiríkr þá þat ráð, at hann

[1]) svænska, *B*. [2]) Belgskaka, *C*. [3]) Meinrennir bar, *B*.

fèkk sèr skip ok fór í hernat um sumarit at afla sèr fjár ok liði síno, hann hèlt furst liði síno til Gotlands, ok lá þar lengi um sumarit, sætti hann kaupmönnum, er sigldu tillandsins, eðr vikíngum, stundum gekk hann upp á land, ok herjaði þar víða með sjánum. Svâ segir í Bandadrápu:

Meirr vann miklu fleiri
málmhríðir [1]) jöfur síðan
áðr frágum þat aðra,
Eiríkr [2]) und sik geira;
þá er garðvala [3]) gerði
Gotland vala strandar
virvils vídt of herjat,
veðr mildr ok semr hildi.

Síðan sigldi Eiríkr jarl suðr til Vindlands, hann hitti fyrir Staurinum víkíngaskip nökkur, ok lagði til orrosto við þá, þar fèkk Eiríkr jarl sigr, en drap lið mikit. Svâ segir í Bandadrápu:

Stærir lèt at [4]) Stauri
stafn viggs [5]) höfuð liggja
gramr vælti svâ gumna,
gunnblíðr ok rèð síðan;
sleit at sverða móti
svörð víkínga hörðu [6])
unda márr á eyri,
jarl góð vörðu hjarli.

Á því sumri fór Eiríkr jarl ok til Danmarkar á fund Sveins Tjúguskeggs Danakonúngs, ok bað til

[1]) málmhríð, *B.* [2]) Eirik, *B.* [3]) grafvala, *B.*
[4]) af, *B.* [5]) vigs, *B*, *C.* [6]) vikíngar haurðr, *C.*

handa sèr Gyðu dóttur hans, var þat at ráði gert, fèkk Eiríkr jarl Gyðu; vetri síðarr áttu þau son, er Hákon hèt. Þá er Eiríkr jarl hafði fengit Gyðu ok verit eitt sumar í hernaði, sigldi hann um haustit aptr til Svíþjóðar, ok var þar vetr annann; en at vâri bjó hann her sinn, ok sigldi síðan í Austrveg, ok þá er hann kom í ríki Valdamars [1]) konúngs, tók hann at herja, drap mannfólkit en brendi bygðir, þar sem hann fór, en eyddi landit, hann kom til Aldeigjuborgar ok settist þar um, þar til er hann vann staðinn, drap þar margt fólk en braut ok brendi borgina alla, fór hann síðan víða herskildi um Garðaríki. Svâ segir í Bandadrápu:

Oddhríðar fór eyða
óx stríð [2]) [af því [3]) síðan
log fágandi [4]) lægis
land Valdamars brandi;
Aldeigju brauzt þú ægir
(oss numnast skil) gumna,
sú var hildr með havldum
hörð, er [5]) komt austr í Garða.

Eiríkr jarl var 5 sumar í þessum hernaði öllum samt, en á vetrum var hann í Danmörku með Sveini konúngi tjúguskegg mági sínum, en stundum í Svíaveldi. Sveinn Dana konúngr hafði

[1]) Valdhamars, *B.* Valldimars, *C.* [2]) hríð, *A*, *C.* [3]) auði, *C.* [4]) fándi, *B.* [5]) *þannig*, *C.* havrð, *A*, *B.*

átt Gunnhildi, dóttur Búrizlafs Vindakonúngs, en er hon var dauð, fékk hann Sigríðar drottníngar hinnar stórráðu, móður Ólafs Svíakonúngs, sem fyrr er ritat; tókst þar þá með tengðum konúnganna kærleikr, ok með þeim öllum ok Eiríki jarli.

*Eggjunarorð Sigríðar hinnar Stórráðu.*

244. Sigríðr drottníng var hinn mesti úvin Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok fann þat til saka, at Ólafr konúngr hefði slitit við hana einkamálum ok lostit hana í andlit, var hún jafnan þat hugsandi, ef hún mætti þeirrar svívirðíngar með nökkurum svikræðum hefna, þarfur var hún margan dag bæði hugsjúk ok hrygg; eggjaði hún mjök Svein konúng at halda orrosto við Óláf konúng Tryggvason, en hann gaf sèr lengi lítit um; en um vârit er spurðist til Danmerkr, at Ólafr konúngr hafði her úti ok ætlaði til Vindlands um sumarit, þá var þat einn dag, at Sveinn konúngr kom í herbergi til Sigríðar drottníngar, ok sá at hún var úglöð, ok spurði, hvat henni væri? hún svarar: þat er mèr at úgleði, sem mik mun jafnan ángra, er ek hefir gipzt þeim konúngi, er eigi berr traust til at hefna minnar meingjörðar á Ólafi Tryggvasyni, sem þess er vân at þú rekir eigi minnar úsæmdar, ef þèr ferr fjarri um, at þú hefnir sjálfs þíns svívirðíngar. Sveinn konúngr svarar: hvâr er sú hin mikla svívirðíng, er þú kall-

ar, at Ólafr hafi mèr gört? Drotníng svarar: þat er þèr mikil úsæmð, er hann hefir tekit Þyri, systur þína, frillutaki ok lagizt með henni, ok virði þik eigi svâ mikils, at þú skyldir ráða fur kosti hennar. Sveinn konúngr svarar: hver svívirðíng var mèr þat, at Ólafr konúngr fengi systur minnar, þvíat hann er svâ ágætr konúngr, at ek mundi hana eigi betr gipta, þó at ek hefða ráðit? Sigríðr mælti: samþykkja mun ek þat, at Ólafr Tryggvason sè fyrir flestum konúngum á Norðrlöndum um marga luti, ok svâ þat, at systir þín sè full vel gefin í alla staði, at hún eigi hann; en allmikil smán er þat þvílíkum konúngi, sem þú þikkist vera, er hann gerðist nauðmágr þinn, ok sýndi svâ, at honum þótti engis um þik verdt, at hann gekk at eiga systur þína utan þitt leyfi ok vitorð [1]); en hitt er þó miklu meiri vansæmd, er hann hefir sezt í þín skattlönd, þau er at rèttu ero þín föðurleifð, svâ at hann spurði þik ekki at, ok heldr Noregsríki utan skatta ok skyld; nú mundo ekki hinir furri frændr yðrir þola slíkt alt jafn saman, en þú lætr sem þú vitir þèr enga úvirðíng gerva. Konúngr svarar: þat ætla ek, at ek verða at þola slíkar meingerðir, þvíat svâ er Ólafr konúngr reyndr í orrostum ok at frækleik ok hans kappar, at hann hefir enn aldri úsigr farit, þó at hann hafi við ofrefli átt at skipta, því hefir ek

[1]) jáyrði, B.

hvârki til afla nè áræði at sækja hann heim í sjálfs hans ríki við vinsældir þær, er hann hefir af höfðíngjum ok allri alþýðu innanlands í Noregi. Drotníng svarar: samþykki ek þat, at Ólafr Tryggvason sè formaðr flestra konúnga á Norðrlöndum um marga luti, en þú munt þikkja lítilsháttar konúngr ok mjök ættleri, ef þú þorir eigi at halda sæmð þinni fur öðrum höfðíngjum, þvíat með engu móti mundir þú þola slíkan újafnat, ef þú vildir vera líkr þínum frændum ok forellrum; nú mun ek gefa ráð til at þú skalt eigi þurfa at sækja Ólaf konúng í Noreg, þik skal ok eigi skorta styrk ímóti honum, ef eigi bilar áræðit. En er Sigríðr hafði optliga slíkar ræður í munni, þá kom hún svâ sínum fortölum um síðir, at Sveinn konúngr var fullkominn óvin Ólafs konúngs; spurði Sveinn konúngr þá Sigríði drottníngu ráðs um, hversu hann skyldi ná Ólafi Tryggvasyni, svâ at hann færi eigi með her í Noreg. Sigríðr svarar: þat mun verða auðvelt, ek hefir spurt, at Ólafr konúngr býr skipaher ekki mikinn or Noregi, ok ætlar hann at fara suðr til Vindlands í sumar, en við skulum senda orð Ólafi Svía konúngi, syni mínum, ok Eiríki jarli Hákonarsyni, mági þínum, at þeir veiti þèr lið, nú ef þú færr þeirra styrk, sem mik varir at þeir muni fljótir til vera, þá þikkir mèr þú ekki at manna, ef þú lætr Ólaf Tryggvason sigla ígegnum ríki þitt

bæði suðr ok sunnan, svâ at þú leggir eigi at honum ok drepir hann, eðr rekir hann af ríki fur slíkar stórsakar, sem þú átt honum at hefna. En ef þèr þikkizt eigi öruggir ímóti honum höfðíngjar með allan Dana her ok Svía ok lið Eiríks jarls, þá skaltu senda menn suðr til Vindlands eptir Sigvalda jarli, er þú hefir áðr gert útlaga fyrir sannar sakir, skal hann þat þá vinna til sætta við þik, ok at ná eignum sínum ok landsvist hèr í Danmerk, at fara til fundar við Ólaf Tryggvason ok sæta vælræðum við hann, annathvârt at flæma frá honum herinn eðr koma honum úvörum á yðvart vald, mun þá verða lítit fur at taka hann af lífi, ef hann hefir lítit lið til móts við her yðvarn; talaðu þau Sveinn konúngr hèr um, ok gerðu alt þetta ráð stadt.

*Ólafr konúngr býst af Vindlandi til Noregs.*

245. Litlu síðarr sendi Sveinn konúngr menn austr til Svíþjóðar á fund Ólafs konúngs mágs síns, ok Eiríks jarls, ok lèt segja þeim, at Ólafr Noregs konúngr hafði her úti, ok ætlaði um sumarit suðr til Vindlands; fylgði þat orðsendíng, at Ólafr Svía konúngr ok jarlinn skyldo her úti hafa um sumarit, ok fara til móts við Svein konúng, skyldo þeir þá allir samt halda orrosto við Ólaf Noregs konúng. En Svía konúngr ok Eiríkr jarl voro þeirrar ferðar albúnir, ok drógu saman skipaher mikinn af Svíþjóð, fóro þeir liði því suðr til Danmerkr, ok komu

þar svâ at Ólafr Tryggvason hafði áðr austr siglt. Þess getr Haldór hinn úkristni, er hann orti um Eirík jarl, at hann hafði her úti af Svíþjóðu [ok honum varð gott til liðs:

Út bauð jöfra hneitir
elmóðr [1]) af Svíþjóðu [2])
(sunnr hèlt granır til gunnar)
gunnbliks liði miklu;
hvârr vildi þá halda [3])
hræ geitúnga feitirr [4])
(már fèkk á sjá sára
sylg) Eiríki fylgja.

Hèldo þeir Ólafr Svía konúngr ok Eiríkr jarl til fundar við Svein Dána konúng, höfðo þá allir samt úgrynni hers. Sveinn konúngr hafði sent eptir Sigvalda jarli, syni Strútharalds jarls af Skáni [5]), ok samit sætt við hann, eptir því sem Sigríðr drotníng hafði ráð til gefit; sendi Sveinn konúngr Sigvalda til Vindlands um sumarit, at njósna um ferðir Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok gildra svâ til, at fundr þeirra Ólafs konúngs mætti verða ok Sveins konúngs. Fór þá Sigvaldi leið sína, ok kom fram í Vindlandi, fór hann til Jómsborgar ok síðan á fund Ólafs Tryggvasonar; voro þar fögur orð ok vináttumál af jarli við Ólaf konúng, kom Sigvaldi sèr

---

[1]) álmrjóðr, *C.* [2]) *frá merkinu vantar í B.* [3]) hverr vildi þá havlda, *B*, *C.* herja vildi þá halda, *F.* [4]) reitir, *B.* [5]) Skáney, *B.*

í hinn niesta kærleik við konúng. Sigvaldi jarl var maðr vitr ok ráðugr; en er hann kom sèr í ráðagerð með konúngi, þá dvaldi hann mjök ferð konúngs austan at sigla, ok fann til þess ýmissa luti, en lið Ólafs konúngs lèt geysi illa ok voro menn hans mjök heimfúsir, er þeir lágu þar lengi albúnir, en veðr byrvænt. Sigvaldi jarl fèkk njósn leyniliga af Danmerku, at þá var austan kominn her Ólafs Svía konúngs ok Eiríks jarls, svâ þat at Dana konúngr hafði þá ok búit sinn her, ok þeir höfðíngjarnir mundi þá sigla austan undir Vindland með allan herinn, þar er þeir höfðo ákveðit at þeir mundi bíða Ólafs konúngs Tryggvasonar við ey þá, er Svöldr [1]) hèt; sendu þeir ok þau orð Sigvalda jarli, at hann skyldi svâ til stilla, at þeir mætti þar finna Ólaf Noregs konúng. Þá kom pati [2]) nökkur til Vindlands, at Sveinn Dana konúngr hefði her úti, ok gerðist brátt sá kurr, at Sveinn konúngr mundi vilja halda úfrið við Ólaf Noregs konúng; en er Sigvaldi jarl varð þess áheyrsi [3]), sagði hann svâ til Ólafs konúngs: þessi kvittr, er yðr er nú sagðr, er hin mesta lygi, þvíat ekki er þat ráð Sveins konúngs at leggja til bardaga við yðr með einnsaman Danaher, svâ mikit lið ok frídt sem þèr hafit, en ef yðr er nökkurr grunr á því, at úfriðr muni vera gjörr fur yðr, þá skal ek fylgja yðr með mínu liði,

[1]) Svavldr, *B.* [2]) frètt, *F.* [3]) viss, *B.* varr, *C.*

ok þótti þat enn nökkurr styrkr furr, hvar sem Jómsvíkíngar fylgðu höfðíngjum; mun ek fá þèr 10 skip vel skiput. Konúngr játti því. En er liðsmenn heyrðu þenna úfriðar kvitt, tóko þeir at kurra því meirr, at þeim var leidt þar at liggja búnir svâ lengi at ónýtu. En er konúngr varð þess varr, var þat einn morgin at Ólafr konúngr átti húsþíng við lið sitt, hann stóð upp ok mælti: öllum mínum mönnum vil ek þakka fylgð ok föroneyti, er þèr hafit mèr veitt í sumar, vil ek yðr vörkynna [1]) at þèr þikkizt nú alls til lengi heiman hafa verit frá eignum yðrum, því vil ek nú orlof gefa, at hverr yðarr snúist til heimferðar sem fyrst verðr búinn með sitt skip, en þeim skal ek kunna enn meiri þökk ok ömbuna góðu, er eigi hrapa meirr sinni ferð en fylgja mèr til Noregs. En er fólkit heyrði þetta, vurðu allir glaðir við, ok þökkuðu konúngi sín orð. Þá stóð upp einn ríkr maðr aldraðr í liði konúngs, ok mælti svâ: þann konúng höfum vèr yfir oss, at umfram ok úlíkr er avðrum konúngum at alli ok atgörvi, ok þó enn meirr at mildi ok allshátar góðvilja náttúru; nú þó at hans vârkyndar góðvili gefi oss leyfi, at hverr fari eptir sínum vilja, þá heyrir oss at neyta svâ þess sjálfræðis, at veita honum trúlynda fylgð, ok skiljast eigi við hann, meðan hann er utan sitt ríki, allrahelzt er nú flýgr sá kvittr í eyru oss, at honum muni veittar svikligar fursátir af sínum úvinum;

[1]) vâtkunna, *B*, *C*.

er þat vâr hin hæsta sæmð, at veita honum því fræknari fylgð, ef hann kann þess viðþurfa, sem vèr eigum höfðíngjann ágætara enn nökkurir liðsmenn annarra; mun oss þá þat í hug [1]), ef svâ kann tilbera, sem eigi skyldi, at vèr missim hans svâ at vèr sèm eigi nærr, þat mun oss afla æfinligs trega ok úbætiligs skaða, ef svâ illa verðr. En fátt eitt fólk rómaði ræðu hans; gekk þá allr herrinn [2]), lèt Ólafr konúngr þá leysa flotann ok blása til brottlögu, drógu menn þá upp segl sín. Ólafr konúngr hafði þar 60 skipa, sem áðr er ritat, en Sigvaldi jarl 11 skip, er þeir leystu or höfninni. Þess getr Haldór enn ókristni, at þeir höfðo báðir samt einu skipi meirr enn 70, er þeir sigldu af Vindlandi; hann segir svâ:

Ona fór [ok einu [3])
unnviggs konúngr sunnan
sverð rauð mætr at morði
meiðr sjav tigum skeiða [4]);
þá er húnlagar hreina
hafði jarl of krafða
(sætt gekk seggja ættar
sundr) Skánúnga fúndar.

(*Ástríðr segir Ólafi konúngi svik honum búin*).

246. Svâ er sagt at Ástríðr, kona Sigvalda

---

[1]) koma, *bæta við B*, C. [2]) til skipa, *bætir við B.* gekk þá konúngr brott ok allr herinn til skipa, C. [3]) at einu, *B.* [4]) *frá merkinu í fyrstu linu vantar í C.*

jarls, dóttir Búrizlafs konúngs, kom til Ólafs konúngs á næstu nótt, aðr hann sigldi brott af Vindlandi, sem enn mun getit verða síðarr í sögunni. Ástríðr sagði konúngi með skírum sannindum, at Dana konúngr ok Svía konúngr ok Eiríkr jarl sátu fur honum með úflýjanda her, bað hún konúng með miklum góðvilja, at hann skyldi eigi fara í umsátir sinna úvina. En konúngr svaraði: ekki mun ek bregða ferðum mínum fur kvittu slíka, er ek veit eigi hvat satt er í, því at Sigvaldi vinr minn mundi mik varan við gera, ef hann vissi mèr svikræði ráðin; en þó at ek vissi at þat væri satt, er þú segir, þá mundi ek eigi flýja fund úvina minna, því at guð á vald at gefa þeim ríki, er hann vill. Þá mælti Ástríðr: þá vil ek þess biðja, at þú þiggir at mèr slíka liðsemd, sem ek má þèr veita til hrautkvâmu, ef þú kannt þess við þurfa. Þat mun ek þiggja, segir konúngr, ef nauðsýn beiðir; ok at svâ mæltu skildu þau [1]).

*(Ólafr konúngr siglir frá Vindlandi).*

247. Þann dag er Ólafr konúngr leysti flota sinn af höfninni, var veðr lítit [2]) ok hagstædt þegar undan landi kom, gengu meira smá skipin öll, ok sigldu þau undir veðr á hafit út, en Sigvaldi jarl sigldi nærr konúngsskipinu ok kallaði til þeirra, bað konúng sigla eptir sèr: mèr er kunnigazt, segir hann, hvar hèr er djúpazt um eyja sundin, en þèr munut þess þurfa við

[1]) ok sáust ekki síðan, *b. v. B.* [2]) einkar blítt, *B.*

þau hin stóru skipin. Sigldi jarl þá fur með sín skip, en Ólafr konúngr sigldi þar eptir með stórskipunum. En er Sigvaldi jarl sigldi inn at eyjunni Svavldr, þá rèru þar menn á móti honum á einni skútu; þeir sögðu jarli, at herr Danakonúngs ok Svíakonúngs lá þar i höfninni fur þeim, þá lèt jarl hlaða seglunum á sínum skipum, ok heimtu þeir með árum skipin inn undir eyna heldr tómliga; hafði jarl 10 skip, sem hann hafði heitit Ólafi konúngi til liðveizlu, ef hann þurfti; en þat var hit ellifta Vinda skipit, er sagt er at á væri menn Ástríðar konúngsdóttur, fór sú snekkjan í svig við jarls skip ok þó eigi allnærr. Ólafr konúngr sigldi sunnan eptir stórskipunum, hafði hann þar þá 11 skip, en allr annarr herrinn hafði siglt undan út á hafit. Svâ segir Hallarsteinn:

Ayrrjóðr [1]) átta skeiðum
efsta sinn ok þrinnum
byrr varð beita þorði
brynn at Svöldrar mynni;
Ormr skreið, árar knúði [2])
ölna váng hinn lángi,
hirð prúð [3]) hilmir stýrði;
hann er ríkztr konúngmanna.

*Danir ok Svíar undrast skipavöxt Norðmanna.*

248. Sveinn Dana konúngr, Ólafr Svía konúngr ok Eiríkr jarl lágu þar undir eyjunni með allan her sinn, sem áðr er sagt, þá var

[1]) Andrjóðr, *C.* [2]) gnúði, *B.* [3]) *kannske* prúðr.

veðr fagrt ok sólskin bjart. Gengu þeir þá upp á hólminn allir höfðíngjarnir ok miklar sveitir hersins með þeim, en er þeir sá at skipin Norðmanna sigldo mjök mörg saman út á hafit, við þat vurðu þeir harðla glaðir, þvíat herrinn þeirra lèt illa, er þeir höfðu þar legit at únýtu svâ lengi, at sumum þótti örvænt, at Noregs konúngr mundi koma til móts við þá; ok nú sá þeir, hvar sigldi mikit skip ok glæsiligt, þá mæltu báðir konúngarnir: þetta er mikit skip ok einkar fagrt, þat mun vera Ormrinn lángi. Eiríkr jarl svarar: ekki mun þetta Ormrinn lángi, meiri ok rausnarsamligri mun Ormrinn reynast, en þó er þetta mikit skip ok frídt; ok svâ var sem jarl sagði, þat skip átti Styrkárr af Gimsum. Litlu síðarr sá þeir, hvar sigldi annat skip miklu meira ok á höfut; þá mælti Sveinn konúngr: nú mun hèr fara Ormrinn lángi, förum nú til skipa vârra, ok verðum eigi ofseinir ímót þeim. Eiríkr jarl svarar: eigi mun þetta vera Ormrinn lángi, þó er þetta vel búit; var ok svâ sem hann sagði, þat skip átti Þorkell nefja, bróðir Ólafs konúngs, en eigi var hann sjálfr þar á. Ok nú sá þeir sigla mikit skip ok frídt, þá mælti Sveinn konúngr: þar má nú sjá konúngs skipit. Jarl svarar: víst er þetta mikit skip ok glæsiligt, en þó mun Ormrinn lángi miklu ágætligri. Ok þegar eptir sigldi hit 4ða skip mikit; þessi 2 skip áttu þeir Víkverjarnir, mágar konúngs, Þorgeirr ok Hyrníngr, en eigi stýrðu þeir skipunum, þvíat

þeir voro báðir á Orminum lánga með Ólafi konúngi. Lítilli stundo síðarr sigldi hit 5ta skip miklu meira enn hin er áðr höfðo siglt, þá mælti Sveinn konúngr hlæjandi: hræddr er ÓlafrTryggvason nú, er hann þorir eigi at sigla við höfut á dreka sínum. Eiríkr jarl svarar: ekki er þetta konúngs skip, þetta skip kenni ek gjörla ok svâ seglit, þvíat hèr er stafat segl, þat á Erlíngr Skjálgsson af Jaðri, látum þá sigla, þvíat ek segir yðr satt af, at þar ero þeir drengir innanborðs, ef vèr leggjum til bardaga við Ólaf Tryggvason, at oss er betra þar skarð ok missa í flota hans, enn þetta skip svâ skipat sem er, þvíat ek hygg, at Erlíngr sjálfr stýri skeiðinni. Þá mælti Ólafr Svía konúngr: eigi skyldim vèr nú of mjök æðrast at leggja til bardaga við Ólaf Tryggvason, þó at hann hafi skip mikit, þvíat þat er úbætilig svívirðíng, ef vèr liggjum hèrvið úvígjan her, en hann sigli þjóðleið fur utan. Eiríkr jarl svarar: herra! látum þetta skip undan sigla sem hin furri, þvíat ek mun segja þèr svâ góð tíðindi ok savnn, at Ólafr konúngr hefir enn eigi um oss siglt, ok sannliga munut þèr þenna dag kost eiga at berjast við hann, ok þat vænna, þó at hverr vârr þriggja, er höfðíngjar skulum heita fyrir her þessum, hafim lið mikit híngat dregit, at vèr fáem þá hríð áðr þessi dagr er allr, at vèr þikkimst hafa ærit at vinna, þó at þessi skip sè eigi við bardagann, sem nú hafa um siglt; ok nær-

gætr varð Eiríkr, því at þar var Erlíngr á skeið sinni, ok sigldi þá frá Ólafi konúngi mági sínum, svâ at hann sá hann aldri síðan, ok margir aðrir vaskir drengir ok vinir konúngs. Ok er eigi leið lángt frá því er þessi 5 stórskip höfðo um siglt, ok áðr allr smáskipa flotinn, þá sá þeir ok kendu skip Sigvalda jarls, ok viku þau þángat at hólminum; síðan sá þeir hvar sigldu 3 [1]) skip, ok var eitt af þeim mikit höfðaskip, þá mælti Sveinn konúngr; gángi menn nú til skipanna, þvíat hèr ferr nú Ormrinn lángi. Eiríkr jarl mælti: mörg hafa þeir önnur stór skip ok glæsilig enn Orminn lánga, en fá hafa enn um siglt, ok bíðum enn; þá mæltu margir menn: nú má sjá, segja þeir, at Eiríkr vill eigi berjast við Ólaf Tryggvason, ok eigi þorir hann nú at hefna föður síns, ok er þetta svâ mikil skömm at spurjast mun um öll lönd, ef vèr liggjum hèr með jafnmiklu liði, en Noregs konúngr sigli við hönd fulla manna [við her vârn at jafna [2]) á haf út hèr hjá oss sjálfum. Eiríkr jarl varð mjök reiðr við orð þeirra, bað nú alla menn gánga til skipa, en þess væntir ek, segir hann, þó at þèr Danir ok Svíar frýit mèr nú mjök hugar, at yðr hvârumtveggjum sè eigi úleiðara, áðr enn sól gengr í ægi í kveld, enn mèr ok mínum mönnum [3]). En er þeir gengu ofan, sá þeir, hvar sigldu 4 skip mikil, ok eitt af þeim

[1]) 4, *F.* [2]) um her vârn, *B.* [3]) ok eigi berit þèr sigr af Ólafi Tryggvasyni, ef þèr sjáizt einir á, *bætir inní B.*

var dreki mikill [4]) gullbúinn; þá mælto margir menn, at jarl hefði satt sagt, ok hèr ferr nú Ormrinn lángi, segja þeir, ok er hann furðu mikit skip ok frídt, svâ at ekki lángskip mun slíkt gert hafa verit at fegrð ok vexti á Norðrlöndum, ok er eigi kynligt, at sá konúngr sè ágætr víða, er rausn hefir til at láta gera slíka gripi. Þá stóð upp Sveinn konúngr ok mælti: hátt mun Ormrinn bera mik í kveld, honum skal ek stýra; þá mælti Eiríkr jarl: þó at Ólafr konúngr Tryggvason hefði ekki meira skip enn þetta, er vèr sjám nú, þa mundi Sveinn konúngr þat aldri fá unnit af honum með 'einnsaman Dana her. En þessi hin stóro höfðaskip, er þeir ætlaðu Orminn lánga, var hit fyrra Tranan, en hit síðarra Ormrinn skammi. Dreif nú alt fólk til skipanna ok ráku af sèr tjöldin, skipaðu höfðíngjar þá herinum til atlögu, ok er svâ sagt, at þeir hlutaðu um, hverr þeirra furst skyldi leggja at sjálfu konúngsskipinu Orminum lánga, ok laut Sveinn Danakonúngr furst at atleggja, en þá Ólafr Svía konúngr, en síðarst Eiríkr jarl, ef þeir þyrfti við, ok skyldi hverr þeirra eignast þau skip, er sjálfir vynni ok hryði af Ólafi konúngi með sínu liði. En er höfðíngjarnir áttu þetta at tala sín ímilli, sem nú var frá sagt, þá sá þeir, hvar sigldu 3 skip allstór ok hit 4da síðarst; sá þá allir mikit drekahöfuð á framstafni þess skips, ok búit svâ sem á gull eitt sæi, ok ljómaði víða af

[4]) mjök, *B.*

á sjáinn, er sólin skein á, en er menn sá þar á, undraðust þeir mjök lengð skipsins, þvíat stund var ímilli er þeir sá framstafninn ok hinn eptri kom fram, kendu þá allir ok mælti þa engi ímóti, at þat var Ormrinn lángi. En við þessa sýn varð margr maðr hljóðr ok skaut almúginum þegar skelk í bríngu ok ótta; var þat eigi undarligt, þvíat þetta hit mikla skip flutti þar dauða furðu mörgum manni. Þá mælti Eiríkr jarl: makligt ok sæmiligt er þetta hit ágæta skip slíkum konúngi sem Ólafr er Tryggvason, þvíat þat er til hans sann talat, at hann berr svâ af öðrum konúngum, sem Ormrinn lángi af öðrum skipum.

*Svöldrar orrosta.*

249. Þá er þeir Sigvaldi jarl höfðu hlaðit seglum á skipum sínum ok rèru inn undir hólminn, þá sá þeir þat Þorkell dyðrill af Trananum ok aðrir skipstjórnarmenn, þeir er með honum fóro, at jarl snèri sínum skipum inn undir hólminn, þá hlóðu þeir seglunum ok rèru inn eptir honum, ok kallaði Þorkell á Sigvalda jarl, spurði hví hann sigldi eigi? Jarl sagði, at hann vildi bíða Ólafs konúngs, ok er meiri vân, segir hann, at úfriðr sè fur oss; lètu þeir þá fljóta skipin, þar til er Þorkell nefja kom með Orminn skamma ok þau 4 skip, er honum fylgðu, voro þeim sögð hin sömu tíðindi, hlóðu þeir þá ok seglunum sínum ok lètu fljóta ok biðu svâ Ólafs konúngs, en floti konúnganna lá inni á höfninni, ok máttu þeir ekki til sjá, hversu mikinn her þeir höfðu.

En er Ólafr konúngr sigldi innan [1] at hólminum, ok hann sá, at hans menn höfðo lægt seglin, ok biðu hans, þá stýrði hann á veðr þeim, ok spurði, hví þeir sigldu eigi; en þeir sögðu konúngi, at úfriðar herr var fyrir þeim ok báðu hann flýja. Konúngr stóð upp í lyptíngunni við þessa tíðindasögn, ok mælti til sinna manna: látit síga seglit sem skjótazt, en sumir leggi árar á borð ok taki skriðinn af skipinu; ek vil gjarna berjast heldr enn flýja, ek hefir enn aldri flýit í orosto, ráði guð lífi mínu, en aldri skal ek á flótta leggja, þvíat sá er ekki rèttr konúngr, er flýr óvini sína fur hræðslu sakir. Þess getr Hallfreðr [2]:

Flugþverrir nam furri
frægr aldregi vægja,
heldr lèt hauka [3]) skyldir [4])
hugrekki sèr þekka.

Var nú svâ gert sem konúngr mælti, ok rendi Ormrinn framhjá [5]) skipunum, ok heimtu liðsmenn önnur skipin fram með árum; rèri þá ok fram undan eyjunni allr herr konúnganna, vurðu höfðíngjarnir mjök glaðir við þat, er þeir sá Ólaf konúng kominn í sínar umsátir. En er Ólafr konúngr Tryggvason ok allir hans menn sá, at sjárinn var víða þaktr í nánd þeim af herskipum sinna mótstöðumanna, þá mælti til

[1]) sunnan, *B.* [2]) Hallarsteinn, *B.* [3]) havlda, *B.* [4]) bætir, *F.* *kanyske:* beitir. [5]) frá, *B.*

konúngs einn vitr maðr ok hraustr, Þorkell dyðrill, móðurbróðir hans: herra! segir hann, hèr er mikit ofrefli liðs við at berjast, dravgum segl vor ok siglum út á hafit eptir liði voro, þat má enn vel takast meðan úvinir vârir búa sik til orosto, er þat engum manni til bleyði virdt, þó at hann sjáe hóf fur sèr eðr liði sínu. Ólafr konúngr svarar hátt ok mælti: tengi saman skipin, ok búi menn sik til bardaga ok bregði sverðunum, ekki skulu mínir menn hyggja á flótta. Þess getr Hallfreðr vandræðaskáld:

Geta [1]) skal máls þess er mæla
menn at vâpna sennu
dólga fángs við drengi
dáðöflgan gram kváðu;
baða her trygðar [2]) hyggja
hnekkir sína rekka
(þess lifa þjóðar sessa
þróttar orð) á flótta.

Ólafr konúngr lèt blása til samlögu þeim 11 skipum, sem hann hafði þar, var konúngsskipit í miðju liði, en þar á annat borð Ormrinn skammi, en á annat borð Tranan, ok önnur 4 skip [3]) þar út í frá til hvârrar handar; var þetta lið, þó at hann hefði skip stór, lítill riðull manna hjá þeim úvígja her, er hans úvinir höfðu; misti hann þar nú hers síns sem vita mátti. Er þat margra skynsamra manna mál,

---

[1]) gæta, *B.* [2]) hratt ygðar, *B.* [3]) lítil, *bætir við B.*

at Ólafr konúngr mundi skjótt sigr hafa unnit á sínum mótstöðumönnum, ef þá hefði þar verit þau 5 [1]) stórskip, er áðr var getit, ok allr sá skipafloti, er [frá honum hafði siglt [2]), svâ margr hraustr drengr sem á þeim var, svâ erfvidt sem nú veitti þrimr höfðíngjum með úflýjanda her, at sigra hann við svâ fá skip, sem hann hafði. Þess getr Halfreðr, at Ólafr konúngr misti þess liðs, er frá honum hafði siglt, ok honum aflaði þessi bardagi mikillar frægðar; hèr segir svâ:

Þar hykk [víst til mjök misti [3])
(mörg kom drótt á flótta)
gram, þann er gunni framdi,
gengis þrænzkra [4]) drengja;
næfr vâ einn við jöfra
allvaldr tvâ snjalla
(frægr er til slíks at segja
siðr) ok jarlinn þriðja.

Menn Ólafs konúngs lögðu nú saman skipin sem hann bauð, en er konúngr sá, at þeir tóko at tengja stafnana á Orminum lánga ok á Orminum skamma, þá kallaði hann hátt: leggit fram betr hit mikla skipit, eigi vil ek vera aptaztr allra minna manna í her þessum, ef orostan tekst. Þá mælti Úlfr hinn rauði, merkismaðr konúngs ok stafnbúi hans: ef Orminn skal því lengra framleggja sem hann er meiri ok lengri enn

1) sex, *B.* 2) með þeim hafði siglt af Noregi, *B.*
3) til vist mjök mistu, *B.* 4) kænskra, *B.*

önnur skip, þá mun ávinnt um söxin. Konúngr svaraði: því lèt ek Orminn lengra gera enn önnur skip, at hann skyldi því djarfligarr framleggja í orostom, ok vera auðkendr bæði í bardögum ok siglíng, en ek vissa þá eigi, at ek mundi eiga stafnbúann bæði rauðan ok ragan. Úlfr svarar: snú þú, konúngr! eigi meirr baki við at verja lyptíngina, enn ek mun stafninn! Konúngr hèlt á boga, ok lagði ör á streng, ok snèri at Úlfi; þá mælti Úlfr: skjót þú eigi mik, herra! heldr þángat sem meiri er þörf, þat er á úvini yðra, þvíat þèr vinn ek þat, er ek vinn; má vera at yðr þikki yðrir [menn] eigi of margir hèr áðr kveld kemr. Konúngr tók örina ok skaut eigi, ok í því, er þeir áttu þetta við at talast, sá menn konúngs, at sú Vindasnekkjan, er mest hafði sunnan siglt ein sèr um daginn, rendi svâ hart at Orminum aptr við lyptíngina at varla mátti auga á festa; þá stóð upp maðr í stafni ok talaði við konúng á úkunna túngu, ok svâ andsvaraði konúngr á þá túngu, at Norðmenn skildu eigi; þeir talaðust við litla hríð; síðan rèru þeir á enu litla skipinu at landi ok lögðust þar um akkeri; en konúngsmenn spurðu hann, hverir þeir væri hinir úkunnu menn, er talat höfðo við hann? Konúngr svarar: þat voro kunníngjar vârir af Vindlandi.

*Um fylkínga skipanir Dana ok Svía.*

250. Ólafr konúngr stóð i lyptíngu á Orminum, bar hann hátt mjök; hann hafði

gyldan skjöld ok gullroðinn hjálm, var hann mjök auðkendr frá öðrum mönnum, hann hafði rauðan silkikyrtil stuttan utan yfir brynju; en er Ólafr konúngr sá, at flokkar hans mótstöðumanna tóko at riðlast, ok upp voro sett merki fyrir höfðíngjum, þá spurði hann sína menn: hverr er höfðíngi fyrir því merki, er gegnt oss er? Honum var sagt, at þar var Sveinn konúngr með Dana her. Konúngr mælti: ekki hræðumst vèr bleyður þær, þvíat eigi er heldr hugr í Dönum enn í skógargeitum, aldri báru Danir sigr af Norðmönnum, ok eigi munu þeir enn oss sigra í dag; en hverr höfðíngi fylgir þeim merkjum, er þar ero út í frá á hægra veg? Honum var sagt, at þar var Ólafr konúngr sænski með Svía her. Konúngr mælti: auðveldra ok blíðara mun Svíum þikkja at sitja heima ok sleikja blótbolla sína, enn gánga á Orminn [lánga] í dag undir vâpn yður, ok væntir mik at vèr þurfim ekki at óttast Svía hrossæturnar; en hverir eiga þau hin stóro skip, er þar liggja á útborða Dönum? þar er, segja þeir, Eiríkr jarl Hákonarson. Þá mælti Ólafr konúngr: mjök hafa þeir skipat her þenna tignum mönnum ímóti oss, mun Eiríkr jarl þikkjast eiga við oss skapligan fund, er oss vân af honum ok hans liði snarprar orosto, þvíat þeir ero Norðmenn sem vèr erum [1]). Þessu næst greiddu konúngarnir

[1]) Þyri drottníng sá tilbúnað bardagans, ok tók hún mjök at hryggjast; þá mælti Ólafs konúngr til hennar: ekki

ok jarl atróðrinn. Nú segir svâ Snorri Sturluson ok flestir menn aðrir, at Sveinn Dana konúngr lagði furst með sitt lið at Orminum lánga ok hinum stærstum skipum Ólafs konúngs. En Hallarsteinn segir í Ólafs drápu hinni tvískældu [1]), at Ólafr sænski hafi furr lagt til móts við Ólaf Tryggvason, en Sveinn Dana konúngr síðarr. Svâ segir Snorri, at Sveinn konúngr lagði sín skip at Orminum lánga, en Ólafr sænski lagði út frá, ok stakk stöfnum at yzta skipi Ólafs Tryggvasonar, en öðrummegin lagði at Eiríkr jarl; jarlinn hafði barða einn geysi mikinn, er hann var vanr at hafa í víkíng, þar var skegg á ofanverðu barðinu hvârutveggja, en niðr frá skegginu járnspaung þykk ok svâ breið sem barðit, ok tók alt í sjá ofan, því var þat skip kallat Járnbarðinn, var hann allra skipa rammgervaztr; var þá blásinn herblástr ok æptu hvârirtveggju heróp, tókst þá hörð orosta. Sigvaldi jarl lèt skotta við skip sín, ok lagði ekki at sinni til orosto, er hans lítt getit við bardaga þenna, en þó segir svâ Skúli Þorsteinsson, hann var með Eiríki jarli:

---

þarftu nú at gráta, segir hann, þvíat nú hefir þú feingit eignir þinar, þær er þú áttir á Vindlandi; en ek skal í dag heimta fê þitt af Sveini konúngi bróður þínum, sem þú hefir mik optliga beðit. Lèt hann þá drottníngu niðr undir þiljor, ok lèt búa þar um hana. Síðan bað konúngr Sigurð biskup geyma hennar, *bætir inni B.* [1]) tvískeldu, *skrifar A.*

Fylgða ek Frísa dólgi
fékk ek úngr, þar er spjörr [1]) súngu,
(nú finnr öld at ek eldumst)
aldr bót ok Sigvalda [2]);
þar er [3]) til móts við mætan
málm þíngs í dyn hjálma
sunnr fur [4]) Svöldrar mynni
sár lauk roðinn bárum.

Þessi orosta varð hin snarpazta, var í furstu skotit örum bæði af lásbogum ok handbogum, en síðan spjótum ok gaflökum [5]), ok er þat mál manna, at Ólafr konúngr barðist allra djarfligazt. Svâ segir Hallfreðr vandræðaskáld í Ólafsdrápu:

Heppt var lítt (á lopti
liðu örvar fram gjörva)
brodda flaug, áðr bauga
brjótendr skyti spjótum;
orð var hitt at harðazt
hvar kunnr fur [6]) lavg sunnan
mest í málma gnaustan
minn drottinn fram sótti [7]).

Þess getr Hallarsteinn, at Sveinn konúngr lagði at Ólafi konúngi Tryggvasyni með 60 skipa, þá er Ólafr svænski hafði áðr barizt við nafna sinn ok flýit undan með lið sitt, ok segir svâ:

---

[1]) spavrr, *B.* [2]) Sigvalldi, *B.* [3]) *vantar í B.* [4]) svinnr frá, *B.* [5]) gaflavkum, *B*, gaflokum, *C.* [6]) hvar kunnt fyrir, *B.* hvar kunnt við, *C.* [7]) "Her var or blað" *þannig skrifari A's á spáziunni; er það sem vantar tekið úr B. alt að merkinu.*

Avrbrágðs ærit [1]) lögðu
annat sinn at linna
(grimt varð Gavndlar borða
gnaust) sextigum flausta;
danskr herr dýran harra
(drótt hnè mörg) þar er sótti,
hirð fèll, hrafnar gullu;
hann er ríkztr konúng [2]) manna.

Menn Sveins konúngs stúngu stavfnum sem þykkazt mátti á bæði borð á [3]) Orminum lánga, er hann tók fram miklo lengra enn önnur skip Ólafs konúngs, svâ lögðu [Danir ok [4]) fast at Orminum skamma ok Trönunni, var þá orosta en snarpazta ok allmannskæð, gánga frambyggjar allir á Orminum í havggorostu, allir þeir er því komu við, en sjálfr Ólafr konúngr ok aptrbyggjar skutu af bogum ok handsavxum, ok drápu Dani æ sem tíðazt, en særðu suma. Svâ segir Hallarsteinn:

Straung varð [5]) (stálin súngu)
sterklig jöfurs merki;
gramr skaut, gjörðist [6]) rimmu
gángr á Orminn lánga;
nýtr herr Noregs gætiss
nærr [var á [7]) tranðr at særa
orðprúð [8]) jóta ferðir;
Ólafr und veg sólar.

[1]) errir, C. [2]) konúngs, C. [3]) at, C.
[4]) Svíarnir, C. [5]) stöng reið, C. [6]) gjörði, C.
[7]) varat, C. [8]) orðprúðs, C.

En þó at Sveinn konúngr legði með 60 skipa einna fastazt [1]) at Nordmönnum í þessi hríð, þá lá þó allr herrinn Dana ok Svía einart í skotmáli við þá, en Ólafr konúngr veitti ágæta vörn með sínu liði, en þó fèllu menn hans í þessi svipan. Svâ segir Hallfreðr:

Sótti herr þar er hætti
hundmargr drasilsunda
en hjálm spjótum [2]) hilmir
harðfengr Dönum varði;
fèllu þar [3]) með þolli
þeim skævaðar geyma,
mein [hlaut ek af þvíat [4]) mínir
meirr hollvinir fleiri.

Ólafr konúngr barðist alldjarfliga, [skaut hann leingstum af boga eðr handskotum [5]), en er aðaliga festist atsóknin at Orminum, þá gekk konúngr fram í höggorrostu ok klauf margs manns haus með sínu sverði. [Þess getr Hallfreðr:

Herskerðir klauf harðan
(hann gekk reiðr of skeiðar)
svafðar [6]) stofn með sverði
sunnr eldviðum kunnum;
kunni gramr at gunni
gunnþíngs á hjör þunnum,
margr lá hæggr of havgginn,
hold barkaðra sarka [7]).

---

[1]) at orminum ok, *bætir við C.* [2]) sprotum, *C.*
[3]) þeir, *C.* [4]) hlutu af því, *C.* [5]) *vantar í C.*
[6]) *kannske:* svaðar. [7]) *vantar í C, F.*

Dönum veitti þúngt atsóknin, þvíat frambyggjar á Orminum lánga ok stafnbúar á Orminum skamma ok á Travnunni, færðu akkeri ok stafnljá á skip Sveins konúngs, en áttu vâpnin at bera niðr undir fætr sèr, er þeir höfðu skipin miklo stærri ok borðhærri; hruðu þeir avll Dana skip, þau er þeir fengu haldit, en konúngrinn Sveinn ok lið hans, þat er undan komst, flýði á avnnur skipin, ok því næst lögðu þeir frá þreyttir ok sárir or skotmáli, ok fór þessi herr sem Ólafr konúngr Tryggvason gat til, at Danir sigruðust eigi á Norðmönnum; svâ segir Hallarsteinn:

Myrkt hregg mækiss eggja [1])
meinilla gekk Sveini,
sár frá ek drengjum dreyra,
Danir skunduðu undan.

Svâ segir Snorri Sturluson, [at Ólafr sænski] legði þá at í staðinn, er Sveinn konúngr lagði frá; tókst þá enn af nýjo hin harðazta orrosta ok hin snarpazta atsókn, urðu brestir stórir ok it mesta háreysti af eggjan manna ok vâpnabraki, er stálin mættust; varðist Ólafr konúngr með mikilli hreysti, ok hans menn fylgðu honum hið drengiligsta. Svâ segir Hallarsteinn [2]):

Varð um Vinda myrði
vígstyrs [3]) (en þat lýs ek)
rammr und randa [4]) himni
rymr, knáttu spjör glymja;

[1]) eggjar. *C.* [2]) Hallfreðr. *C, F.* [3]) viggskyrs, *C, F.* [4]) randar, *C.*

hirðar stóðst við harðan
[hinn vegg en [1]) fjöld seggja
víðiss vælte reyðar [2])
Varghollr þrimu marga.

Hallarsteinn segir, at Svíar lögðu fimtán skipum at Orminum lánga, veittu Svíar snarpa atsókn, er þeir komu ómóðir til, en Norðmenn vörðust af kappi, ok drápu fjölda manna en særðu suma; [svâ segir Steinn [3]):

Fimtán fjörniss mána
fleyendr, at gram rendu
ekkils úti [4]) blavkkum;
Ólafr und veg sólar.

Nú fór Svíum allt á eina leið ok Dönum at Norðmenn hèldu skipum þeirra með stafnljám ok akkerum, ok hruðu þau, er þeir náðu til, savgðu sverð þeirra ein lög avllum Svíum, þeim er þeir komu höggum við. [Svâ segir Hallfreðr:

Upp savgðu lög lögðiss [5])
líf skjótt fírum hlífa
gnóg til gumna feigðar
gálkn við randar bálku [6]).

Leiddist Svíum þar þá við at haldast, er Ólafr konúngr Tryggvason gekk harðazt at með kappa val sitt. [Þess getr Hallfreðr vandræðaskáld:

Lèt it hygg leifa brautar
lognárúngum [7]) vâru

[1]) hnit vegg með, *C.* [2]) meiðar, *C.* [3]) Markús lögmaðr, *hefir F. hèr aptr, en C. sleppir nafninn.* [4]) yti, *C.* [5]) lögðar, *F.* [6]) *frá merkinu vantar í C.* [7]) *þannig A. F.* logtraníngum, *B.*

geirs við gumna stjóra
geigr þíng at eiga;
þá er fákhlaðendr fræknir
fárlegs, at vin jarla,
húfs, með hamri þæfðar
hríngs skyrtur fram geingu [1]).

Þat segja menn, at þá hafi verit en snarpazta atsókn ok mannskæð, er þeir nafnar höfðu viðázt, áðr Ólafr svænski lèti frá. [Þess getr Steinn [2]):

Grá [3]) reif gjörðu [4]) drífu,
gall brandr við slavg randa,
travllan [5]) [trúr var [6]) sollinn
tveir nafnar þar [7]) jafnan;
svænskr herr var [8]) sigri þorrinn,
sverð beit, en blá [9]) feita [10]),
hríð óx, havldar flýðo;
holl ok fremstr at öllu.

Svíar höfðu látit lið mikit ok svâ stórskip sín, var ok flest fólk Ólafs svænska sárt, en hann hafði önga virðíng þá meiri enn áðr, ok varð þá feginn er hann komst með fjörvi undan. [Svâ segir Hallarsteinn:

Rann skjótt ræsir mátti
rit vara friðr at líta

[1]) *frá merkinu v. í C.* [2]) Svâ segir Hallarsteinn, C. [3]) grárr, C. [4]) gjörði, C. [5]) tröllmarr, C, F. [6]) tryni eða trúni C. [7]) hræ, C, F. [8]) *v. í C.* [9]) fló, C, F. [10]) þeita eða peita, C.

Sól rauð Svölnis jela
senn davglinga tvenna [1].

Þá hafði Ólafr Tryggvason á flótta komit bæði Davnum ok Svíum, svâ sem Steinn segir:

Tandr flaug, tiggi rendi
tveim döglíngum skögla [2],
hans vegr hófst með sigri;
havll ok fremztr at avllu [3].

[Ok fór þat eptir því sem konúngr hafði sagt [4].

*Viðreign Ólafs konúngs ok Eiríks jarls.*

251. Nú skal segja hvat Eiríkr jarl hafðist at, meðan konúngarnir börðust við Noregs konúng. Jarlinn lagði furst at fremsta [5]) skipi Ólafs konúngs Tryggvasonar í annann arminn, sem áðr er sagt, sýbyrði hann þar við Járnbarðann, hráuð hann þat skip ok hjó þegar or tengslum, en lagði þá at því, er þar var næst, ok barðist til þess er þat var hroðit, tók þá liðit at hlaupa af enum smærrum skipum ok upp á stórskipin, en jarl hjó hvert or teingslum, er hroðit var; en Danir ok Svíar lögðu þá í skótmál öllumegum at skipum Ólafs konúngs, en Eiríkr jarl lá ávallt sýbyrt við skipin ok átti höggorrostu, en svâ sem menn fèllu af skipum hans, þá gengu þegar aðrir upp í staðinn [Danir ok Svíar blóðkýlarnir [6]) hvíldir ok ómóðir ok ekki sárir. [Svâ segir Haldórr enn ókristni:

[1]) *vantar í C, F.* [2]) sköglar, *C.* [3]) holl o. fr. at hollu, *C.* [4]) *v. í C.* [5]) yzsta, *C.* [6]) *v. í C, F.*

Gjörðist snapra sverða
(slitu drengir frið lengi)
þar er gollin spjör gullo,
gángr um Orminn lánga;
dólgs kváðu fram fylgja
fráns legg bíta hânum
svænska menn at sennu
sunnr ok danska runna [1]).

Þá var orrosta bæði hörð ok snörp, fell mjök lið Ólafs konúngs; svâ kom at lyktum at öll voro hroðin skip hans nema Ormrinn lángi, var þar á komit allt fólk Noregs konúngs, þat er vígt var; lagði Eiríkr jarl þá at Orminum 5 stórskipum. Þess getr Steinn:

Ítr jarl einkar snarla
endr fimm skipum rendi
þess [2]) manns þriðja sinni
þremja storms at Ormi.

Jarlinn lagði Barðann síbyrt við Orminn, var þar þá enn grimmazti bardagi ok hin ógrligazta höggorrosta er verða mátti. Svâ segir Haldórr:

Fjörð [3]) kom heldr í harðan
hitto [4]) reyrr saman dreyra
túngl skárust þar tíngla
tángri [5]) ormrinn lángi;
þá er borðmikinn barða
brimflagðs [6]) reginn lagði

[1]) *frá merkinn v. í C.* [2]) þrek, *C., F.* [3]) Ferð, *C, F.* [4]) hnitu, *C.* [5]) tángar, *C.* [6]) brynflagðs, *C.*

(jarl vann hjálms at hólmi
hríð) við Fâfniss síðu.

Eiríkr jarl var í furrúmi á skipi síno ok var þar fylkt með skjaldborg, var þar þá bæði höggorrosta ok spjótum lagit, ok kastað avllu því, er til vâpna heyrði [1]) ok hendr mátti á festa; sumir skutu bogaskoti eðr handskoti, var þá allmikill vâpnaburðr á Orminn, svâ at varla mátti hlífum [2]) fyrir koma. Þá flugu svâ þykt spjót ok örvar, þvíat öllummegin lágu þá herskip at Orminum; en menn Ólafs konúngs gerðust þá svâ óðir, at þeir ljópu upp á borðin til þess at ná sverðshöggum til úvina sinna at drepa fólkit, en margir lögðu ei svâ undir Orminn, at í höggorostunni vildi vera, þvíat flestum þótti hart við at eiga kappa Ólafs konúngs, en Norðmenn hugsaðu ekki annat, en vildo æ fram at drepa sína mótstöðumenn, gengu þeir þá slètt út af borðunum, þvíat þeir geymðu eigi annars fur ákefð ok ofrhuga, en þeir berðist á slèttum velli, ok sukku niðr margir milli skipanna með vâpnum sínum; þess getr Hallfreðr vandræðaskáld:

Sukku niðr af naðri
naddfárs í bavð sárir
baugs gjörðut við vægjast
verkendr Hèðins [3]) serkjar;
vanr mun Ormr, þó at [4]) ormi
aldýrr konúngr stýri,

[1]) var, C. [2]) vopnum, C. [3]) verkomendr Hendiss, B. [4]) þótt, B, C.

þars hann [1]) skríðr meðlið lýða,
lengi slíkra drengja.

Þessir menn ero nefndir af þeim íslenzkum mönnum, er þá voro með Eiríki jarli a Barðanum: Skúli, son Þorsteins Egilssonar, Vigfús Vígaglúmsson, Torfi Valbrandsson; þar var þá ok með jarli norrænn maðr, sá er nefndr er Finnr Eyvindarson af Herlöndum [2]); sumir menn segja, at hann væri finzkr; svâ er sagt, at hann væri fimaztr við boga ok beinskeyttaztr allra manna í Noregi; hann hafði gert boga Einars Þambarskelfis. Einarr var á Orminum í krapparúmi, ok skaut þaðan um daginn af boga, hann var allra manna harðskeytaztr; Einar skaut öru at Eiríki jarli, ok flaug í stýrishnakkann fyrir ofan höfut jarli svâ hart, at allt gekk upp á reyrbönðin. Jarl leit til ok spurði sína menn, ef þeir vissi, hverr þar skaut svâ hart; ok jafnskjótt kom önnur örin svâ nærr jarli, at sú flaug milli síðu hans ok handarinnar, ok svâ aptr í höfðafjölina, at úti stóð broddrinn. Þá mælti jarl við Finn Eyvindarson: skjót þú manninn þann hinn mikla í krapparúminu. Finnr svarar: þat má ek eigi at skjóta þann mann, þvíat hann er eigi feigr, hitt má vera at ek fái lamit bogann fur honum. Finnr skaut þá bíldör, ok kom á miðjan boga Einarrs, í því er hann dró hit 3ja sinn bogann sem fastazt, hraut þá í sundr boginn ok brast við hátt; þa mælti Ólafr konúngr: hvat

[1]) hann, *vantar í B, C.* [2]) þannig *A, B, C.*

brast þar svâ hátt? Einarr svarar: Norcgr or hendi þèr, konúngr. Ekki mun svå mikill brestr vorðinn, segir konúngr, þvíat guð mun ráða ríki mínu, en ekki bogi þinn; tak nú boga minn ok skjót af; kastaði konúngr til hans boganum. Einarr tók upp bogann ok dró þegar fur odd örina; hann mælti: ofveikr ofveikr allvalds bogi; kastaði hann þá aptr boganum til konúngs, en tók skjöld sinn ok sverð ok barðist djarfliga.

252. Ólafr konúngr Tryggvason stóð í lyptíngu á Orminum, ok skaut lengstum um daginn, stundum bogaskotum, en stundum gaflökum, ok jafnan tveim senn; var þat allra manna mál bæði vina hans ok úvina, þeirra er þar voro við staddir, ok svâ hinna, er sannligazt hafa frètt til þeirra tíðinda, er þar gerðust, at engin mann hafi þeir vitat fræknligar berjast enn Ólaf konúng Tryggvason; þess getr Hallfreðr:

Eigi látast ýtar
enn þeir er víða [1]) nenna [2])
fremra [3]) mann of finna [4])
fólkreifum Óleifi.

Hefir Ólafr konúngr þat haft fyrir flesta konúnga, at hann gerði sik svâ auðkendan í bardaganum, at menn vissu eigi dæmi til, at nökkurr konúngr hefði sýnt sik svâ opinberliga í orrosto sínum

[1]) víðast, *B.* [2]) renna, *B, F.* [3]) frægra, *B.* [4]) finnast, *B.*

mótstöðumönnum, við slíkt ofrefli sem hann átti at skipta; sýndi Ólafr konúngr því sína hugrekki ok hjartaprýði, at allir menn máttu sjá, at hann forðaðist engan háska; svâ segir Hallfreðr vandræðaskáld:

Firðist vættr, sá er varði
víð lönd, Breta stríðir
bleyði firðr við bráðan
bekkdóm Hèðins rekka;
hann lèt of savk sanna,
sverð jálmr[1]) óx þar, verða
skilit frá ek fur Skylja
skóð mær[2]) roðin blóði.

En því auðsærra ok öruggara sem konúngr gerði sik í orostunni, því öllu meiri ógn ok ótti stóð af honum, sem Hallfreðr vâttar:

Hverr var hræddr við örvan
hugdyggan son Tryggva
(óðust málmþings meiðar)
maðr und sólar jaðri.

Ólafr konúngr sá fram á skipit, at menn hans reiddu ótt sverðin ok hjöggu tídt, ok þat sá hann með, at sverðin bitu illa; hann mælti þá hátt: hvârt reiðit þèr svâ sljóliga sverðin, er ek sè at yðr bíta ekki. Maðr svarar: bæði ero sverð vâr, herra! sljó ok brotin mjök. Þá gekk konúngr ofan or lyptíngunni í fyrirrúmit, ok lauk upp hásætis kistunni, tók hann þar or mörg sverð björt ok hvöss mjök, ok fèkk mönnum sín-

1) hjálmr, B. 2) skóð, B, F.

um; en er hann tók niðr hægri hendi, þá sá menn, at blóð rann ofan undan brynstúkunni, en engi vissi, hvar hann var sárr. Mest var vörnin ok mannskæðuzt af furrúmsmönnum ok stafnbúum, þvíat þar var hvârtveggja mest valit mannfólkit ok hærst borðit. En er mannfallit tók til á Orminum, þá fèll liðit furst um midt skipit, bæði af sárum ok mest af mæði, ok er þat mál manna, ef þat hit frækna fólk hefði mátt til alsendis vörn viðkoma, at Ormrinn mundi seint vunninn hafa vorðit. Svâ segir Hallfreðr:

Mundit [1]) hùng hit lánga
læsíks und gram ríkum
(blóð kom á þravm þíðan)
þjóð varliga hrjóða,
meðan ítrs vina átu [2])
innanborðs at morði
sú gerðist vel varði
verðúng jöfurs sverðum.

Þá er fátt stóð manna upp um sigluskeiðit á Orminum, þa rèð Eiríkr jarl til uppgaungu á Orminn með 15da mann, ok komst upp á Orminn; þá kom á mót honum Hyrníngr, mágr Ólafs konúngs, við sveit manna; varð með þeim hin harðasta hríð, þvíat Hyrníngr barðist alldjarfliga. Svâ segir Hallarsteinn:

Ben lèt (börðust ýtar)

[1]) mundut, *B.* [2]) áta, *B.*

brynskíðs [1]) viðum svíða
Hyrníngr heiptar gjörnum,
hann er ríkstr konúng manna.

Lauk svâ með þeim, at Eiríkr jarl hravkk ofan á Barðann, en þeir menn, er honum höfðo fylgt, fèllu sumir en sumir voro særðir, varð Hyrníngr allfrægr af þessi sókn. Þess getr Þórðr Kolbeinsson:

Þar var hjálmaðs herjat
hrópts við dreyrgar tóptir
orð fèkk gott en gerði
grams vör [2]) blám hjörvi;
höll bilar hárra fjalla,
Hyrníngr, áðr þat fyrnist.

En er Eiríkr jarl var kominn ofan á skip sitt, þá mælti Ólafr konúngr: hvat er, keyrðut þèr jarl nú ofan af Orminum? þeir segja at svâ var. Þat var gert drengiliga, segir konúngr, var ok þess vân, þvíat eigi mun jarl sigra oss, meðan hann hefir Þór í stafni á skipi síno. Þetta heyrðu margir menn ok svâ Eiríkr jarl. Nú með því at fallit var mart lið á Barðanum, en flestir menn sárir mjök, þeir er á lífi voro, þá lagði Eiríkr jarl at landi, ok svâ allir Danir ok Svíar, höfðu höfðíngjar þá ráðagerðir sínar, hversu með skyldi fara. Þá mælti Eiríkr jarl: þetta er eilíf úsæmd, sú er getit mun verða meðan Norðrlönd ero bygð, ef Ólafr Tryggvason verðr eigi sigraðr af oss, þar sem vèr höfum

[1]) brynskiðiss. [2]) vörm ok, B.

enn úflýjanda her, en hann hefir nú eitt skip ok þó fallit margt manna af því; nú gerit svâ vel, Dana konúngr ok Svía konúngr, veitit mèr til styrk fjölmennis, at ek megi hefna föður míns, ok reka af hendi oss öllum samt þessa svívirðíng, þvíat svâ mun fara, sem ek sagði áðr, at vèr munum höfðíngjarnir allir ámæli af fá, ok þeir mest, er ríkaztir ero, ef Ólafr konúngr setr nú undan með sína menn. En er Eiríkr jarl hætti ræðu sinni, rómaðu margir vel ræðu hans; talaðu þeir konúngar ok jarl þetta mál, kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldo fá jarli styrk fjölmennis at leggja at Orminum, skyldi Eiríkr jarl eignast Orminn lánga, ok alt lutskipti þat er þar fengist, en sinn þriðjúng Noregs hverr þeirra, ef hann gæti sigrat Ólaf konúng. En er þetta ráð var fest með einkamálum, þá bjóst allr herr Dana ok Svía enn af nýju, herðu menn þá hugi sína ok eggjaði hverr annann, sögðu at þeir skyldo þá aldri lètta, furr enn þeir hefði sigrat Ólaf konúng Tryggvason.

255. Eiríkr jarl lagði þá af Barðanum lík ok sára menn, en skipaði í staðinn úsárum mönnum ok hvíldum, þeim er hann valði af Svíum ok Dönum. Er ok svâ sagt af sumum mönnum, at jarl hafi þá heitit at láta skírast, ef hann fengi unnit Orminn, ok þat til marks at þeirra manna sögn, at hann kastaði brottu Þór, en setti upp í staðinn róðukross í stafninn á Barðanum. En er jarl hafði búit lið sitt,

mælti hann við einn vitran mann ok mikinn höfðíngja, er þar var þá viðstaddr, Þorkel hinn háfa, bróður Sigvalda jarls: opt hefir ek verit í bardögum, segir Eiríkr jarl, ok hefir ek aldri firr fundit jafnhrausta menn ok svâ vígkæna, sem þá, er á Orminum ero, ok eigi hefir ek sèð jafn torsótt skip at vinna sem Orminn; nú með því at þú ert allra manna vitraztr, þá legg til þau ráð, er þú kannt bezt til, at Ormrinn verði unninn. Þorkell svarar: eigi kann ek þar ráð til at leggja, svâ at öruggt sè, en segja má ek þat er mèr sýnist líkazt at duga muni; þú skalt taka stór trè ok fella af skipi þínu á Orminn, svâ at honum halli til, mun yðr þá verða auðveldri uppgánga á Orminn, ef börð hans berr eigi hærra enn annarra skipa; en ek kann hèr ekki ráð til at leggja, ef þetta görir [1]) ekki; bjóst jarl þá svâ um, sem Þorkell sagði fur.

*Viðbúníngr Ólafs konúngs ok kappa hans.*

254. En meðan þessi ráðagerð ok hvíld varð á bardaganum, þá báðo enn menn Ólafs konúngs, at hann skyldi leita undan með nökkuru móti; sögðu þat, sem satt var, at þeir höfðo þar mest í hættu, sem hann var, lètu þess vân, at allir hans menn, þeir er þar voro, mundo ná lífs griðum af úvinum [2]) hans, þegar þeir vissi, at hann væri í brotto; sögðu þeir ok, ef hann vildi hitt heldr, at þat mætti þá vel leikast at vinda segl á Orminum ok sigla á haf út ok svâ

[1]) dugir, *B.* [2]) vinum, *B.*

norðr eptir liði síno. En konúngr svarar með sama móti sem furr, at hann mundi eigi flýja fur sínum úvinum, meðan hann mætti halda heilu skipi síno; sagði hann sèr þat ekki rètt, þvíat enn þikkir mèr eigi víst, at þeir fái unnit Orminn, meðan svâ margir vaskir drengir ero til varnar. En er þeir áttu um þetta at tala, þá rèri at Orminum Vindasnekkjan sú hin sama, er einsaman hafði legit við land um daginn, ok furr er getit at til tals lögðu við konúng fur bardagann; þessir menn, er á skeiðinni voro, festu sik aptr við lyptíngina á Orminum, ok buðu Ólafi konúngi at gánga upp á Orminn ok berjast með honum, sögðu þeir, at þeir vildo gjarna falla þar með konúngi, eða komast brott með honum, ef þess vyrði auðit. Konúngr svarar: þat gerir mèr ekki, segir hann, at þèr gángit á Orminn at berjast með oss, enn hitt má vera, at mèr komi at gagni, at þèr liggit í sama stað, sem þèr hafit í dag verit. Rèru þeir þá aptr ok lögðust enn um akkeri.

*Önnur atlaga Eiríks jarls at Orminum lánga.*

255. Eiríkr jarl lagði at Orminum í annat sinn, þegar hann var búinn, ok allr herrinn Dana ok Svía lagði þá enn til orrosto við Ólaf konúng Tryggvason, stúngu Svíar [1]) þá stöfnum at Orminum, en hitt var allr múginn hersins, er lágu í skotfærum við Norðmenn, ok skutu á þá sem tíðazt. Jarl sýbyrði Barðanum enn við Orminn ok

[1]) sumir, *B. F.*

gerði allharða hríð með því liði, er þá var úmódt komit á Barðann, sparðist hann ok ekki sjálfr við orustona ok þeir er eptir voro af hans mönnum. Svâ segir Haldór:

Hykkat ek vægð at vígi
vann drótt jöfur sóttan
fjörð komst [jarls at [1]) jörðu
óguharðan sik sparði [2]);
þá er fjarð [3]) Mývils forðot
fólkharðr [á mið [4]) barða
lítt var sævar sótta [5])
svángr við Orminn lánga.

Ólafr konúngr ok hans menn vörðust með hinni mestu hreysti ok drengskap, svâ at [lítt þokaðist [6]) á um mannfallit á Orminum, meðan þeir voro hvíldir, en þeir drápu mart manna af sínum úvinum bæði af Járnbarðanum ok öðrum skipum, þeim er at höfðo lagt Orminum. Nú með því at Eiríki jarli veitti enn seigt atsóknin, þá lèt hann vinda upp stórviðu á Barðanum ok fella á Orminn lánga; er þat mál manna, at Ormrinn mundi eigi vunninn hafa vorðit nema með þessi atför, sem Þorkell hinn háfi hafði ráð til gefit. Þessa getr Hallarstein:

Rán [síks remmi [7]) lauka
róg svellir bað fella
(styrr þreifsk) stæri aska
strángr á Orminn lánga;

[1]) jarl af. [2]) sparða *B.* [3]) fjar *B.* [4]) at við, *B.*
[5]) sóti, *B.* [6]) ekki okaðist, *B.* [7]) harri teins, *B.*

ætt stórr ella mátti
Eiríkr í dyn geira
öllinn [1]) aldri vinna
Ólaf und veg sólar.

Tók þá mjök at hallast Orminn, er stórviðir voro feldir á annat borðit; gjörðist þá mikit mannfall af hvârumtveggjum; en er þynntist skipan til varnar á Orminum, þá leitaði Eiríkr jarl til uppgaungu, ok varð þar hörð viðtaka; en er stafnbúar Ólafs konúngs sá, at jarl var upp kominn á Orminn, þá sóttu þeir aptr á skipið, ok snèrust til varnar móti honum, ok veittu hit snarpazta viðrnám, en fur því at þá tók svâ mjök at falla liðit á Orminum, at víða gerðust auð borðin, þá tóko jarlsins menn víða upp at gánga, en alt þat lið, er þá stóð upp til varnar, sótti aptr á skipit þar til er konúngrinn var. Svâ segir Haldór hinn ókristni, at jarl eggjaði þá sína menn:

Hèt [2]) á heiptar nýta
hugreifr (með Óleifi
aptr stavkk þjóð um þóptur)
þengill sína drengi;
þá er hafvita höfðu
Hallands um gram snjallan
(varð fur Vinda myrði
vâpn eiðr) lokit skeiðum.

Svâ er sagt at Þorsteinn uxafótr væri í furrúminu aptr við lyptíngina, hann mælti til Ólafs konúngs,

[1]) ólinn, B. [2]) Hæt, B.

þá er lið jarls gekk sem óðazt upp á Orminn: herra! segir hann, hvârt skal nú hverr sem má? Hví skal nú eigi, segir konúngr. Þorsteinn sló þá með hnefa sínum einn mann jarls, er upp ljóp á borðit hjá honum, hann setti utan við vángann svâ hart, at maðrinn hraut lángt á sjáinn í brottu ok hafði þegar bana; eptir þat gerðist Þorsteinn svâ óðr, at hann greip upp beitiásinn ok barði með. En er þat sá Ólafr konúngr, mælti hann til Þorsteins: tak vâpn þín, maðr! ok verst með þeim, þvíat vâpn ero til þess, at menn skulo berjast með í orrostom, en ekki vega med einumsaman höndum sínum eðr trjám. Þorsteinn tók þá sverð sitt ok barðist með drengiliga; var þá enn um hríð orrosta hin ákafazta í furrúminu. Ólafr konúngr skaut or lyptínginni gaflökum eðr spjótum bæði hart ok tídt; þess getr Hallarsteinn:

Hvast skaut (hlífar brustu)
hildíngr or lyptíngu
síðan [sýnt nam [1]) cyðast,
sóknstrángr, drekinn [2]) lángi.

Ólafr konúngr þá er hann sá, at Eiríkr jarl var kominn í furrúmit á Orminum, skaut konúngr til hans þrimr kesjum skamskeptum, en þær fóro ekki eptir venju, þvíat Ólafr konúngr hafði ekki verit missilengr, hvar sem hann hafði til skotit, en engi þessi kesja kom á jarl, flaug hin fursta fur utan hægri síðu honum, en önnur með sama hætti á vinstri hlið, hin 3ja kesja flaug fram í skipit

[1]) seint mun, *B.* [2]) ormrinn, *B*, *C*.

yfir höfut jarlinum. Þá mælti konúngr: svâ mista ek aldri mans furr, mikil er hamíngja jarls þessa, þat vill guð, at hann hafi nú at sinni ríkit í Noregi, er þat ok eigi undarligt, þvíat ek ætla hann nú skipt hafa um stafnbúana á Barðanum, ferr þat svâ, sem ek sagða í dag, at hann mundi eigi sigrast í vorum skiptum, ef hann hefði Þór í stafninum. Nú fyrir þá sök, at margt fólk af liði jarls var þá komit upp á Orminn, svâ sem vera mátti á skipinu, ok skip hans lágu öllummegin utan at Orminum, [en lítit fjölmenni til varnar ímóti svâ miklum her, þá [1]) fellu nú á lítilli stundu margir kappar Ólafs konúngs, þó at þeir væri bæði styrkir ok fræknir; þar fèllu þeir báðir bræðr, mágar konúngs, Hyrníngr ok Þorgerr, Vikarr af Tíundalandi ok Úlfr hinn rauði [2]), ok margir aðrir röskvir drengir, þeir er ágætt orð leifðu eptir sik. Kolbjörn stallari hafði varit stafninn um daginn með aðrum frambyggjum; Kolbjörn var búinn at vâpnum ok klæðum rètt á sömu leið ok Ólafr konúngr, ok því hafði hann svâ búizt, at hann hugsaði, ef þess kynni við þurfa, sem nú var, at veita nökkura hlífð Ólafi konúngi; en er falla tók hit fræknazta lið Ólafs konúngs í furrúminu, þá gekk Kolbjörn upp í lyptíngina til konúngs, mátti þá eigi skjótt kenna, hvârr þeirra var, þvíat Kolbjörn var ok allra manna mestr ok fríðaztr sýnum; var þá svâ mikill vâpnaburðr í lypt-

[1]) *vantar í B.* [2]) Endriði ilbreiðr, Þorsteinn hvíti, Þorsteinn skelkr, Ivar ljómi, *bætir við F.*

íngina, at allir skildir þeirra Ólafs konúngs ok Kolbjarnar voro skúfaðir af skeytum; en er jarls menn sóttu aptr at lyptíngunni, þá sýndist þeim svâ mikit ljós koma yfir konúnginn, at þeir máttu eigi ígegn sjá, en þá er ljósit leið af, sá þeir hvergi Ólaf konúng.

---

